# Samfélagsleg áhrif verkalýðshreyfingarinnar á 20. öld
# Framtíðarsýn á 21. öldinni

Ráðstefna í tilefni af 100 ára afmæli
Verkamannafélagsins Dagsbrúnar og 50 ára afmælis
Bókasafns Dagsbrúnar 23. september 2006

Ritstjórar:
Sumarliði R. Ísleifsson og Þórunn Sigurðardóttir

Efling-stéttarfélag og ReykjavíkurAkademían
Reykjavík 2007

Samfélagsleg áhrif
verkalýðshreyfingarinnar á 20. öld
Framtíðarsýn á 21. öldinni



Umbrot: Skrudda ehf.

Kápumynd: *Fátækt fólk*, mynd eftir Jón Engilberts, unnin með svartkrít á brúnan þykkan pappír. Myndin var á samsýningu í Listamannaskálanum árið 1952. Nokkru síðar keypti Dagsbrún myndina af Jóni. Skrifstofa Dagsbrúnar var þá í Alþýðuhúsinu við Hverfisgötu. Líklega hefur ekki verið mikið veggpláss þar, vegna þess að myndin var í láni í mörg ár hjá Þórshamri (Kommakaffinu á Þórsgötu 1). Þar skemmdist hún og var loks skilað til Dagsbrúnar löngu eftir að félagið flutti á Lindargötu 9.

Prentun og bókband: Prentsmiðjan Oddi hf.

# Efni

# Formáli

Verkamannafélagið Dagsbrún hefði orðið 100 ára 26. janúar 2006 og um svipað leyti var liðin hálf öld frá stofnun Bókasafns Dagsbrúnar. Af þessu tilefni buðu Efling-stéttarfélag og ReykjavíkurAkademían til ráðstefnu laugardaginn 23. september 2006 í Iðnó. Á ráðstefnunni var fjallað um áhrif verkalýðshreyfingarinnar á síðustu öld, en markmiðið var ekki síður að rýna í framtíðina og fá fræðimenn og áhugamenn um þjóðfélagsmál til að spá í spilin á þessum tímamótum.

Á fyrri hluta ráðstefnunnar fjölluðu nokkrir fræðimenn um þætti sem þeir hafa rannsakað eða þekkja vel af fræðasviði sínu.

Ingólfur Gíslason, félagsfræðingur hjá Jafnréttisstofu, fjallaði um efni sem hann nefndi *Framleiðsluhætti og stjórnmál,* en Ingólfur þekkir vel til sögu verkalýðshreyfingarinnar sem söguritari Iðju, félags verksmiðjufólks.

*Barnaskólar í ljósi þjóðfélagsuppruna. Ísland á fyrri hluta 20. aldar* var heiti á fyrirlestri Ólafar Garðarsdóttur, sagnfræðings hjá Hagstofu Íslands. Ólöf hefur m.a. rannsakað kjör og aðstæður íslenskra barna á 19. öld og fyrri hluta 20. aldar.

*Verkalýðshreyfingin og staða kvenna og karla á vinnumarkaði* var heitið á erindi sem Guðbjörg Linda Rafnsdóttir, dósent við félagsvísindadeild H.Í., flutti. Hún fjallaði m.a. um stöðu karla og kvenna á vinnumarkaði á fyrri tíð en Guðbjörg Linda hefur einmitt skoðað kynbundin stéttarfélög á síðustu öld.

Jón Rúnar Sveinsson, félagsfræðingur hjá ReykjavíkurAkademíunni, hefur rannsakað húsnæðismál launafólks hér á landi og flutti hann erindi um *Baráttuna fyrir mannsæmandi húsnæði.*

*Tryggvi sigurvegari? – Íslenskar verkalýðsbókmenntir* vísaði til Tryggva Emilssonar sem sat lengi í stjórn Dagsbrúnar og skrifaði

ógleymanleg meistaraverk sín um kjör íslenskrar alþýðu á síðustu öld. Það var Viðar Hreinsson, bókmenntafræðingur hjá Reykjavíkur-Akademíunni, sem fjallaði um þetta efni.

*Velferðarkerfið: Ávöxtur af baráttu verkalýðshreyfingarinnar* var erindi sem Guðmundur Jónsson, prófessor við hugvísindadeild H.Í., flutti. Rannsóknarsvið Guðmundar hefur m.a. verið hagsaga 19. og 20. aldar og ekki síst þróun íslenska velferðarkerfisins.

Stefán Ólafsson, prófessor við félagsvísindadeild H.Í. flutti erindi um *launþegahreyfingu á nýrri öld,* en hann er orðinn velþekktur á síðustu árum fyrir rannsóknir sínar á velferðarkerfinu og gagnrýni hans hefur vakið verðskuldaða athygli.

Í pallborðinu sem fylgdi á eftir fjölluðu þekktir einstaklingar sem allir tengjast verkalýðshreyfingunni um nútíð og framtíð hreyfingarinnar undir yfirskriftinni *Hvar stöndum við – hvert stefnum við?* Það voru þau Ásmundur Stefánsson, fyrrverandi forseti ASÍ og núverandi ríkissáttasemjari, Edda Rós Karlsdóttir, forstöðumaður greiningardeildar Landsbanka Íslands, Atli Gíslason, lögmaður, og Sigurður Bessason, formaður Eflingar, sem tóku þátt í pallborðinu undir stjórn Þórunnar H. Sveinbjörnsdóttur, varaformanns Eflingar.

Ráðstefnan var áhugaverð og varpaði ljósi á áhrif verkalýðshreyfingarinnar á síðustu öld en um leið var dregin upp spegilmynd af samtíðinni og brugðið ljósi inn í framtíðina.

Það fer vel á því að nú sé þetta efni framsögumanna komið saman í eitt rit fyrir áhugasamt fólk um verkalýðshreyfinguna, sögu hennar og rannsóknir sem tengjast þessari öld stéttaátaka og mikilla sigra launafólks í baráttu fyrir betra samfélagi.

Efling-stéttarfélag vill þakka áðurnefndum fræðimönnum og þátttakendum í pallborði ásamt öðrum þeim sem gerðu þennan dag eftirminnilegan. Sérstaklega ber að nefna Iðnó en húsið er einmitt fögur umgjörð um sögu hreyfingarinnar og þann stórhug sem einkenndi verkalýðshreyfinguna á fyrri hluta síðustu aldar.

Ég býð svo að lokum lesendum að njóta þessa áhugaverða efnis sem hér fer á eftir.

Sigurður Bessason,
formaður Eflingar-stéttarfélags

*Ingólfur V. Gíslason*

# Framleiðsluhættir og stjórnmál

Einn af helstu forystumönnum íslenskrar verkalýðshreyfingar á fyrstu áratugum 20. aldarinnar var Pétur G. Guðmundsson. Hann ritaði bréf árið 1917 þar sem hann rekur nokkuð lífshlaup sitt fram að því. Hann segir meðal annars um stofnun verkamannafélagsins Dagsbrúnar:

> Um nýjár 1906 var stofnað verkamannafjelag í Reykjavík „Dagsbrún". Var jeg einn af stofnendum þess og jafnan í stjórn þess síðan til vors 1914, þar af 4 ár formaður. Fyrir því fjelagi hafði jeg mikið starf og varð að eyða miklu af tíma, starfsþreki og peningum í baráttu við heimsku og illgirni á ýmsar hliðar. Þó fer fjarri að jeg sjái eftir því eða telji það eftir, því fyrir það hefir margur vesalingurinn átt betri daga, en verið hefði ella, og að þeim byrjunarárum samtakastarfsemi sinnar mun verkalýður þessa bæjar lengi búa.

En Pétur kom víðar við og sagði meira í þessu bréfi:

> Við nýjár 1906 gekst jeg fyrir stofnun annars fjelags, sem hafði það eitt með höndum að gefa út blað prentað. Það nefndist „Alþýðublaðið" og var jeg ritstjóri þess. Það átti að vera málgagn verkamanna og hneigðist mjög að stefnu jafnaðarmanna. En blað þetta mætti litlum vinsældum. Stofnfjeð var lítið mjög og salan líka. Margir sem höfðu lofað blaðinu styrk með ritsmíð-

> um og peningum svikust um alt. Jeg varð að hafa mest fyrir því einn, í frístundum eða klípa af vinnutíma til þess fyrir nálega ekkert endurgjald. Eftir 1 1/2 ár hætti blaðið að koma út. Var þá orðið stórskuldugt. Jeg hafði mest hvatt til þessa fyrirtækis og þótti því hlýða að jeg tæki á mig afleiðingarnar óseljanlegan og verðlausan afgang af upplaginu og 600 Kr. skuld. (Úr óbirtu bréfi frá Pétri G. Guðmundssyni í vörslu afkomenda hans, dags. 20. júní 1917.)

Að sumu leyti má í þessum frásögnum Péturs G. Guðmundssonar frá upphafi 20. aldar lesa sögu íslenskrar verkalýðshreyfingar. Hún hefur um margt verið sterk á hinu faglega sviði, sannkölluð fjöldahreyfing og breytt miklu í íslensku samfélagi. Dagsbrún lifði og varð forystufélag verkalýðshreyfingarinnar og samfélagslegra breytinga, alþýðu til hagsbóta. En þegar kemur að öðrum þáttum stéttaátaka, stjórnmálaflokkum, ríkisvaldi og fjölmiðlum, hefur styrkur íslenskrar verkalýðsstéttar verið minni, þar hafa of margir „svikist um alt" svo vitnað sé til Péturs. *Alþýðublaðið* (gamla) dó drottni sínum og viðhorf verkalýðshreyfingarinnar, viðhorf jöfnuðar og félagshyggju, hafa ekki náð að setja mark sitt á íslenska þjóðfélagsþróun í jafn ríkum mæli og einkennt hefur t.d. hin Norðurlöndin.

## Tilurð verkalýðsfélaga

Tilurð verkalýðsfélaga er afleiðing þróunar samfélaga til kapítalískra framleiðsluhátta. Án slíkra samtaka eru launþegar í vonlítilli aðstöðu gagnvart þeim sem eiga framleiðslutækin. Þau endurspegla því mátt fjöldans gagnvart mætti peninganna. Á sama hátt eru pólitískir flokkar, kenndir við einhverja gerð jafnaðar, sósíalisma og félagshyggju slík birtingarmynd. Í öllum vestrænum löndum hafa þessi tvö skipulagsform verkalýðs orðið til, annars vegar verkalýðsfélög sem reynt hafa að sameina alla launþega til kjarabaráttu og hins vegar stjórnmálasamtök sem hafa m.a. með þátttöku í kosningum og þátttöku í ríkisstjórnum reynt að draga úr neikvæðum þáttum markaðshagkerfisins fyrir launþega, hafa í reynd beitt stjórnmálum

gegn mörkuðum eins og það hefur verið orðað (Esping-Andersen 1985). Áhrifa- og valdamöguleikar launþega birtast fyrst og fremst í þessum tveimur þáttum.

Sókn Íslendinga að kapítalískum framleiðsluháttum hófst rétt fyrir og um aldamótin 1900 og á fyrstu áratugum 20. aldarinnar voru mörg verkalýðsfélög stofnuð. Ekki urðu þau öll langlíf og langflest voru fámenn og afar veikburða. Vaninn er að telja að fyrsta raunverulega verkalýðsfélagið hérlendis sé Hið íslenska prentarafélag sem stofnað var 1887 og síðan komi Sjómannafélagið Báran sem stofnað var 14. nóvember 1894 (Ólafur R. Einarsson 1970).

Það er raunar eitt af sérkennum íslensks samfélags að hér urðu atvinnurekendur í sumum tilfellum á undan verkafólki að stofna samtök, því fyrsta íslenska atvinnurekendafélagið, Útgerðarmannafélagið við Faxaflóa, var stofnað 30. september 1894 eða einum og hálfum mánuði á undan Bárunni. Stafar þessi sérstaða fyrst og fremst af því hversu ólíkir hópar sameinuðust í útgerð þilskipa (bændur og kaupmenn) en þeir áttu um margt ólíkra hagsmuna að gæta og ólíka aðkomu að útgerðinni (Ingólfur V. Gíslason 1990). Aðstaða bænda, sem í mörgum tilfellum mönnuðu skúturnar að meira eða minna leyti með afkomendum og vinnumönnum, var allt önnur en kaupmanna sem þurftu að kaupa vinnuaflið. Það voru því kaupmennirnir sem ruddu braut nútímalegum kapítalískum framleiðsluháttum á Íslandi. Mismunandi hagsmunir þessara eigenda þilskipanna gengu líka af Útgerðarmannafélaginu dauðu, samstaða um ráðningarkjör hélt ekki. Í þessu félagi endurspegluðust líka vertíðareinkenni íslensks samfélags á þessum árum og langt fram eftir 20. öldinni, sem hafði margvíslegar afleiðingar fyrir samfélagsgerðina. Bændur höfðu þörf fyrir mikið vinnuafl heima við á sumrin og haustin, og kaupmenn höfðu þörf fyrir jafnan og góðan aðgang að vinnuafli. Og oft var það verkafólki hagstæðara að ráða sig til bænda á sumrin en sækja sjóinn. Vertíðareinkenni samfélagsins voru ákveðinn styrkur fyrir verkafólk.

Fram undir fjórða áratug 20. aldarinnar höfðu varla nema fjögur verkalýðsfélög einhvern verulegan faglegan styrk. Það voru Sjómannafélag Reykjavíkur, Dagsbrún, verkakvennafélagið Framsókn og Hið íslenska prentarafélag. Þrjú þessara félaga skipuðu

ófaglært verkafólk sem sinnti erfiðisvinnu utan dyra. Verkafólk sem fyrst og fremst seldi líkamlega burði sína. Það var ekki fyrr en 1934 sem stofnað var félag verkafólks sem sinnti störfum sem annars staðar voru tengd iðnbyltingunni og kapítalismanum, þ.e. verksmiðjustörfum. Þetta var Iðja, félag verksmiðjufólks. Og það sama sýndi sig hérlendis og erlendis að verksmiðjurnar voru fyrst og fremst mannaðar konum, ungum stúlkum, 2/3 stofnenda Iðju voru konur (Ingólfur V. Gíslason 1994:15–25). Þáttur kvenna í að ryðja kapítalískum framleiðsluháttum braut hérlendis og erlendis er alltof lítið þekktur.

Vel þekkt er að bændur stunduðu hálfgert þrælahald á vinnumönnum sínum. Þeir sendu þá í verið, bæði á árabáta og skútur, og hirtu það sem þeir báru þar úr býtum (sjá t.d. Ingólf V. Gíslason 1990:76–79; Magnús S. Magnússon 1885:87–96). En það er ekki jafn þekkt að svipuð örlög mættu a.m.k. sumum þeirra stúlkna sem réðust í vist í Reykjavík. Þær voru sendar í fiskþurrkun, kolaburð og aðra vinnu og húsbóndinn hirti síðan laun þeirra. Í báðum tilfellum má í raun líta svo á að verkafólk hafi borgað með sér, að vinnumennirnir hafi lagt með sér í bú húsbændanna og slíkt hið sama hafi vinnukonurnar ungu gert.

Ein af forystukonum íslenskrar verkakvennahreyfingar hefur nefnt dæmi um ástandið í upphafi 20. aldarinnar:

> Ég þekkti unga stúlku, sem kom hingað utan af landi. Þá var erfitt að fá vinnu. Hún réðist sem vinnukona til verkstjóra nokkurs. Hann réði hana síðan í aðra vinnu. Þar tók hún í hver vikulok á móti fjörutíu og tveimur krónum og með þær fór hún til húsbóndans. Í hver mánaðarlok greiddi hann henni umsamið kaup fjörutíu og fimm krónur fyrir mánuðinn. (Jóhanna Egilsdóttir 1958:28–29)

Faglegri skipulagningu íslenskrar verkalýðshreyfingar vatt nokkuð vel fram á fyrri hluta 20. aldarinnar. Magnús S. Magnússon telur að árið 1920 hafi 23,2% verkafólks staðið innan Alþýðusambands Íslands, árið 1930 hafi 34,9% verkafólks verið í þeim röðum en 80,6% árið 1940 (Magnús S. Magnússon 1985:205).

# Stéttir og flokkar

Árið 1916 verður svo sá merki atburður að stofnað er Alþýðusamband Íslands. Í samræmi við það sem tíðkaðist víða erlendis var ASÍ bæði stjórnmálaleg og fagleg hreyfing. Þar innan dyra voru bæði jafnaðarmannafélög og verkalýðsfélög og hélst sú skipan allt til upphafs fimmta áratugarins. En ekki var hinn pólitíski styrkur mikill. Stjórnmálaarmur ASÍ, Alþýðuflokkurinn, bauð fram til þings í fyrsta sinn stofnárið 1916 og uppskar 6,8% atkvæða. Og þegar kom að kosningunum 1931 hafði flokkurinn enn ekki nema 16,1% fylgi en annar verkalýðsflokkur sem þá var kominn fram á sjónarsviðið, Kommúnistaflokkur Íslands, fékk 3% atkvæða. Samanlagt fylgi verkalýðsflokkanna var þannig ekki nema 19,1% í byrjun kreppunnar miklu. Í Reykjavík var samanlagt fylgi flokkanna hins vegar rétt um 30%. Á svipuðum tíma var staðan þannig í nágrannaríkjum okkar að sænskir jafnaðarmenn höfðu 30,2% fylgi 1916 og danskir jafnaðarmenn höfðu 28,7% fylgi 1918. Í byrjun fjórða áratugarins voru sænskir jafnaðarmenn með 41,4% fylgi (1930) og danskir með 42,7% (1932).

Þetta er í sjálfu sér vel skiljanlegt. Markaðssamfélagið, kapítalískir framleiðsluhættir, halda ekki innreið sína hérlendis fyrr en um aldamótin 1900 og dreifðust hægt og rólega um landið. Þannig er í raun og veru vart hægt að tala um kapítalisma sem ríkjandi framleiðsluhátt á Íslandi um 1930. Þá eru enn 36% þeirra sem virkir eru í atvinnulífinu í landbúnaðarstörfum en einungis 12% í iðnaði. Þrjátíu árum síðar (1960) eru ekki nema 8% virkir í landbúnaði.

Íslendingar eru sem sagt í byrjun kreppunnar miklu enn á mótum tveggja tíma, bændasamfélagið og smávöruframleiðslan eru enn mjög sterk í landinu. Vertíðareðli samfélagsins heldur aftur af kapítalisma, fiskveiðarnar einkennast af vertíðarbrag og sama á við um landbúnaðinn. Karlar og konur flakka milli þess að taka þátt í venjulegri, taktfastri launavinnu og að hlaupa til fiskverkunar, sláturstarfa og heyskapar. Það er varla við því að búast að vinstri flokkar fái mikið fylgi við þessar aðstæður. Stéttabandalag var nauðsyn ef árangur átti að nást. Það er raunar sama vandamál og verka-

lýðsflokkar stóðu frammi fyrir á hinum Norðurlöndunum og lausn þessa vandamáls var lykillinn að árangri þeirra.

Það er ekki tilviljun að einn af fyrstu bæklingunum sem íslenskir kommúnistar gáfu út bar nafnið *Erindi bolshevismans til bænda* (Einar Olgeirsson 1930). Þeim bæklingi lýkur á þeim orðum „að þessi margrægði bolshevismi sje mesta nauðsyn íslenska landbúnaðarins og helsti bjargvættur bænda“ (bls. 16). Og það er áhugavert að á Jökuldal, af öllum stöðum, voru hvorki meira né minna en 8 félagar í Kommúnistaflokki Íslands. Síðar var sérstakt hefti tímaritsins *Réttar,* sem Einar Olgeirsson ritstýrði, helgað bændum (*Réttur* 1931:3).

Á svipaðan hátt snerist stór hluti stefnuskrár Alþýðuflokksins fyrir alþingiskosningarnar 1934 um stöðu bænda og möguleika þeirra (*Starfsskrá Alþýðuflokksins fyrir næsta kjörtímabil*). Líklega er þetta sósíalistíska stefnuskrá sem sá flokkur sendi frá sér en hann jók nokkuð fylgi sitt í þessum kosningum, fór úr 19,2% 1933 í 21,7% og myndaði í kjölfarið samsteypustjórn með Framsóknarflokknum, sem gekk undir nafninu „stjórn hinna vinnandi stétta“ (Valdimar Unnar Valdimarsson 1984). Menn gerðu sér svo sem grein fyrir því hvernig samfélagið leit út og báðir verkalýðsflokkarnir reyndu að koma á stéttabandalagi verkafólks og bænda. Árangur var raunar frekar takmarkaður og það var ekki fyrr en á fimmta áratug aldarinnar sem samanlagt fylgi verkalýðsflokkanna fór yfir 30% í alþingiskosningum.

Allt frá kosningunum 1942, fyrstu kosningunum eftir sameiningu Kommúnistaflokks Íslands og vinstri manna úr Alþýðuflokknum í Sameiningarflokk alþýðu – Sósíalistaflokkinn, voru Sósíalistaflokkurinn og síðar Alþýðubandalagið annars vegar og Alþýðuflokkurinn hins vegar, flokkar af mjög svipaðri stærð. Hvor um sig með fylgi milli 15% og 20%. Sameiginlegt fylgi þeirra náði hins vegar ekki fylgi Sjálfstæðisflokksins og það er í reynd ekki fyrr en í kosningunum 1971, með tilkomu Samtaka frjálslyndra og vinstri manna, sem flokkar sem kenna sig við félagshyggju með einum eða öðrum hætti, ná því að hafa sameiginlega meira fylgi en Sjálfstæðisflokkurinn.

Ýmsar ástæður hafa verið nefndar fyrir því að hér urðu tveir álíka

stórir verkalýðsflokkar öfugt við hin Norðurlöndin (nema Finnland) þar sem jafnaðarmannaflokkarnir urðu stærstir flokka en kommúnistaflokkar tiltölulega smáir. Mikilvægi forystumanna skyldi ekki vanmetið. Þeir sem náðu því að sitja fund með Einari Olgeirssyni átta sig á því hversu töfrandi, allt að því dáleiðandi persónuleiki hans var. Líklegt er þó að meginskýringin felist einfaldlega í því hve þróunin til kapítalisma var í raun og veru stutt á veg komin þegar kommúnistar hefja hér starfsemi. Það hafði í för með sér að þeir urðu víða það forystuafl sem byggði upp verkalýðsfélög og leiddu stéttaátök í mun ríkari mæli en á hinum Norðurlöndunum þar sem skipulagningu verkalýðshreyfingarinnar var að stærstum hluta lokið þegar kommúnistar koma fram á sjónarsviðið.

Einn af helstu forystumönnum íslenskra kommúnista, Brynjólfur Bjarnason, vék að þessu atriði í viðtali í *Þjóðviljanum* 1938.

Þegar kommúnistar hefja starfsemi sína hér á landi er verkalýðshreyfingin ung og í örum vexti. Hún er ekki stöðnuð í sósíaldemókratískum formum. Það er ekki til nein sósíalistísk tradisjón, engin sósíalistísk fræðikenning. Þeir flokkar sem fara að boða hér sósíalistískar fræðikenningar eru kommúnistarnir. Það eru kommúnistar sem skipuleggja verkalýðshreyfinguna frá rótum í heilum landshlutum. Þar sem helst var vísir að sósíaldemókratískum skipulagsformum, svo sem í Reykjavík, var við rammastan reip að draga (*Þjóðviljinn* 26. maí 1938).

## Styrkur

Sökum þess að kapítalísk þróun hófst seint á Íslandi og miðaði hægt þá voru verkalýðsfélögin frekar fámenn og mörg þeirra veikburða fram á kreppuáratuginn. Þannig samþykktu atvinnurekendur yfirleitt „ekki þá kröfu verkalýðsfélaganna, að félagsbundnir verkamenn ættu frekari rétt á atvinnu en ófélagsbundnir verkamenn“ (Svanur Kristjánsson 1976:30). Eftir það taka þau verulega að eflast og á fjórða og fimmta áratugnum var forgangur félagsbundinna verkamanna til vinnu viðurkenndur. Verkalýðsfélögin eru á heildina litið sterkt samfélagslegt mótunarafl megnið af 20. öldinni. Þau

höfðu mikil og sterk samfélagsleg áhrif og það er lærdómsríkt að skoða hversu mikil átök mörg okkar sjálfsögðu lýðréttinda kostuðu; hvernig andstæðingar verkalýðshreyfingarinnar gerðu því skóna að framgangur krafna verkalýðsfélaganna þýddi endalok íslenskra atvinnuvega.

Verkalýðshreyfingin sýndi oft mikinn faglegan styrk, svo sem þegar hún hratt af sér gerðardómslögunum með skæruverkföllunum 1942. En um margt var erfitt að halda í horfinu og sækja fram, meðal annars sökum þess hvernig sambandi verkalýðshreyfingarinnar og ríkisvaldsins var háttað. Þar á milli ríkti gagnkvæmt vantraust að mati eins þeirra stjórnmálafræðinga sem rannsakað hefur tímabilið fram á sjöunda áratug aldarinnar (Gunnar Helgi Kristinsson 1993:330). Á sama tíma var náið samband og gagnkvæmt traust milli skandinavískrar verkalýðshreyfingar og ráðandi flokka þar. Það auðveldaði t.d. hagstjórn auk þess sem ýmsar réttinda- og kjarabætur fengust með stjórnmálabaráttu, sem var ekki eins algengt hérlendis.

Faglegur styrkur íslenskrar verkalýðshreyfingar var þannig verulegur. En það sem á skorti var að hreyfingin hefði styrkan pólitískan bakhjarl. Hérlendis var enginn einn stór félagshyggjuflokkur sem studdi hreyfinguna og sem hreyfingin gat stuðst við. Hér var enginn stór flokkur sem taldi það hlutverk sitt að verja og auka lýðréttindi, að losa um tök kapítalískra framleiðsluhátta á verkafólki, að berjast fyrir því að fleira hefði gildi en verðmæti á markaði. Það er meginskýring þess að íslensk alþýða hefur búið við ívið lakari félagsleg og borgaraleg réttindi en alþýða hinna Norðurlandanna.

Fæst þeirra réttinda sem teljast þokkalega sjálfsögð á Íslandi í samtímanum hafa fengist baráttulaust. Megnið af lýðréttindum, stærsti hluti velferðarkerfis okkar, hefur komið í kjölfar kröfugerðar verkalýðshreyfingarinnar, krafna hennar um að samfélagsauðurinn sé nýttur almenningi til hagsbóta frekar en í bílífi fárra. Misjafnt er hvort þetta hefur komið í kjölfar verkfalla eða sem einhvers konar félagsmálapakki til þess að leysa kjaradeilur. Takmörkun vinnutímans við tíu stundir á dag árið 1913 kostaði mánaðarverkfall Dagsbrúnar. Hluti af árangri skæruverkfallanna 1942 var að átta stunda vinnudagur varð að almennri reglu. Yfirvinnubann og verkföll árið

1965 leiddu til þess að vinnuvikan var stytt í 44 stundir. Loks var vinnuvikan stytt í 40 stundir með lögum á tímum vinstri stjórnarinnar 1972.

Á sama hátt hefur réttur til orlofs fengist fyrst og fremst með verkföllum. Fyrst 12 dagar eftir skæruverkföllin 1942, 15 dagar eftir desemberverkfallið 1952 og 18 dagar eftir sex vikna verkfallið 1955. Eftir verkfallsátökin í desember 1963 kom júnísamkomulagið 1964 sem lengdi orlofið í 21 virkan dag og vinstri stjórnin sem við tók af viðreisnarstjórninni lengdi orlofið í 24 virka daga 1971.

Loks má taka atvinnuleysistryggingar sem dæmi. Tillögur um atvinnuleysistryggingar hérlendis litu fyrst dagsins ljós á Alþingi árið 1928 og var frumvarp þar að lútandi flutt af þeim Erlingi Friðjónssyni og Jóni Baldvinssyni en það hafði verið samið af jafnaðarmannafélaginu Spörtu og flutt að tilhlutan þess (Helgi Kristjánsson 1985:2). Jafnaðarmannafélagið Sparta var félag kommúnista, stofnað beinlínis með það að marki að stofna kommúnistaflokk á Íslandi (Brynjólfur Bjarnason 1973:17). Báðir voru flutningsmenn meðal forystumanna í verkalýðshreyfingunni. Erlingur var framkvæmdastjóri Kaupfélags verkamanna á Akureyri og síðar ritstjóri *Alþýðumannsins* og Jón Baldvinsson var forseti Alþýðusambands Íslands 1916 til 1938 (Brynleifur Tobíasson 1952). Þessi tillaga var svæfð á þinginu.

Þegar Alþýðuflokkurinn og Framsóknarflokkurinn mynduðu síðan ríkisstjórn 1934, stjórn hinna vinnandi stétta, var eitt atriði málefnasamningsins að undirbúa löggjöf um almennar alþýðutryggingar (Agnar Kl. Jónsson 1969:649). Var það í samræmi við áðurnefnda kosningastefnuskrá Alþýðuflokksins en þar var lagt til í 23. lið „að koma á fullkomnum alþýðutryggingum á þeim grundvelli, sem lagður er með frumvarpi því um almennar alþýðutryggingar, sem þingmenn Alþýðuflokksins hafa borið fram á undanförnum þingum (sjúkra-, slysa-, örorku-, elli- og atvinnuleysis-tryggingar“ (*Starfsskrá Alþýðuflokksins fyrir næsta kjörtímabil,* bls. 11–12). Lög um alþýðutryggingar voru sett árið 1936 og var V. kafli þeirra laga helgaður atvinnuleysistryggingum (bls. 38–43). Sá kafli laganna varð hins vegar ekki annað en orðin tóm því slíkar tryggingar komust ekki til framkvæmda. Í ritinu *Félagsmál á Íslandi* segir m.a. um

atvinnuleysistryggingar: „sá kafli laganna, sem fjallar um atvinnuleysistryggingar, hefur ... verið dauður bókstafur hingað til“ (Jón Blöndal (ritstj.) 1942:102).

Næstu áratugi voru margsinnis lögð fram frumvörp á Alþingi um atvinnuleysistryggingar af hálfu þingmanna verkalýðsflokkanna en án árangurs. Einnig gerði verkalýðshreyfingin sjálf slíkar kröfur í samningum, svo sem fyrir desemberverkfallið 1952 (*Vinnan og verkalýðurinn* 4. tbl., II. árg., okt.–nóv. 1952). Verkalýðshreyfingin krafðist þannig atvinnuleysistrygginga áratugum saman en það var ekki fyrr en eftir sex vikna langt verkfall árið 1955 sem sá draumur hennar varð að veruleika. Þá varð það til lausnar þess verkfalls að ríkisstjórn Framsóknar- og Sjálfstæðisflokks lofaði að sjá til þess að Alþingi samþykkti frumvarp um atvinnuleysistryggingar. Þær atvinnuleysistryggingar sem þá fengust voru þó að hluta með öðrum hætti en verkalýðshreyfingin hafði óskað eftir og allt fram til dagsins í dag hefur hreyfingin verið að reyna að lagfæra þær tryggingar þannig að þær verði með svipuðum hætti og talið er eðlilegt á hinum Norðurlöndunum.

Hinn langi valdatími sænskra jafnaðarmanna hófst með kosningasigrinum 1932. Þeim sigri var þegar fylgt eftir með umfangsmiklum úrbótum á sænskum vinnumarkaði og þar á meðal með löggjöf um atvinnuleysistryggingar 1934 og 1941 (Esping-Andersen 1988; Öhman 1970). Þar þurfti ekki sex vikna verkfall, þar dugði kosningasigur flokks sem leit svo á að hlutverk sitt væri að bæta stöðu verkafólks og launþega.

Mikilvægi félagslegra trygginga fyrir launþega, og þá ekki síst atvinnuleysistrygginga, felast í því að þær styrkja samningsstöðu þeirra gagnvart atvinnurekendum. Það er ekki lengur lífsnauðsynlegt að taka hverju sem er sökum þess að lífsafkoma launþega og fjölskyldna þeirra er ekki algerlega bundin því að einhver kaupi afnot af vinnuafli viðkomandi. Ákveðnir stuðpúðar eru til staðar, möguleikar til að standa tímabundið utan vinnumarkaðar. Á hinn bóginn þarf kerfið auðvitað á því að halda að sem flestir séu þátttakendur á vinnumarkaði og því getur það ekki verið með þeim hætti að litlu skipti fyrir afkomu fólks til langframa hvort það er þátttakandi á vinnumarkaði eða stendur utan hans (Offe 1985:10–79).

Það hefur meðal annars einkennt íslenska velferðarkerfið umfram velferðarkerfi hinna norrænu landanna að hér hefur verið mun meiri tregða til að hafa opna möguleika til að standa tímabundið utan vinnumarkaðarins. Þegar þeir möguleikar hafa svo verið skapaðir hefur verið reynt að hafa þá með þeim hætti að verulegur þrýstingur sé á launþega að snúa sem allra fyrst aftur á vinnumarkaðinn. Þetta á bæði við um atvinnuleysistryggingar (andstöðu við tekjutengingu bóta t.d.) og fæðingarorlof. Fæðingarorlof kemur mun síðar til á Íslandi en á hinum Norðurlöndunum, það hefur verið styttra hérlendis allt til dagsins í dag og greiðslur voru ekki tekjutengdar fyrr en löngu eftir að það fyrirkomulag var tekið upp hjá frændþjóðum okkar (Fríða Rós Valdimarsdóttir 2005; Guðný Björk Eydal 2000).

Þekktasta flokkun velferðarríkja er vafalítið sú sem frá Gösta Esping-Andersen (1990) er komin. Hann skiptir þeim í þrennt: 1. Frjálslynt (liberal) kerfi og þar eru Bandaríkin, Kanada og Ástralía bestu dæmin. 2. Íhaldssamt kerfi sem einkenni Austurríki, Frakkland, Ítalíu og Þýskaland. 3. Kerfi jafnaðarmanna og þar eru skandinavísku löndin besta dæmið. Það sem helst greinir að kerfi jafnaðarmanna og hin kerfin er áhersla hins fyrrnefnda á að allir skuli njóta öryggis hinna félagslegu réttinda og að um sé að ræða borgararéttindi en ekki ölmusu. Það er með öðrum orðum skorið að verulegu leyti á markaðsforsendur, sérhver á rétt á efnahagslegu öryggi án tillits til sölumöguleika á vinnumarkaði (Esping-Andersen 1990:26–28).

## Íslenska velferðarkerfið

Stefán Ólafsson (1999) hefur skoðað þróun íslenska velferðarkerfisins m.a. á grundvelli þessarar flokkunar Esping-Andersen. Að hans mati sker íslenska kerfið sig nokkuð frá hinu skandinavíska en er að sumu leyti skylt kerfinu í Bretlandi, Nýja-Sjálandi og Ástralíu. Þetta á við hvað varðar umfang og örlæti réttindakerfisins, m.a. skerðingar greiðslna til tekjuhærri einstaklinga og lágan lífeyri samanborið við laun (Stefán Ólafsson 1999:242–243).

Þessi sérstaða mótaðist af ýmsu. Hún mótaðist af því að verkalýðsflokkarnir tveir urðu hérlendis svipaðir að stærð en á hinum Norðurlöndunum bar jafnaðarmannaflokkurinn að jafnaði ægishjálm yfir kommúnistaflokkinn. Hún mótaðist líka af því að eftir sameiningu Frjálslynda flokksins og Íhaldsflokksins hefur Sjálfstæðisflokkurinn alltaf haft mest fylgi íslenskra flokka og verið ráðandi flokkur á Íslandi. Á hinum Norðurlöndunum hafa borgaralegu öflin verið klofin í marga flokka. Og ein af skýringum þessa styrks Sjálfstæðisflokksins, og þar af leiðandi einn af mótunarþáttum íslenskrar sérstöðu, er að Sjálfstæðisflokkurinn hóf á seinni hluta fjórða áratugarins markvissa sókn inn í verkalýðsfélögin og náði þar verulegum áhrifum, m.a. sökum hatrammra deilna verkalýðsflokkanna.

Styrkur Sjálfstæðisflokksins innan verkalýðshreyfingarinnar og almennt í íslensku samfélagi hafði tvennt í för með sér. Í fyrsta lagi varð flokkurinn félagslega sinnaðri en venjulegir hægri flokkar í nágrannalöndum okkar. Hann spannar það svið sem t.d. í Svíþjóð er undirlagt af tveimur borgaraflokkum og svo hægri hluta sænskra jafnaðarmanna. Hins vegar hafði þetta þær afleiðingar að velferðarkerfið íslenska þróaðist með sérstökum hætti og fékk t.a.m. meiri frjálslyndiseinkenni en kerfin á hinum Norðurlöndunum (fátækrastyrkir frekar en almenn borgararéttindi).

Þessi óvanalega staða, borgarastétt sameinuð í einum ráðandi flokki, verkalýðsstétt klofin í tvo álíka stóra flokka og ítök borgaralegra afla í verkalýðshreyfingunni er lykilþáttur til skilnings á samfélagslegri þróun á Íslandi frá kreppuáratugnum og fram á 21. öldina.

Ef við skiptum íslenskum stjórnmálaflokkum í þrennt, hægri, vinstri og miðju, verður myndin ekki jafn frábrugðin því sem sést á hinum Norðurlöndunum eftir að kapítalisminn hefur fest sig í sessi hérlendis. Það er nefnilega þannig að allt frá Alþingiskosningunum 1967 hefur munurinn á samanlögðu fylgi vinstri flokka og fylgi hægri flokka yfirleitt verið undir 5%.[1] Undantekningar eru

[1]Til vinstri flokka eru hér taldir Alþýðubandalag, Alþýðuflokkur, Bandalag jafnaðarmanna, Samtök frjálslyndra og vinstri manna, Samtök um jafnrétti og félagshyggju, Samtök um kvennalista, Vinstri hreyfingin – grænt framboð og Þjóðvaki. Til hægri flokka eru taldir Borgaraflokkurinn, Frjálslyndi flokkurinn og Sjálfstæðisflokkurinn.

þrjár og ein þeirra vinstri flokkunum í hag. Fylgi við félagshyggju er þannig líklega síst minna hérlendis en meðal frændþjóðanna. Auk fylgis við stjórnmálaflokka sem kenna sig við félagshyggju hafa viðhorfskannanir einnig sýnt jákvæð viðhorf Íslendinga til félagslegra lausna og velferðarkerfis (sjá t.d. Stefán Ólafsson 1999:252–255 og 350–353).

Meðalfylgi vinstri flokkanna þetta tímabil hefur verið 38,1% en Sjálfstæðisflokksins 38,6%. Félagshyggjan hefur hins vegar ekki náð að setja mark sitt á samfélagið í nokkrum líkindum við kosningafylgi þeirrar hugmyndafræði. Frá þessum kosningum 1967 hefur einn eða fleiri af vinstri flokkunum setið í ríkisstjórn í u.þ.b. 236 mánuði en flokkar til hægri í 366 mánuði. Ástæðan er auðvitað fyrst og fremst sú að þeir flokkar sem kenna sig við félagshyggju hafa verið klofnir í tvennt, þrennt eða fernt.

Þó svo að þessi sérstaða Íslands sem hér hefur verið lýst eigi sér ýmsar orsakir þá eru líklega tvær sem eru mikilvægastar varðandi klofning verkalýðsflokkanna. Annars vegar er um það að ræða að innan Kommúnistaflokksins og síðan Sósíalistaflokksins voru vonir bundnar við annað þjóðskipulag en hinn vestræna kapítalisma. Það var eðlilegt að viðhalda sterkum flokki með þá sérstöðu að stefna að annars konar stjórnskipulagi. Síðar bættist svo við bandaríski herinn og aðildin að Atlantshafsbandalaginu, sem klauf þjóðina áratugum saman. Hvorugt er nú til staðar með svipuðum hætti og var. Það er því sérkennilegt að stjórnmálamenn félagshyggju skuli ekki bera gæfu til að taka höndum saman í þeim tilgangi að þoka þjóðfélaginu frekar til vinstri. Það er enginn sá málefnaágreiningur fyrir hendi að hann rúmist ekki innan eins lýðræðissinnaðs jafnaðarmannaflokks, sem hefði alla burði til að vera stærsti flokkur landsins og geta mótað íslenskt samfélag í anda jöfnuðar og mannúðar. Þetta verður þeim mun sérkennilegra sem það virðist blasa við að framundan sé tímabil þar sem brýnt er að samstaða sé sem mest meðal þeirra sem vilja auka veg félagslegra lausna og vilja styrk verkalýðshreyfingarinnar sem mestan.

Kapítalisminn eflist nú líklega meira í heiminum en nokkru sinni frá því á 19. öld. Þetta á bæði við í landfræðilegri merkingu og hvað varðar einstök svið mannlegrar tilveru. Varla nokkurt ríki

í heiminum andæfir markaðsvæðingu. Í öllum heimsins löndum er gömlum gildum velt til hliðar í þeim tilgangi að þar rúmist markaðsrekstur á verksmiðjum, olíuborunum og námagreftri. Þessi sigurganga stafar meðal annars af því að kapítalisminn er seigur að smjúga framhjá siðum og hefðum og sökum þess að hugmyndafræði hans, frjálshyggjan, er nú á tímum leiðandi hugmyndafræði í heiminum á flestum eða öllum sviðum mannlífsins.

En það er ekki nóg með að kapítalisminn og frjálshyggjan æði yfir Austur-Evrópu, Asíu og Afríku með ægikrafti. Á fornum heimaslóðum leggur kapítalisminn undir sig æ fleiri svið sem fram að þessu hafa ekki þurft að lúta lögmálum markaðarins. Kröfur vaxa um einkavæðingu menntunar og hjúkrunar, að umhyggja, alúð og uppeldi gangi kaupum og sölum. Færri verk eru unnin launalaust innan veggja heimilisins. Fatnaður, matseld og þrif eru á fleiri og fleiri heimilum aðkeyptar vörur og þjónusta. Meira að segja barnaafmæli eru í æ ríkari mæli í höndum atvinnumanna, fara fram í verslunarmiðstöðvum eða á skyndibitastöðum og afþreyingarstöðum, nokkuð sem kallað hefur verið „MacDonaldisering" bernskunnar (Mestrovic 1997:51). Sóknin er líka inn á svið sem fáa hefði líklega dreymt um. Líffæri fólks, egg kvenna og afnot af legi þeirra eru líka þættir sem í æ ríkari mæli eru markaðsvæddir. Þróunin á Vesturlöndum er augsýnilega í átt til markaðsvæðingar allra þátta mannlegrar tilveru.

Um alla Evrópu er nú rætt í fullri alvöru um að lengja vikulegan vinnutíma, stytta orlof, hækka eftirlaunaaldur og skerða félagsleg réttindi. Og ekki er þetta sökum þess að Evrópu hafi farið aftur, að framleiðslumáttur evrópskra samfélaga sé lakari en hann hefur verið. Nei, þetta stafar af tvennu. Annars vegar því að ríkisstjórnir Evrópu hafa ekki tekið alvarlega kröfuna um að sérhver einstaklingur geti sameinað launavinnu og fjölskyldulíf. Þess vegna á öll Evrópa við frjósemiskreppu að stríða, einfaldlega sökum þess að krafan um jafnan rétt og jafnar skyldur karla og kvenna hefur ekki verið tekin alvarlega. Konum er gert að velja milli frama á vinnumarkaði og barneigna og æ fleiri velja framann á vinnumarkaði. Almennt séð er það þannig að þau ríki sem mesta áherslu hafa lagt á möguleika þeirra til að gera hvort tveggja eru líka þau ríki sem búa við hvað

skásta frjósemi. Þessi frjósemiskreppa leiðir til öldrunar evrópskra samfélaga og þar af leiðandi til þess að erfiðara verður að fjármagna velferðarkerfið.

Hin ástæðan fyrir umræðu um meiri vinnu og færri réttindi er hin alþjóðlega samkeppni sem gerir að verkum að atvinnurekendur í allri Evrópu nota innflutt vinnuafl eða flutning fjármagns og fyrirtækja til annarra landa til að þrýsta kjörum og félagslegum réttindum niður á við.

Það er alveg ljóst að varnarbarátta er framundan hjá þeim sem telja það nokkurs virði að hérlendis sé þokkalegt velferðarkerfi. Verkalýðshreyfingin hefur þegar brugðist við með því að aðstoða við uppbyggingu og skipulagningu verkalýðsfélaga í öðrum löndum og endurreisn þeirra í t.d. Eystrasaltsríkjunum og Austur-Evrópu. Þar er alþjóðahyggja verkalýðshreyfingarinnar í verki. Á sama hátt hafa skandinavísku verkalýðsflokkarnir aðstoðað við að skipuleggja og ýta úr vör félagshyggjuflokkum í þessum löndum.

Það er heldur dapurlegt að þurfa að horfa upp á það við upphaf 21. aldarinnar hversu lítið hefur lærst af hinni 20. Svo virðist sem íslensk verkalýðshreyfing verði að heyja sína varnarbaráttu á næstu árum án þess að hafa þann sterka pólitíska stuðning sem getur ráðið úrslitum um hvert verður stefnt. Það er þeim mun dapurlegra þegar allar forsendur ættu að vera til staðar fyrir stóran jafnaðarmannaflokk sem væri skuldbundinn til að verja áunnin lýðréttindi og áunna velferð. Það er því miður ekki margt sem bendir til þess að verkalýðshreyfingin muni eignast slíkan bakhjarl á næstu árum.

## Heimildir

Agnar Kl. Jónsson. 1969. *Stjórnarráð Íslands 1904–1964* II. Reykjavík.
Brynjólfur Bjarnason. 1973. *Með storminn í fangið* I. Reykjavík.
Brynleifur Tobíasson. 1952. *Alþingismannatal 1845–1952.* Reykjavík.
Einar Olgeirsson. 1930. *Erindi Bolshevismans til bænda.* Akureyri.
Esping-Andersen, Gösta. 1985. *Politics Against Markets: The Social Democratic Road to Power.* Princeton.
Esping-Andersen, Gösta. 1988. „Jämlikhet, effektivitet och makt. Social-

demokratisk välfärdspolitik.“ *Socialdemokratins samhälle. SAP och Sverige under 100 år.* Klaus Misgeld o.fl. ritst. Kristianstad.

Esping-Andersen, Gösta. 1990. *The Three Worlds of Welfare Capitalism*. Cambridge.

Fríða Rós Valdimarsdóttir. 2005. *Þróun löggjafar um fæðingarorlof á Norðurlöndunum og reynsla þjóðanna.* Akureyri.

Guðný Björk Eydal. 2000. „Fæðingarorlof og dagvist: Íslensk fjölskyldustefna í 50 ár.“ *Rannsóknir í félagsvísindum* III. Friðrik H. Jónsson og Ingjaldur Hannibalsson ritst. Reykjavík.

Gunnar Helgi Kristinsson. 1993. „Valdakerfið fram til viðreisnar 1900–1959.“ *Íslensk þjóðfélagsþróun 1880–1990.* Guðmundur Hálfdanarson og Svanur Kristjánsson ritst. Reykjavík.

Ingólfur V. Gíslason. 1990. *Enter the Bourgeoisie. Aspects of the formation and organization of Icelandic employers 1894–1934*. Lundur.

Ingólfur V. Gíslason. 1994. *Bjarmi nýrrar tíðar. Saga Iðju, félags verksmiðjufólks, í 60 ár.* Reykjavík.

Jóhanna Egilsdóttir. 1958. „Fórnarlund fyrir öllu.“ *Við sem byggðum þessa borg* III. Ritstjóri Vilhjálmur S. Vilhjálmsson. Reykjavík.

Jón Blöndal (ritstj.). 1942. *Félagsmál á Íslandi.* Reykjavík.

*Lög um alþýðutryggingar*. 1936. Reykjavík.

Magnús S. Magnússon. 1985. *Iceland in Transition. Labour and socioeconomic change before 1940*. Lundur.

Mestrovic, Stjepan G. 1997. *Postemotional Society.* London.

Offe, Claus. 1985. *Disorganized Capitalism.* Cambridge.

Ólafur R. Einarsson. 1970. *Upphaf íslenskrar verkalýðshreyfingar*. Reykjavík.

*Réttur* 1931. XVI (3).

*Starfsskrá Alþýðuflokksins fyrir næsta kjörtímabil: Íslenzk 4ára áætlun 1935–1939.* 1934. Reykjavík.

Stefán Ólafsson. 1999. *Íslenska leiðin. Almannatryggingar og velferð í fjölþjóðlegum samanburði.* Reykjavík.

Svanur Kristjánsson. 1976. *Íslensk verkalýðshreyfing 1920–1930.* Reykjavík.

Valdimar Unnar Valdimarsson. 1984. *Alþýðuflokkurinn og stjórn hinna vinnandi stétta 1934–1938.* Reykjavík.

*Vinnan og verkalýðurinn.* 1952. II (4, okt.–nóv.).

*Þjóðviljinn.* 26. maí 1938.

Öhman, Berndt. 1970. *Svensk arbetsmarknadspolitik 1900–1947.* Stokkhólmur.

*Ólöf Garðarsdóttir*

# Þjóðfélagsbreytingar og skólasókn á fyrri hluta 20. aldar með sérstakri áherslu á þjóðfélagsuppruna nemenda

Um þar síðustu aldamót bjó allur þorri Íslendinga í sveit eða fámennum sjávarplássum. Í Reykjavík voru íbúar tæplega 7.000 og segja má að höfuðborgin hafi þá verið eini fulltrúi eiginlegs þéttbýlis á Íslandi. Þéttbýlismyndun var hröð framan af 20. öldinni; um aldamót bjuggu aðeins 12% íbúa í bæjum með yfir 1.000 íbúa. Þetta hlutfall var komið í 44% árið 1930 og um miðja 20. öldina bjuggu nær tveir þriðju hlutar íbúa á þéttbýlisstöðum með meira en 1.000 íbúa (*Hagskinna* 1997:86 og 123). Þessar breytingar liggja til grundvallar ýmsum félagslegum og efnahagslegum breytingum á íslensku samfélagi á öndverðri 19. öld og fyrstu áratugum þeirrar 20. Forsendur fyrir stofnun verkalýðsfélaga voru veikar í dreifbýlu bændasamfélagi þar sem allur þorri landsmanna hafði framfæri sitt af landbúnaði. Með þéttbýlismyndun efldist stéttarvitund meðal einstaklinga úr neðstu lögum samfélagsins og forsendur sköpuðust fyrir samtakamætti þeirra. Miklar breytingar urðu á íslensku samfélagi við það að atvinnuskipting meðal landsmanna tók stakkaskiptum. Mynd 2 sýnir að árið 1880 höfðu nær 80% allra framfærenda framfærslu sína af landbúnaði. Þetta hlutfall lækkaði ört á fyrri hluta 20. aldar og var einungis 25% um miðbik aldarinnar.




Mynd 1. Hlutfall íbúa í þéttbýli með 1000 íbúa eða fleiri. Heimild: *Hagskinna 1997: 86 og 123.*




Mynd 2. Atvinnuskipting landsmanna 1880–1950. Heimild: *Hagskinna 1997: 217.*

Þá höfðu rúmlega 15% landsmanna framfæri sitt af fiskveiðum og 14% af iðnaði (*Hagskinna* 1997:217).

Mikil fjölgun landsmanna í þéttbýli á fyrri hluta 20. aldar kemur líka fram í miklum barnaskara á mölinni. Mynd 3 ber saman fjölda barna á skólaaldri í Reykjavík og utan Reykjavíkur frá 1880–1950.

Á því tímabili urðu fremur litlar breytingar á fjölda barna sem bjuggu utan höfuðborgarinnar, þau voru tæplega 14.000 árið 1880 en hafði fjölgað í rétt rúmlega 17.000 um miðja öldina. Í Reykjavík fjölgaði börnum á aldrinum 5–14 ára aftur á móti úr rúmlega 400 árið 1880 í rúmlega 9.000 árið 1950.

Mikil fjölgun barna og ungmenna í þéttbýli skapaði ný og óþekkt vandamál. Hvaða viðfangsefni ætlaði hið nýja borgarsamfélag börnum og ungmennum? Að hve miklu leyti tóku þau þátt í atvinnulífi landsmanna og hversu miklum tíma eyddu þau innan veggja skólans? Hér verður sjónum beint að barnaskólaskólanámi á fyrri helmingi 20. aldar. Leitað verður svara við því hvort nemendum var mismunað eftir þjóðfélagsuppruna.

Almenn skólaskylda og síaukin skólasókn á Vesturlöndum á 19. öld verður að nokkru leyti rakin til iðnvæðingar og tæknivæðingar. Hún verður þó ekki síður rakin til nútímavæðingar í víðum skilningi. Hugmyndafræðinni um eina karlkyns fyrirvinnu og heimavinnandi húsmóður óx fiskur um hrygg á þessum tíma og hafði




Mynd 3. Barnaskarinn á mölinni. Fjöldi 5–14 ára barna í Reykjavík og utan Reykjavíkur. Heimildir: *Folketællingen paa Island den 1ste Oktober 1880. – Folketællingen paa Island den 1ste November 1890. – Folketællingen paa Island den 1. November 1901. – Manntal á Íslandi 1. desember 1910. – Manntal á Íslandi 1. desember 1920. – Manntal á Íslandi 1. desember 1930. – Manntal á Íslandi 2. desember 1940. – Manntal á Íslandi 1950.*

einnig áhrif á viðhorf til barna og stöðu þeirra í vaxandi borgarsamfélögum. Vettvangur kvenna og barna færðist – í það minnsta í hugum manna – inn á heimilin og inn í skólana. Lög um skólaskyldu litu dagsins ljós í flestum löndum Vestur-Evrópu um miðbik 19. aldar í kjölfar laga um takmörkun barnavinnu. Skólum var yfirleitt fyrst komið á í þéttbýli og þar var skólahald lengi vel mun lengra og almennara en í dreifbýlum sveitum. Af umræðum um barnaskólahald í Evrópu um miðbik 19. aldar er ljóst að yfirleitt var lögð mun meiri áhersla á reglubundið skólahald í borgum en í sveitum. Í sveitum var talin minni þörf á skólum. Þar var gengið út frá því að börn hefðu mun meira fyrir stafni þar sem þau gengju til landbúnaðarverka með foreldrum sínum. Áhyggjur af iðjuleysi ungdómsins í stórborgum lágu því öðrum þræði til grundvallar barnaskólahaldi á 19. öld (Cunningham 1991; Bolin-Hort 1989; Sjöberg 1996: Ness 1989; Nissen 1973).

Óhætt er að fullyrða að í samanburði við flest lönd Evrópu hafi Norðurlöndin (að undanskildu Íslandi) skólavæðst frekar snemma. Í Danmörku var lagður grunnur að skólaskyldu árið 1814 en þá var almennt gert ráð fyrir að þau börn sem ekki sóttu skóla nytu kennslu í heimahúsum. Barnaskólum fjölgaði ört á flestum Norðurlandanna alla 19. öldina (Loftur Guttormsson, handrit).

Hér á landi var skólaskyldu komið á mun seinna en í nágrannalöndunum en fyrstu lög um fræðsluskyldu eru rakin til ársins 1907. Fram að því báru heimilin ábyrgð á menntun barna. Í reynd var skólasókn nokkuð almenn á síðustu tveimur áratugum 19. aldar. Um aldamótin 1900 voru starfræktir skólar í öllum kauptúnum og var skólaárið á bilinu 7–9 mánuðir. Í sveitum var heimafræðsla enn við lýði þótt svokölluðum farskólum hefði vaxið fiskur um hrygg á síðustu tveimur áratugum aldarinnar. Þar heyrði þó til undantekninga að börn sæktu skóla í meira en 6 vikur á ári (Loftur Guttormsson 1996).

Þótt skólavæðing væri hér síðar á ferðinni en í nágrannalöndunum fóru Íslendingar ekki varhluta af þeim breytingum sem urðu á viðhorfum til menntunar barna á Vesturlöndum á síðari hluta 19. aldar. Algengt var að skeggrætt væri um barnaskóla á Alþingi á síðustu áratugum aldarinnar og líkt og annars staðar í Evrópu

höfðu menn þungar áhyggjur af aðgerðarleysi barna og unglinga í ört vaxandi þéttbýli.

Það kann að virðast hjákátlegt að bera þéttbýlisstaði á Íslandi saman við stórborgir á meginlandinu. Áhyggjur framámanna á Íslandi af iðjuleysi ungdómsins á mölinni minna þó um margt á umræðuna í iðnvæddustu löndum þegar borgarar kvörtuðu sáran yfir sívaxandi skríl stórborganna, en þar var yfirleitt vísað til drengja úr neðstu lögum samfélagsins. Jón Hjaltalín, sem gegndi stöðu landlæknis um áratuga skeið, átti um tíma sæti á Alþingi. Hann ræddi málefni barnaskóla í Reykjavík á þingi árið 1859 og sagði:

> Hér sjá menn of mikið af því, hvernig börn hlaupa tilsjónarlaust svo að segja allan daginn sjálfala um göturnar; gluggar eru brotnir, steinum er kastað í hesta og stundum á menn, og um þetta er börnum kennt, og mun stundum alltof mikið hæft í því. Hér gerðist sú gamla saga að verkefnaleysið bauð óknyttum heim. (*Tíðindi frá Alþingi Íslendinga* 1859:1036–37)

Í huga Jóns Hjaltalín var almennur barnaskóli lausn á þessu vandamáli. Þessu var nafni hans Sigurðsson hjartanlega sammála en hann komst svo að orði um ungdóminn á mölinni:

> Í öllu því, sem viðkemur góðri reglusemi, hlýðni og samvinnu, stöndum vér á baki annarra. Þessi skortur kemur af því, að okkur vantar skóla. Þetta kemur bæði fram meðal alþýðu upp í sveitum, en mest þar sem þéttbýlt er, einkum í bæjum og sjóplássum; þar er eins sýnilegur skortur á bóklegri kennslu þar að auki. Það er sorglegt að sjá, hvernig börn á þessum stöðum liggja eins og dýr upp við bæjarvegginn allan daginn, eða velta sér um bæjarhlaðið, og venjast á það sem börn, að gjöra ekkert og læra ekkert. (*Tíðindi frá Alþingi Íslendinga* 1859:1044–45)

Enn liðu nokkur ár þar til vonir Jónanna tveggja um almennan barnaskóla í Reykjavík rættust (Ármann Halldórsson 2001). Nokkrum árum áður en þeir létu þessi orð falla á þingi hafði verið stofnsettur barnaskóli á Eyrarbakka, en barnaskólinn á Eyrarbakka

er elsti barnaskólinn á landinu sem enn er starfræktur (Árni Daníel Júlíusson 2003). Barnaskólum fjölgaði ört hér á landi eftir 1880 og sem fyrr segir var almennri fræðsluskyldu komið á með lögum árið 1907. Skólahald var þó um margt ólíkt því sem við eigum að venjast í dag. Til að byrja með náði skólaskylda einungis til barna á aldrinum 10–14 ára og það var ekki fyrr en árið 1936 að skólaskylda var færð niður í 7 ára aldur.

Áfram var mikill munur á lengd skólaárs í dreifbýlum sveitum og í þéttbýli eftir að skólaskyldu var komið á. Einstök skólahverfi höfðu mjög frjálsar hendur um skipulag skóla og því var algengt að börnum undir 10 ára aldri væri gert kleift að ganga í skóla þótt lögin gerðu strangt til tekið ekki ráð fyrir að þau sæktu skóla fyrr en þau voru orðin 10 ára gömul. Það er líka mikilvægt að hafa í huga að heimilum var ætlað að sjá um fræðslu barna þar til þau hófu nám í barnaskóla. Þannig var gert ráð fyrir að börn væru læs þegar þau hæfu skólagöngu sína 10 ára. Í ljósi þessa vaknar spurning um það hvort börn verkamanna sætu við sama borð og börn embættismanna og borgara í hinum nýja skóla. Gátu foreldrar fátækustu barnanna, sem oft á tíðum bjuggu í litlum kjallaraíbúðum, veitt börnum sínum sömu fræðslu og foreldrar úr efri lögum samfélagsins?

Ekki hafa verið gerðar neinar rannsóknir hér á landi á sambandi félagslegs uppruna og námsárangurs fyrir það tímabil sem hér um ræðir. Rannsóknir þeirra Sigurjóns Björnssonar og Wolfgang Edelsteins á námsárangri barna eftir þjóðfélagsuppruna náði til einstaklinga sem fæddir voru á árunum 1950–1961. Rannsóknir þeirra leiddu í ljós fylgni milli þjóðfélagsuppruna og einkunna á barnaprófi. Önnur niðurstaða rannsóknanna var að munur milli þjóðfélagshópa jókst eftir því sem leið á skólagönguna. Munur á einkunnum eftir þjóðfélagsstétt reyndist þannig meiri á gagnfræðaprófi en á barnaskólaprófi. Sigurjón og Edelstein komust þannig að orði um þetta atriði:

> ... for whatever reasons, the discrimination between classes has become more visible in the schools' evaluation of children's achievement as they leave the primary school. The data warrant the question, what is the function of school in the stratification

> process? Does it only mirror cognitive differences prevailing between classes from the outset, differences that become progressively more clear as schooling proceeds; or does the school contribute to class differences in the sense of cumulatively increasing a class handicap as functional agency of growing inequality in the society. (Sigurjón Björnsson og Wolfgang Edelstein 1977:115)

Allmargir fræðimenn hafa fært rök fyrir því að félagslegur hreyfanleiki hér á landi á 19. og 20. öld hafi verið minni en ætla mætti. Rannsókn Guðmundar Hálfdanarsonar um félagslegan hreyfanleika á 19. öld leiddi í ljós að hreppstjórar, sýslumenn og prestar áttu í nær öllum tilvikum þjóðfélagslegar rætur í þessum sömu stéttum (Guðmundur Hálfdanarson 1993:13–15). Sambærilegar niðurstöður um félagslegan hreyfanleika meðal menntamanna á 20. öld má einnig sjá í grein þeirra Keith Webb og Þorbjörns Broddasonar (Þorbjörn Broddason og Webb 1975). Þá hafa rannsóknir sýnt að eftir að samræmdum prófum var komið á í barnaskólum um 1930 kom í ljós að munur var á milli námsárangurs barna í dreifbýli og þéttbýli, munur sem öðru fremur var rakinn til þess að börn í þéttbýli nutu lengri skólagöngu (Loftur Guttormsson, handrit). Er líklegt að sambærilegur munur hafi verið milli þjóðfélagshópa á þessu tímabili?

Við getum velt því fyrir okkur í ljósi ofangreindra rannsókna hvort skólinn sé öðru fremur tæki í höndum ráðandi stétta til að viðhalda ríkjandi samfélagsskipan. Ýmsir félagsfræðingar á sviði menntunarfræði settu á áttunda áratug 20. aldar fram kenningar um *duldu námskrána*. Dulda námskráin felur í sér að markmið skóla séu mun víðtækari en þau yfirlýstu markmið sem koma fram í námskrám og lagaákvæðum hverju sinni. Í opinberum námskrám skóla er markmiðum skólahaldsins gerð skil, markmiðum sem að stofni til eru þekkingarlegs eðlis. Samkvæmt hugmyndasmiðum duldu námskrárinnar dylur þessi yfirlýsta námskrá aðra námskrá, námskrá sem felur í sér félagsmótun í víðum skilningi. Í skólum tileinki börn sér samskiptareglur samfélagsins og verði með tímanum nýtir þjóðfélagsþegnar.

Í ljósi kenninga um dulda námskrá má halda því fram að í skólum læri nemendur hlýðni og undirgefni og þar með að sætta sig við fyrirliggjandi valdahlutföll (Snyder 1971; Ball 1980). Einkunnir og umsagnir um nemendur þjóni í þessu tilliti ekki einungis þeim tilgangi að leggja mat á þekkingu og færni einstaklinga heldur séu þær ekki síður stimpill sem segir einstaklingum hvar þeir eiga heima í samfélagsstiganum. Rannsóknir Wolfgangs Edelsteins og Sigurjóns Björnssonar, sem vísað var til hér að framan, bentu ekki til þess að skólinn hafi á eftirstríðsárunum verið til þess fallinn að útrýma mun á milli stétta. Þvert á móti virtist skólinn hafa átt ríkan þátt í að auka á mun milli þjóðfélagshópa. Hvernig var þessu háttað á fyrri hluta 20. aldar? Þegar haft er í huga að heimilin báru mun meiri ábyrgð á fræðslu barna en síðar varð má gera ráð fyrir að börn verkafólks hafi átt mun erfiðara uppdráttar í skólakerfinu en síðar á öldinni.

Ýmsir aðrir þættir í skólahaldi á fyrstu áratugum skólaskyldu hér á landi gefa tilefni til að ætla að börn foreldra úr neðstu lögum samfélagsins hafi átt erfiðara uppdráttar í skólanum en hin sem stóðu ofar í samfélagsstiganum. Allt fram á 4. áratug aldarinnar réð árangur nemenda á lestrarprófi því í hvaða bekk þeim var raðað. Þetta hafði í för með sér að aldursbil gat verið talsvert mikið innan bekkjar, í fyrsta bekk gátu verið nemendur allt frá aldrinum 7 til 11 ára og dæmi voru um að 7 eða 8 ára gömlum börnum væri raðað í 4. bekk. Myndir 4 og 5 sýna t.a.m. aldursskiptingu í 1. og í 5. bekk í Barnaskólanum í Reykjavík skólaárið 1925–1926. Í 1. bekk voru flestir nemendur 8 ára gamlir en algengast var að nemendur 1. bekkjar væru á aldursbilinu 7–10 ára. Auk þess var einn sex ára nemandi, tveir ellefu ára og einn tólf ára nemandi í 1. bekk barnaskólans á þessu skólaári. Í fimmta bekk voru flestir nemendur á aldrinum 11–13 ára en þann bekk sótti þar að auki eitt 9 ára barn, 22 tíu ára og 18 börn voru 14 ára.

Röðun í bekki eftir einkunn á lestrarprófi virðist hafa haft í för með sér að börnum fátækra foreldra var raðað í lægstu bekkina. Það var a.m.k. skoðun Sigurðar Thorlacius, skólastjóra í Austurbæjarskólanum, en hann barðist um 1930 fyrir því að börnum væri raðað í bekki eftir aldri. Sigurður var þess fullviss að eldra kerfið




Mynd 4. Aldur nemenda í 1. bekk í Barnaskólanum í Reykjavík 1925–1926. Heimild: *Skýrsla um Barnaskóla Reykjavíkur skólaárin 1923–24, 1924–25 og 1925–1926.*




Mynd 5. Aldur nemenda í 5. bekk í Barnaskólanum í Reykjavík 1925–1926. Heimild: *Skýrsla um Barnaskóla Reykjavíkur skólaárin 1923–24, 1924–25 og 1925–1926.*

hefði haft margskonar óæskileg áhrif. Hann færði rök fyrir því að hið hefðbundna fyrirkomulag hefði komið sér afar illa, einkum fyrir börn fátækustu foreldranna. Meiri hætta væri þannig á því að þessum börnum væri raðað í neðstu bekkina en hinum sem hefðu notið markvissrar lestrarþjálfunar hjá einkakennara áður en þau komu í skólann. Orðrétt sagði Sigurður:

> Nú er engan veginn víst að barnið sem kemur ólæst í skólann sé svo tornæmt, að það geti ekki lært, ástæðan getur alveg eins verið sú, að foreldrarnir hafi ekki haft efni á að kosta það til náms áður en það varð skólaskylt. (Sigurður Thorlacius 1933:3)

Aðrar óheppilegar hliðarverkanir gamla fyrirkomulagsins voru, að áliti Sigurðar, þær að þau börn sem gekk verst í námi kæmust aldrei upp í efstu bekkina en tækju fullnaðarpróf upp úr 5. eða 6. bekk (í stað 8. bekkjar sem var efsti bekkur í barnaskólum á þessum tíma). Þar með færu þau meira og minna á mis við verklegar námsgreinar á borð við handavinnu og matreiðslu. Um þetta atriði segir Sigurður:

> Stúlkurnar, sem tekið hafa fullnaðarpróf úr 4. og 5. bekk, en þær munu undanfarin ár hafa verið ca. 15–20 talsins á ári, hafa enga matreiðslu fengið í skólanum, en úr 6. bekk munu hafa tekið fullnaðarpróf 40–50 stúlkur árlega og fengið matreiðslu aðeins einn vetur í stað þriggja. Í líkum tilfellum hafa drengir er tekið hafa fullnaðarpróf úr 4., 5. og 6. bekk verið afskiptir í smíðum, leikfimi o.fl. En ástæða virðist til að ætla að einmitt þessi börn, sem eru á eftir í bóklegum greinum, hafi mesta þörf hins verklega náms. (Sigurður Thorlacius 1933:3)

Hér skal í sjálfu sér ekki lagt mat á það hvort nýtt fyrirkomulag hafi bætt úr umræddri slagsíðu í barnaskólum í Reykjavík. Aftur á móti virðist nokkuð ljóst að börn sátu síður en svo öll við sama borð í barnaskólum á upphafsáratugum skólaskyldu hér á landi. Það er t.a.m. viðhorf ýmissa heimildamanna sem svöruðu spurningalista þjóðháttadeildar Þjóðminjasafns Íslands

um *Uppvaxtarár í þéttbýli*. Þetta verður einkum ljóst af svörum viðmælenda sem ólust upp í stærstu kaupstöðunum, Reykjavík, Hafnarfirði og Akureyri.

Allmargir heimildamanna telja að nemendum hafi verið mismunað eftir þjóðfélagslegum uppruna þeirra. Þá geta sumir þess að einkunnir nemenda hafi farið eftir þjóðfélagsstöðu einni saman. Þetta kemur meðal annars fram í ummælum Dagbjartar Ívarsdóttur (f. 1906) frá Hafnarfirði en hún heldur því fram að það hafi komið fyrir að þegar hlýtt var yfir hafi stundum verið gengið fram hjá þeim krökkum sem „... voru neðarlega í þjóðfélaginu“ (Þjóðminjasafn Íslands 1983. Þjóðháttaskrá. A-Númer 7445). Dagbjört segir enn fremur:

> Mér fannst gaman að læra, en það brann nú við að það væri farið í manngreinarálit með einkunnirnar, því þá voru nú bara munnleg próf og prófdómarar og það kom aldrei fyrir að heldri manna börnin væru ekki með þeim efstu. Við vorum alltaf höfð lægri. Nema einn drengur sem skaraði svo mikið framúr að það var ekki hægt. ... Það var annars gert óskaplega upp á milli. Það fór næstum eftir því hverjir stóðu að börnunum hvað þau fengu í einkunn. Án þess að ég nefni nein nöfn þá minnist ég stúlku af góðu fólki sem var alltaf með góðar einkunnir en ég er hrædd um að þær hefðu ekki verið svona góðar nú til dags. Við fundum það strax og vissulega sárnaði okkur það en það þýddi ekkert að röfla. Svo fengum við prófskírteinin á vorin og það fréttist fljótt hvað hver og einn fékk. (Þjóðminjasafn Íslands 1983. Þjóðháttaskrá. A-Númer 7445)

Ingibjörg Helgadóttir, kaupmannsdóttir úr Reykjavík (f. 1910), taldi að fáir kennarar hefðu gert upp á milli nemenda. Hún minnist þó eins kennara sem hafi látið börn „„höfðingja“ njóta forréttinda. Mér var hún ætíð góð og þar naut ég föður míns, sem hafði einhvern tíma stutt hana á hálku yfir götu!  Ein skólasystir mín fékk 8 í skrift, af því að hún var svo „há til hnésins“ eins og [kennarinn] komst sjálfur að orði“ (Þjóðminjasafn Íslands 1983. Þjóðháttaskrá. Spurningaskrár. A-Númer 6821).

Annar nemandi, Sveinn E. Sveinsson (f. 1899), sonur ekkju sem vann við fiskverkun í Reykjavík, getur þess að einn kennari í Barnaskóla Reykjavíkur hafi gert upp á milli barna eftir efnahag og segir einn kennara hafa átt það til „... að klípa í eyrun á börnum sem hún taldi fátæk. Líka sló hún á hendurnar á þeim með reglustiku. En annars tíðkuðust ekki líkamlegar refsingar af hálfu kennara.“ Að sögn Sveins var hann alltaf í náðinni hjá þessum kennara vegna þess „að henni heyrðist ég heita Sveinn Ziemsen og gaf mér alltaf 8 út á það. Krakkarnir ætluðu að leiðrétta hana, en þá sagði hún: „Þögn í bekknum“ og þar með hét ég Ziemsen hjá henni“ (Þjóðminjasafn Íslands 1983. Þjóðháttaskrá. Spurningaskrár. A-Númer 7357).

Fyrrgreindar rannsóknir þeirra Wolfgangs Edelsteins og Sigurjóns Björnssonar leiddu í ljós að börnum úr neðstu lögum samfélagsins vegnaði verst í barnaskólum. Önnur niðurstaða rannsókna þeirra var sú að drengjum gekk yfirleitt mun betur en stúlkum í skóla. Á þessu var ein undantekning. Stúlkur úr neðstu lögum samfélagsins sýndu mun betri námsárangur en drengir úr sömu stétt. Ýmislegt bendir til þess að ástandið á fyrri hluta aldarinnar hafi verið með áþekku móti. Skýrslur úr Barnaskóla Reykjavíkur á þriðja áratug aldarinnar sýna þannig að stúlkum var yfirleitt raðað ofar í bekki en drengjum (Ólöf Garðarsdóttir 2001). Þetta kemur glöggt fram á mynd 6. Áberandi er að nær 60% nemenda í fyrsta og öðrum bekk voru drengir. Þessu var öfugt farið í efri bekkjunum en þar voru stúlkur áberandi fleiri en drengir. Í efstu bekkjunum tveimur voru stúlkur 54% allra nemenda.

Í skýrslum Barnaskólans í Reykjavík frá 3. áratug aldarinnar er þess getið að stúlkur hafi aðlagast skólalífinu betur en drengir. Í skýrslu fyrir skólaárið 1924–1925 segir:

> Stúlkurnar koma yfirleitt betur undir búnar í skólann .... Komast þar af leiðandi fleiri af þeim upp í efstu bekkina. Heimilin eiga örðugara með að halda drengjunum að námi. Tiltölulega fleiri drengir hætta námi í skólanum fyrir 14 ára aldur. Fá ýmsir þeirra atvinnu, sem heimilin sjá sér ekki fært að hafna. (*Skýrsla um Barnaskóla Reykjavíkur skólaárin 1923–24, 1924–25 og 1925–1926*)




Mynd 6. Hlutfall drengja og stúlkna í einstökum bekkjum Barnaskóla Reykjavíkur skólaárin 1925–1926 og 1926–1927. Heimild: *Skýrsla um Barnaskóla Reykjavíkur skólaárin 1923–24, 1924–25 og 1925–1926.*

Þarna er tæpast vísað til drengja í efri lögum samfélagsins. Það hafa ekki heldur verið þeir sem röðuðust í neðstu bekkina í Barnaskólanum. Ef til vill má leiða að því líkum að það hafi öðru fremur verið drengir úr neðstu lögum samfélagsins sem hafi átt verst uppdráttar í skólanum. Lítum nánar á það.

Á fjórða áratugnum voru líflegar umræður á Alþingi um sérkennsluúrræði fyrir svokölluð „vandræðabörn". Umræðurnar benda til þess að oft hafi verið sett jafnaðarmerki milli fátæktar og „vandræðabarna". Ein af niðurstöðum athugunar á fjölda vandræðabarna, sem gerð var fljótlega eftir að fyrstu barnaverndarlög litu dagsins ljós árið 1932, var að erfiðleikum væri bundið að koma vandræðabörnum fyrir á sveitaheimilum, einkum vegna þess að foreldrarnir væru of fátækir til þess að greiða fyrir dvöl þeirra. Skýrslan sýnir að umrædd „vandræðabörn" voru nær undantekningarlaust drengir (*Alþingistíðindi* 1936, A-deild:583–584). Að nokkru leyti samrýmist þessi niðurstaða rannsóknarniðurstöðum þeirra Sigurjóns Björnssonar og Wolfgangs Edelsteins sem sýna að í lægsta

þjóðfélagsþrepinu vegnaði stúlkum betur en drengjum í skóla. Ljóst virðist þó að á fyrstu áratugum skólaskyldu hér á landi áttu börn úr verkalýðsstétt yfirleitt erfiðara uppdráttar í skóla en börn úr efri lögum samfélagsins. Athyglisvert væri að kanna hvort lenging skólans og meiri áhersla á einstaklingsbundið nám á undanförnum áratugum hefur lagað þessa slagsíðu. Þeirri spurningu er ekki svarað hér en rannsóknir á árangri barna í barnaskólum á 6. og 7. áratugnum benda eindregið til þess að þjóðfélagslegur uppruni hafi mikið um það að segja hvernig börnum vegnaði í skóla.

## Heimildir

*Alþingistíðindi* 1936. Reykjavík.

Ármann Halldórsson. 2001. *Saga barnaskóla í Reykjavík til 1930*. Þuríður J. Kristjánsdóttir bjó til útg. Reykjavík.

Árni Daníel Júlíusson. 2003. *Skólinn við ströndina. Saga Barnaskólans á Eyrarbakka og Stokkseyri 1852–2002*. Sveitarfélagið Árborg.

Ball, S. 1980. „„Initial Encounters“ in the classroom and the process of establishment“. *Pupil Strategies*. Ritstjóri P. Woods. London.

Bolin Hort, Per. 1989. *Work, Family and the State. Child Labour and the Organization of Production in the British Cotton Industry, 1780–1920*. Lundur.

Cunningham, Hugh. 1991. *The Children of the Poor. Representations of Childhood since the Seventeenth Century*. Oxford.

*Folketællingen paa Island den 1ste Oktober 1880*. 1883. Det Kongelige Danske statistiske Bureau. Kaupmannahöfn.

*Folketællingen paa Island den 1ste November 1890*. 1890. Sérprent úr „Statistiske Meddelelser“ 3. Række XII. Kaupmannahöfn.

*Folketællingen paa Island den 1. November 1901*. 1904. Kaupmannahöfn.

Guðmundur Hálfdanarson. 1993. „Íslensk þjóðfélagsþróun á 19, öld“. *Íslensk þjóðfélagsþróun 1880–1990. Ritgerðir*. Ritstjórar Guðmundur Hálfdanarson og Svanur Kristjánsson. Reykjavík.

*Hagskinna. Sögulegar hagtölur um Ísland*. 1997. Ritstjórar Guðmundur Jónsson og Magnús S. Magnússon. Reykjavík.

Loftur Guttormsson. Væntanlegt 2007. Almenningsfræðsla á Íslandi 1880–2007. 1. bindi.

Loftur Guttormsson. 1996. „Kennsla heima og í skóla: þáttur heimila í barnafræðslu á Íslandi 1907–1930.“ *Menntamál* 5:9–22.

*Manntal á Íslandi 1. desember 1910. Stjórnarráð Íslands*. Reykjavík 1913.

*Manntal á Íslandi 1. desember 1920. Hagskýrslur Íslands 46. 1926.* Reykjavík.

*Manntal á Íslandi 1. desember 1930. Hagskýrslur Íslands 92. 1937.* Reykjavík.

*Manntal á Íslandi 2. desember 1940. Hagskýrslur Íslands 122. 1949.* Reykjavík.

*Manntal á Íslandi 1950. Hagskýrslur Íslands II. 18. 1958.* Reykjavík.

Ness, Einar. 1989. *Det var en gang. Norsk skole gjennom tidene*. Ósló.

Nissen, Gunhild. 1973. *Bønder, skole og demokrati. En undersøgelse i fire provstier af forholdet mellem den offentlige skole og befolkningen på landet i tiden ca. 1880–1910.* Óðinsvé.

Ólöf Garðarsdóttir. 2001. „Skóli og kynferði. Hugleiðingar um mun á möguleikum drengja og stúlkna til náms við upphaf skólaskyldu á Íslandi." *Kvennaslóðir. Rit til heiðurs Sigríði Th. Erlendsdóttur sagnfræðingi.* Reykjavík.

Sigurður Thorlacius. 1933. „Skólamál. Ný bekkjaskipun í barnaskólum Reykjavíkur". *Nýja dagblaðið,* 26. nóvember 1933.

Sigurjón Björnsson og Wolfgang Edelstein. 1977. *Explorations in Social Inequality Stratifications Dynamics in Social and Individual Development in Iceland*. Berlín.

Sjöberg, Mats. 1996. *Att säkra framtidens skördar. Barndom, skola och arbete i agrar miljö. Bolstad pastorat 1860–1930*. Linköping.

*Skýrsla um Barnaskóla Reykjavíkur skólaárin 1923–24, 1924–25 og 1925–1926*. Reykjavík.

Snyder, Benson. 1971. *The Hidden Curriculum*. Cambridge, Mass.

*Tíðindi frá Alþingi Íslendínga 1859–60.* Sjöunda þíng, 1. júlí til 18. ágúst 1859. Ritnefndarmenn: H. Kr. Friðriksson og P. Pétursson. Reykjavík.

Þjóðminjasafn Íslands. 1983. Þjóðháttaskrá. Spurningaskrár. Skrá 47. Lifnaðarhættir í þéttbýli.

Þorbjörn Broddason og Keith Webb. 1975. „On the Myth of Social Equality in Iceland." *Acta sociologica* 1:75.

*Guðbjörg Linda Rafnsdóttir*

# Karlkyns fyrirvinnur og konur sem vinna stundum:

## Um verkalýðshreyfinguna og stöðu kvenna og karla á vinnumarkaði

## Inngangur

Margt hefur áunnist í jafnréttismálum frá stofnun verkalýðshreyfingarinnar. Margir einstaklingar sem hafa starfað fyrir hreyfinguna, konur og karlar, hafa unnið mikið og óeigingjarnt starf í þágu kynjajafnréttis. Áherslur verkalýðshreyfingarinnar og einstakra félaga hennar endurspegla þó eðlilega tíðaranda hvers tíma. Af því leiðir að verkalýðshreyfingin hefur ekki alltaf verið í fararbroddi í stefnumótun á sviði jafnréttismála. Nokkrar kenningar eða skýringar eru uppi um orsakir kynjaskipts vinnumarkaðar og kynbundins launamunar. Ein þeirra sem haft hefur áhrif á fræðilega umræðu gengur út frá því að íhaldssemi verkalýðshreyfingarinnar og hagsmunir feðraveldisins hafi stuðlað að því að viðhalda óbreyttri stöðu kvenna og karla á vinnumarkaði (Hartmann 1981).

Þessi grein fjallar þó ekki um kenningar, heldur um jafnrétti kvenna og karla á vinnumarkaði frá stofnun Dagsbrúnar árið 1906 og fram til þessa dags. Einkum er fjallað um hugmyndir um karla sem aðalfyrirvinnu fjölskyldunnar og hvort þær hugmyndir komi í veg fyrir jafnrétti á vinnumarkaði og viðhaldi kynbundnum launamun. Greinin byggir að hluta á doktorsritgerð höfundar (Guðbjörg Linda

Rafnsdóttir 1995). Meðal annars er stuðst við eigindleg viðtöl sem voru tekin í tengslum við doktorsritgerðina, í þeim tilgangi að leita svara við spurningunni hvort kynjaskipt verkalýðsfélög nýttust betur en kynjablönduð verkalýðsfélög í baráttunni fyrir jafnri stöðu kynjanna á vinnumarkaði.[1]

## Kynjaskipt verkalýðshreyfing

Þegar fjallað er um þróun jafnréttis á vinnumarkaði er ekki annað hægt en að minnast þess að hér á landi var verkalýðshreyfingin kynjaskipt að nokkrum hluta svo til alla síðustu öld. Síðustu kynjaskiptu félögin voru lögð niður árið 1997 þegar verkakvennafélagið Framsókn og verkamannafélagið Dagsbrún sameinuðust undir nafninu Dagsbrún & Framsókn – stéttarfélag (*D & F. Fréttablað Dagsbrúnar og Framsóknar* 1997). Efling – stéttarfélag tók svo til starfa í janúar 1999 þegar Dagsbrún & Framsókn – stéttarfélag sameinaðist Starfsmannafélaginu, áður starfsstúlknafélaginu Sókn, og Félagi starfsfólks í veitingahúsum.

Það er mikilvægt að greina hvaða þýðingu kynjaskiptingin hefur haft fyrir stöðu kvenna og karla á vinnumarkaði á 20. öld (sjá Guðbjörg Linda Rafnsdóttir 1995) og þá að sjálfsögðu einnig hvort stigið hafi verið heillaspor út frá jafnréttissjónarhóli þegar kynjaskipt verkalýðsfélög voru lögð niður eitt af öðru við lok þeirrar aldar.

Á þeim tíma sem verkalýðshreyfingin var kynjaskipt veltu sumir vöngum yfir því hvort það væri í anda jafnréttis að hafa konur í einu félagi og karla í öðru – og sitt sýndist hverjum. Á 8. áratugnum voru þessi félög opnuð báðum kynjum – í nafni jafnréttis. Engu að síður voru svo til eingöngu konur í verkakvennafélögunum og í félagaskrá verkamannafélaganna var fyrst og fremst að finna karlmenn. Árið 1989 var aðeins einn karlmaður í verkakvennafélaginu Fram-

[1]Þessum viðtölum og aðferðafræðinni við að taka þau og greina er lýst nákvæmlega í doktorsritgerðinni (Guðbjörg Linda Rafnsdóttir 1995:81–93). Viðtölin voru tekin í þrennu lagi. Haustið 1989 voru tekin bakgrunnsviðtöl. Viðtöl við verkafólk voru tekin sumarið 1990 og við fulltrúa verkalýðshreyfingarinnar sumarið 1991.

sókn en 130 konur í verkamannafélaginu Dagsbrún, eða um 3% félagsmanna. Það að konur skyldu fremur vera í Dagsbrún en karlar í Framsókn endurspeglaði aðallega þá staðreynd að konur unnu í nokkrum mæli störf sem áður höfðu talist hefðbundin karlastörf, en karlar höfðu lítið ráðið sig í hefðbundin kvennastörf.

Fyrsta verkakvennafélagið sem hægt er að finna heimildir um hér á landi er verkakvennafélagið Þörfin, stofnað á Akureyri árið 1909 af konum sem unnu í saltfiski. Lítið af gögnum hefur fundist um félagið, og það virðist einungis hafa starfað í fá ár. Það verkakvennafélag sem var hvað lengst starfandi var verkakvennafélagið Framsókn í Reykjavík (Þórunn Magnúsdóttir 1991).

Konur stofnuðu verkakvennafélagið Framsókn árið 1914 af því að þær áttu ekki aðgang að verkamannafélaginu Dagsbrún, sem hafði starfað frá árinu 1906. Skömmu eftir að verkamannafélagið Dagsbrún var stofnað var borin fram tillaga um að sett væri á fót sérstök kvennadeild innan félagsins. Þetta var gert á 5. fundi þess sem haldinn var 23. febrúar 1906, fyrir 100 árum. Tillagan um stofnun kvennadeildarinnar var felld og flestir fundarmenn voru alfarið á móti því að konur fengju aðild að Dagsbrún (Þorsteinn Pjetursson 1974), en þó urðu líflegar umræður um tillöguna. Viðbrögð við henni má t.d. sjá á þessum orðum Dagsbrúnarmanns:

> Ég legg til að félagsskaparmyndun meðal kvenfólks sé skotið á frest þetta árið. Það hefur ekkert erindi í félagið. Félagið gæti ekki reist rönd við slíku nú fyrst um sinn. Enginn almennilegur maður mundi fást til að gerast forsprakki og framkvæmdafrömuður meðal þess félags. Enda er ekki mikil þörf á félagsskaparmyndun meðal kvenfólks fyrst um sinn, því það mun sannast, að ef kvenfólk stofnar félag og vinnur fyrir ákveðið kaup, sem auðvitað verður ekki mjög lágt, þá veitist húsmæðrum afar erfitt að fá kvenfólk til ígripavinnu, t.d. fiskbreiðslu eða að vinda úr flík. Legg þó til, að eyrarvinna kvenfólks sé takmörkuð eða afnumin með einhverjum ráðum, t. d. með því, að karlmenn afsegi að vinna með kvenfólki í eyrarvinnu (Margrét Guðmundsdóttir 1983).

Annar fundarmaður sagði um tillöguna „að það mundi spilla en ekki bæta siðgæðið, sem nú því miður, ætti ekki úr háum söðli að detta þar sem kvenfólk væri að vinna innan um karlmenn, enda hugsunin óeðlileg og öfug“ (Fundargerð Dagsbrúnar, 23. febrúar 1906).

Í fundargerð frá þessum fundi kemur fram það mat Dagsbrúnarmanna að ef konur fengju aðild að Dagsbrún gæti sundrung í félaginu aukist. Ásgrímur Magnússon bar þó upp svohljóðandi tillögu: „Félagið Dagsbrún kýs 7 manna nefnd til að athuga hvað gjört verður til þess að bæta kjör þeirra kvenna er vinna daglaunavinnu hér í Reykjavík“ (Fundargerð Dagsbrúnar, 23. febrúar 1906). Tillagan var felld með 84 atkvæðum gegn 26. Það má því segja að Dagsbrúnarmenn hafi rekið konur til að stofna sitt eigið verkakvennafélag, verkakvennafélagið Framsókn í Reykjavík, og af svipuðum ástæðum voru stofnuð sérstök verkakvennafélög víða um land. Þrátt fyrir þetta átti ákveðin samvinna sér stað á milli Framsóknar og Dagsbrúnar. Til dæmis áttu fulltrúar beggja félaga rétt til setu á félagsfundum hjá hinu félaginu (Magnús S. Magnússon 1985). Þessu voru ekki allar konur hrifnar af því þær töldu sig heftar af nærveru karlanna. Þegar málfundafélag var stofnað í Framsókn þótti því sérstök ástæða til að taka fram að karlmenn fengju þar hvergi að koma nærri. Ástæðan var sú að þær vildu æfa sig í ræðumennsku áður en þær færu að tala frammi fyrir körlum (Margrét Guðmundsdóttir 1983).

Í nágrannalöndunum voru kynjaskipt verkalýðsfélög starfandi á síðustu árum 19. aldar, en þau voru flest lögð niður í kringum aldamótin 1900. Í Danmörku starfaði þó Kvindelig Arbejderforbund fram á 21. öldina. Hér á landi fjölgaði verkakvennafélögunum stöðugt á fyrri hluta 20. aldar, en það kostaði þó nokkra baráttu fyrir félögin að fá atvinnurekendur til að samþykkja að ganga til samninga við verkakvennafélögin. Smám saman fóru svo æ fleiri karlar að líta svo á að heppilegra væri ef kynjaskipt félög sameinuðust, að konur og karlar störfuðu saman í einu félagi. Konurnar höfðu hins vegar misst á því áhugann og töldu almennt, þegar líða tók á 20. öldina, hagsmunum sínum betur borgið í sérstökum félögum kvenna (Guðbjörg Linda Rafnsdóttir 1995). Þær höfðu lært

af reynslunni að þeim væri sjálfum best treystandi fyrir atvinnumálum sínum. Eitt slíkt dæmi var frá árinu 1920 þegar Alþýðusamband Íslands samdi um 11% launalækkun handa konum, sem þó höfðu fyrir ekki nema tæplega 2/3 hluta af launum karlanna. Rök Alþýðusambandsins voru að með því að lækka laun kvenna myndaðist svigrúm fyrir launahækkun karla sem var sigur fyrir konurnar að mati ASÍ. Jóhanna Egilsdóttir, sem starfaði með félaginu á þessum tíma, sagði að þetta hefði verið ósigur fyrir konur og raunar verkalýðshreyfinguna alla. Eftir þetta hefðu verkakonur ekki vísað vinnudeilum alfarið til Alþýðusambandsins (Jóhanna Egilsdóttir 1980). Það sem gerðist þarna var að Alþýðusambandið leit á karlmenn sem höfuðfyrirvinnur fjölskyldna, og því væri mikilvægast að tryggja þeim hærri laun. Þá sem nú voru hins vegar konur einu fyrirvinnur margra fjölskyldna, og eins og áður hefur komið fram þá höfðu þær, áður en samið var um þessa launalækkun, mun lægri laun en karlar.

Baráttan fyrir hærri launum og styttri vinnudegi einkenndi málflutning verkakvennafélaganna á þessum árum. Engu að síður var það ekki fyrr en á fjórða áratug síðustu aldar sem félögin fóru að krefjast sömu launa fyrir sömu vinnu, þótt konur hefðu að meðaltali ekki haft nema um helming af launum karla þegar verkakvennafélagið Framsókn var stofnað árið 1914 (Margrét Guðmundsdóttir 1983). Það hve seint krafa um sömu laun kvenna og karla kom fram hjá verkakvennafélögunum er áhugavert í ljósi þess að innan Dagsbrúnar voru sterkar raddir um að lág laun kvenna væru ógn við atvinnutækifæri karla og hefðu í för með sér hættu á að laun þeirra lækkuðu. Reyndar virtust launahækkanir til handa konum einnig vera túlkaðar sem ógn við laun karla eins og sést af umræðunni í tengslum við launalækkunina árið 1920, sem fjallað er um hér að framan.

## Gildi verkakvennafélaga á 10. áratugnum

Á 10. áratug síðustu aldar var búið að leggja niður flest verkakvennafélög hér á landi. Engu að síður voru enn nokkur verkakvennafélög

starfandi, svo sem Sókn og Framsókn í Reykjavík og Framtíðin í Hafnarfirði. Í viðtölum við forsvarskonur þessara félaga kom fram að þar sem vinnumarkaðurinn væri enn mjög kynjaskiptur og meðallaun kvenna lægri en karla, þyrfti enn á sérstökum verkakvennafélögum að halda. Auk þess legðu konur að hluta til áherslu á aðra þætti í verkalýðspólitík en karlar, og fulltrúar verkamannafélaganna skildu ekki alltaf sérkröfur kvenna (*Dagsbrún*, október 1989:4–5).[1] Ólíkt því sem gilti á fyrstu árum verkalýðshreyfingarinnar, virtust hins vegar flestir karlkynsfulltrúar verkamannafélaganna nú telja að rétt væri að verkakvenna- og verkakarlafélögin sameinuðust.

Áðurnefnd rannsókn (Guðbjörg Linda Rafnsdóttir 1995) sýnir að innan verkalýðshreyfingarinnar fyrirfundust þó enn mótsagnakenndar hugmyndir um jafna stöðu kvenna og karla í samfélaginu og að hugmyndin um karla sem aðalfyrirvinnur fjölskyldna var enn til staðar. Hugsanlega voru þessar hugmyndir einn helsti Þrándur í Götu launajafnréttis. Þetta má sjá í viðtölum við karlmenn sem voru tekin í kringum 1990. Þar kemur fram að Dagsbrún sé „fyrirvinnufélag“ meðan verkakvennafélögin væru félög þeirra sem „vinna bara stundum“. Í rannsókninni voru þó tekin viðtöl við margar verkakonur, sumar einstæðar mæður, sem unnu ekki bara stundum, heldur alla daga vikunnar, næstum alla daga ársins. Þær voru sumar ekki aðeins í einni vinnu, heldur í tveimur og jafnvel þremur. Sumar höfðu ekki tekið sumarfrí í nokkur ár. Þetta voru ekki konur sem „unnu bara stundum“, en þær bjuggu í þjóðfélagi sem leit ekki á vinnuframlag þeirra sem sjálfgefið. Í viðtölunum komu því fram margar ólíkar skoðanir á milli einstaklinga og jafnvel mótsagnir hjá einstaklingunum sjálfum, þegar rætt var um stöðu kvenna á vinnumarkaði og í þjóðfélaginu almennt. Þetta má ef til vill skýra með því að sumir hafi tileinkað sér „rétta frasa“ um jafnan rétt kynjanna án þess að þeir endurspegluðu raunverulega skoðun þeirra. Einnig er hugsanlegt að sumir fulltrúar verkalýðshreyfingarinnar, eins og verkafólkið sjálft, hafi ekki mótað heilsteypta hugmyndafræði eða stefnumótun sem skoðun þeirra hvíldi á. Reyndar geta mótsagnir verið eðlilegar í löngum viðtölum.

[1]Sjá t.d. viðtöl við Guðmund J. Guðmundsson og Rögnu Bergmann í blaðinu.

Lífið er á köflum mótsagnakennt, sem getur kallað fram mismunandi svör við svipuðum spurningum, eftir því í hvaða samhengi þær eru settar fram. Nefna má sem dæmi um mótsagnir viðtal við karlkynsfulltrúa verkalýðshreyfingarinnar árið 1991. Hann sagði: „Konur eiga að fá að velja hvort þær vinni úti eða séu heima“. Stuttu seinna í viðtalinu sagði hann: „Ég skil ekki kröfur kvenna um að þær eigi jafnan rétt og karlar til þess að vinna úti. Allar konur sem hafa móðurnáttúru skilja hvað það er mikilvægt að þær séu heima hjá börnunum sínum“ (Karlkynsfulltrúi verkalýðshreyfingarinnar 1991). Þessum fulltrúa verkalýðshreyfingarinnar var tíðrætt um móðurhlutverkið og gildi þess að konur væru á heimilinu í stað þess að vera útivinnandi, meðan börnin væru að komast til „vits og ára“. Hann sagðist ekki skilja umræður kvenna um að þær ættu rétt á að vera á vinnumarkaði og að karlar þyrftu líka að vera heima hjá börnunum. Hann vísaði til dýraríkisins og sagði: „Þar sést að það er eðli kvenkynsins að vera nálægt börnum sínum í upphafi æviskeiðsins.“ Þessi fulltrúi verkalýðshreyfingarinnar sagði það jafnframt mjög rangt að vera með sérstök verkakvennafélög. „Þau bera bara vott um að konur eigna sér ákveðin mál og telja sér trú um að karlar geti ekki sinnt þeim.“

Annar karl sem tekið var viðtal við og gegndi á þeim tíma trúnaðarstörfum fyrir verkalýðshreyfinguna kvað enn sterkar að orði um að konur ættu ekki að vera fyrirvinnur. Þegar við ræddum um stöðu verkakvenna í byrjun 10. áratugarins og þá staðreynd að þær fengju almennt greitt samkvæmt strípuðum launatöxtum, ólíkt körlum og fengju þannig minna útborgað, sagði hann: „Ég skil ekki þessar konur í dag sem vilja bara vinna úti. Ég man þegar ég var strákur hvað það var gott að koma heim úr skólanum og fá kakó hjá mömmu. Mér finnst þetta bara vera eigingirni í konunum“ (Karlkynsfulltrúi verkalýðshreyfingarinnar 1991).

Þessi viðhorf endurspegluðu að sjálfsögðu ekki opinbera afstöðu verkalýðshreyfingarinnar, sem hafði á þessum tíma lagt áherslu á jöfn laun fyrir jafnverðmæt störf, stofnun dagheimila til að auðvelda samspil fjölskyldu og atvinnulífs og samfelldan skóladag fyrir börn, svo fáein dæmi séu nefnd. En viðhorfin endurspegluðu hug sumra þeirra sem gegndu trúnaðarstörfum fyrir hreyfinguna. Hefðbundin

orðræða um hlutverk karla og kvenna var þannig ekki langt undan í viðtölum við suma fulltrúa verkalýðshreyfingarinnar, þótt þeir legðu einnig áherslu á jöfn laun karla og kvenna. Þversagnir voru augljósar og áherslurnar fóru eftir því í hvaða samhengi við ræddum um stöðu kynjanna á vinnumarkaði. Á þann hátt endurspegluðu hugmyndir fulltrúa verkalýðshreyfingarinnar að nokkru leyti hugmyndir þjóðfélagsins almennt.

Í viðtölum við konurnar, sem ýmist tilheyrðu verkakvennafélögum eða voru í forsvari fyrir þau, komu einnig fram vissar mótsagnir þegar rætt var um stöðu kvenna og karla á vinnumarkaði. Á sama tíma og sumar þeirra nefndu nauðsyn þess að hafa sérstök verkakvennafélög til að vinna að sérmálefnum kvenna, þá komu mjög oft hefðbundin gildi um hlutverk kynjanna fram í viðtölunum. Sú skoðun var einnig ríkjandi meðal viðmælenda að verkamannafélög væru öflugri en verkakvennafélög og næðu þar með betri árangri í samningum um kaup og kjör. Þarna voru konurnar sem voru í forsvari fyrir verkakvennafélögin því í raun að glíma við samskonar viðhorf og kynsystur þeirra í byrjun 20. aldarinnar, sem þurftu að berjast fyrir því að verkakvennafélögin hefðu samningsrétt. Þær höfðu vissulega samningsrétt á 9. og 10. áratugnum, en að mati margra viðmælenda höfðu þær ekki sömu tök á viðsemjendum, sem litu öðrum augum á vinnuframlag kvenna en karla. Þessar niðurstöður renna stoðum undir könnun sem var gerð árið 1991 og sýnir að meirihluti félagsmanna í verkakvennafélaginu Framsókn taldi að sérstök verkakvennafélög næðu ekki fram betri kjörum fyrir konur en blönduð félög (Hansína B. Einarsdóttir og Herdís D. Baldvinsdóttir 1991). Í skoðanakönnun sem var gerð árið 1996 kom einnig fram að 90% Dagsbrúnarmanna og 80% Framsóknarkvenna voru þeirrar skoðunar að félögin ættu að sameinast.

## Sérhagsmunir

En hverjir voru málsvarar verkakvenna og í hverju var jafnréttið fólgið að mati þeirra kvenna sem gagnrýndu hugmyndir um sameiningu verkakvenna- og verkakarlafélaga í kringum 1990? Ýmsar

konur, bæði verkakonur og þær sem störfuðu innan verkalýðshreyfingarinnar, bentu á ólíka hagsmuni kvenna og karla vegna ójafnrar stöðu þeirra á vinnumarkaði. Þau sem töldu hagsmunum kvenna betur borgið í sérstöku *kvennafélagi* vísuðu m.a. til þess að kynjaskipt verkalýðshreyfing tryggði konum ákveðinn fulltrúafjölda á þing Alþýðusambandsins og Verkamannasambandsins, því að konur eru kosnar til trúnaðarstarfa fyrir verkakvennafélagið á vinnustöðum kvenna. Sameinuðust félögin væri fullvíst að flestir trúnaðarmenn yrðu karlar „og körlum er ekki treystandi fyrir sérhagsmunum kvenna“. Þau sem töldu hagsmunum kvenna betur borgið í *blönduðu félagi* kvenna og karla bentu hins vegar á að slæmt væri að konur einangruðust með sína „kvennapólitík“. Það væri staðreynd að innan heildarhreyfinganna, sem og meðal atvinnurekenda, væri fremur hlustað á raddir karla en kvenna. Því væri málefnum kvenna betur borgið í blönduðum félögum þar sem m.a. karlmenn ynnu þeim brautargengi (Guðbjörg Linda Rafnsdóttir 1995).

Þegar viðtölin voru greind kom í ljós að meðal kvenna, eins og karla, voru margvíslegar og mótsagnakenndar hugmyndir um hverjir væru sérhagsmunir kvenna og hvaða málefni verkakvennafélögin ættu að leggja áherslu á til að bæta stöðu kvenna á vinnumarkaði. Á meðan sumar forystukonur töldu mikilvægt að leggja áherslu á fæðingarorlofsmál og að styrkja stöðu útivinnandi mæðra, til dæmis með lengingu skóladags og auknu framboði dagheimilisplássa fyrir börn, þá gilti það ekki um alla. Hér fylgir tilvitnun í trúnaðarkonu fyrir eitt verkakvennafélaganna. Það var hennar mat að konur þyrftu að vera í sérstökum verkakvennafélögum af því að karlarnir stæðu ekki vörð um sérhagsmuni kvenna á vinnumarkaði. Þegar hún var beðin að segja hvað hún ætti við með sérhagsmunum kvenna sagði hún:

> Ég er kannski gamaldags en mér finnst að ef verkalýðsfélagið getur samið um góð laun fyrir mig, þá skal ég vera manneskja til að sjá um allt hitt. … Ég man eftir að í einum samningum var mikil áhersla lögð á einstæðar mæður. Sko þarna finnst mér verkalýðsfélögin vera farin út fyrir sinn hring ... Verkalýðsfélögin ættu ekki að semja sérstaklega fyrir einstæðar mæður eða um

fæðingarorlof og þess háttar. Það finnst mér alls ekki. Ég hef nú alltaf sagt að hin einstæða móðir átti að hugsa áður en hún framkvæmdi getnaðinn … sjálf hafði ég nú alveg komist af þegar ég var með lítil börn án þess að þiggja neitt frá ríkinu. (Trúnaðarkona verkakvenna 1990)

Þessi viðhorf komu einnig fram hjá fleiri eldri kvenkynsviðmælendum, sem bentu á að yngri konur í dag gerðu of miklar kröfur til ríkisins í stað þess að sjá sóma sinn í að bjarga sér sjálfar. Sá fulltrúi verkakvenna sem vitnað er til hér að framan vildi alls ekki að verkakvennafélagið yrði lagt niður og vísaði þá meðal annars til skilningsleysis karla á sérstökum málefnum kvenna (Guðbjörg Linda Rafnsdóttir 1995).

Áðurnefndar tilvitnanir sýna að konur eru ekki sjálfkrafa boðberar jafnréttis innan verkalýðshreyfingarinnar. Þetta sýnir enn fremur hve mikilvægt það er fyrir jafnrétti á vinnumarkaði að verkalýðshreyfingin í heild og einstök aðildarfélög móti skýra stefnu á sviði jafnréttismála, svo ljóst sé hvert hún stefni, hvaða aðferðum hún muni beita og að tryggt sé að fulltrúar hennar tali einum rómi. Í áðurnefndri rannsókn (Guðbjörg Linda Rafnsdóttir 1995) kom fram að slíka stefnumótun vantaði á þessum tíma hjá verkalýðshreyfingunni allri.

## Nútíminn

En hvar stöndum við þá nú, 100 árum eftir stofnun verkamannafélagsins Dagsbrúnar, 92 árum eftir stofnun verkakvennafélagsins Framsóknar og 9 árum eftir að félögin sameinuðust? Samkvæmt niðurstöðum nýrrar launakönnunar sem gefnar voru út af félagsmálaráðuneytinu í október 2006 er óútskýrður launamunur kvenna og karla 15,7% konum í óhag og hefur launamunurinn staðið í stað undanfarin ár (Jóhanna Egilsdóttir 2006).

Samkvæmt upplýsingum frá hagfræðingi Eflingar eru dagvinnulaun Eflingarkvenna miðað við fullt starf um 80,5% af dagvinnulaunum karla. Þetta mun skýrast að mestu af því að konur

starfa í meira mæli en karlar í hefðbundnum umönnunarstörfum þar sem laun eru almennt lægri en í hefðbundnum karlastörfum. Dagvinnulaun kvenna í hefðbundnum kvennastörfum gefa þannig um 20% lægri laun en hefðbundin karlastörf.

IMG Gallup gerði könnun á launum félagsmanna Eflingar, Hlífar og Verkalýðs- og sjómannafélags Keflavíkur og nágrennis í mars árið 2005. Hringt var í 1487 manns. Af þeim svöruðu 753 eða 50,6%. Í ljós kom að konur eru ósáttari við launin sín en karlar. Konur eru líklegri en karlar til að segja að störf sín séu vanmetin til launa. Karlar höfðu í meira mæli en konur óskað eftir launahækkunum. Konur töldu frekar en karlar að það væri vonlaust eða vonlítið að fá launahækkun (Flóabandalagið 2005).

## Horft til framtíðar

Hvað er hægt að gera til að breyta þessari stöðu? Efling-stéttarfélag leggur áherslu á að fylgst sé með launaþróun kynjanna og notar til þess gögn Hagstofunnar ásamt viðhorfskönnunum. Þessi gögn eru notuð við undirbúning kjarasamningsviðræðna. Alþýðusambandið hefur nýverið ráðið til sín sérstakan jafnréttisfulltrúa sem lið í að leggja aukna áherslu á málaflokkinn á næstunni og birtir ítarlega stefnu í jafnréttis- og fjölskyldumálum á heimasíðu sinni. Verslunarmannafélag Reykjavíkur hefur meðal annars með auglýsingaherferð í fjölmiðlum hvatt konur til að fylgjast með þróun eigin launa og annarra og hvatt þær til að nýta þær upplýsingar til að krefjast launahækkana. Allt hefur þetta skilað takmörkuðum árangri ef marka má áðurnefnda launakönnun.

Í ljósi þess hve seinlega það gengur að jafna stöðu kvenna og karla á vinnumarkaði, þrátt fyrir samþykktir og áskoranir verkalýðshreyfingarinnar, þarf hugsanlega að leita nýrra leiða í baráttunni fyrir jafnri stöðu kynjanna. Samkvæmt því sem fram hefur komið í þessari grein kann að vera mikilvægt að greina orðræðu samtímans um fyrirvinnuna og sjá hvort enn lifi í hugarheimi okkar ímynd af fyrirvinnunni sem karlmanni, hvort sem litið er til atvinnurekenda, fulltrúa verkalýðshreyfingarinnar eða starfsfólks. Ef þau viðhorf eru

enn algeng að höfuðfyrirvinna heimilanna sé karlmaður, þrátt fyrir mikla launavinnu íslenskra kvenna, og þrátt fyrir að fjöldi heimila hafi einungis eina fyrirvinnu og hana kvenkyns, þá er ef til vill komin skýringin á því hvers vegna við endursköpum sífellt það kynbundna mynstur sem birtist í ójafnri stöðu kvenna og karla á vinnumarkaði. Á sama tíma og mikilvægt er að skoða hvort þessar hugmyndir hafi áhrif á störf verkalýðshreyfingarinnar, þá er mikilvægt að greina viðhorf stjórnenda og starfsmanna á vinnustöðum til fyrirvinnuhugtaksins og hvernig það endurspeglast í væntingum kvenna og karla til launa. Auk þess væri æskilegt að verkalýðshreyfingin notaði sérfræðiþekkingu sína og annarra til að greina hvaða áhrif ýmsar stjórnvaldsákvarðanir – og ekki-ákvarðanir – hafa á stöðu kvenna og karla á vinnumarkaði. Þá mætti fylgja eftir kröfum um jafnréttisáætlanir í fyrirtækjum og skoða hvaða aðrar leiðir hafa gefist vel, hér á landi og erlendis.

Á þennan hátt mætti ef til vill komast að því hvaða ósýnilegu ferlar eru að verki í atvinnulífinu sem viðhalda þeirri kynjamynd sem verkalýðshreyfingin og stjórnvöld hafa þrátt fyrir allt með samþykktum ákveðið að leggja til hliðar.

## Heimildir

*D & F. Fréttablað Dagsbrúnar og Framsóknar*. 1997. 2. árg., 4 tbl.

*Dagsbrún*. 1989. 40. árg., 5. tbl.

Flóabandalagið. Mars 2005. *Könnun á kjörum og fleiru. Viðhorfskönnun.* Sótt 17. september 2006 af http://www.efling.is/efling/upload/files/utgafa/kannanir/mars05_floikonnun.pdf.

Fundargerð Dagsbrúnar 23. febrúar 1906, 5. fundur (aukafundur). Efling.

Guðbjörg Linda Rafnsdóttir. 1995. *Kvinnofack eller integrering som strategi mot underordning. Diskussion kring kvinnliga fackföreningar på Island*. Lundur.

Hansína B. Einarsdóttir og Herdís D. Baldvinsdóttir. 1991. *Verkakvennafélagið Framsókn í nútíð og framtíð.* Reykjavík.

Hartmann, Heidi. 1981. „Kapitalismen, patriarkatet och könssegregationen i arbetet“. *Kvinnovetenskaplig tidskrift* (1–2):7–30.

„Heilbrigðis-, félags- og dómsmál. Konur og karlar 1975–2005". 2005. *Hagtíðindi*. Reykjavík.

Jóhanna Egilsdóttir. 1980. *99 ár.* Gylfi Gröndal (ritstj.). Reykjavík. *Launamyndun og kynbundinn launamunur.* 2006.

Magnús. S. Magnússon. 1985. *Iceland in Transition. Labour and Socio-Economic Change before 1940.* Lundur.

Margrét Guðmundsdóttir. 1983. *Konur hefja kjarabaráttu*. B.A.-ritgerð, Háskóli Íslands.

Þorsteinn Pjetursson. 1974. „Verkakvennafélagið Framsókn 60 ára". *Vinnan* 4:12–13.

Þórunn Magnúsdóttir. 1991. *Þörfin knýr. Upphaf verkakvennahreyfingarinnar á Íslandi*. Reykjavík.

*Jón Rúnar Sveinsson*

# Baráttan fyrir mannsæmandi húsnæði

Fyrsta kröfuganga íslenskra verkalýðsfélaga á alþjóðlegum baráttudegi verkalýðsins var, sem kunnugt er, gengin 1. maí 1923. Meðal fjölda kröfuspjalda sem haldið var á loft þennan dag gat að líta tvö er snertu húsnæðismál. Á öðru spjaldinu stóð: „Engar kjallarakompur! Mannabústaði!“ og á hinu: „Bærinn á að byggja!“ (*Alþýðublaðið* 2.5. 1923). Í þessum kröfum má greina ákveðna stígandi; frá lýsingu á ástandi til almennrar hugsjónakröfu og loks til skýrt skilgreindrar og raunhæfrar kröfu um félagslegar íbúðabyggingar á vegum bæjarfélagsins.

Vart gat hjá því farið hér á landi að við upphaf húsnæðisumbóta í þágu alþýðu yrði mönnum litið til þess sem þegar hafði áunnist í nágrannalöndunum. Um 1920 höfðu t.a.m. hafist víðtækar félagslegar íbúðabyggingar í Bretlandi sem andsvar stjórnvalda við óróa alþýðu vegna byltingarinnar í Rússlandi og húsnæðisvanda í kjölfar styrjaldarlokanna 1918; talað var um „homes fit for heroes“ (*heimili handa hetjum*) (Waldén 1996:68–72) og bætt húsnæðiskjör alþýðu voru talin þáttur í því að mynda það sem nefnt var „bulwark against Bolshevism“ (*varnarveggur gegn bolsévisma*). Einnig voru byggðar á þessum árum 64.000 félagslegar íbúðir – „Gemeindewohnen“ – í Vínarborg að frumkvæði þeirra jafnaðarmanna og verkalýðssinna sem voru þar við völd árin 1919–1934. Upphafsmaður félagsíbúða Vínarborgar öðrum fremur var hinn þekkti borgarstjóri jafnaðarmanna, Jakob Reumann (Brantenberg 1996:165–171).

Ekki þarf að efast um að frumkvæði af þessu tagi hafi haft mikil áhrif á fyrstu frumkvöðla félagslegra íbúðabygginga hér á landi. Það er t.d. vitað að Héðinn Valdimarsson horfði ekki síður suður og austur til Dónárbakka og hinnar rauðu Vínarborgar en til höfuðborga Skandinavíu þegar hann hóf baráttu sína fyrir byggingu verkamannabústaðanna.[1]

## Byggingarfélag Reykjavíkur

Forveri *Alþýðublaðsins* sem málgagn jafnaðarmanna árin 1915 til 1919 var vikublaðið *Dagsbrún* er ritstýrt var af Ólafi Friðrikssyni. Sumarið 1919 má með lestri *Dagsbrúnar* fylgjast með fyrsta húsnæðismálaframtaki íslenskrar verkalýðshreyfingar, því þá var að frumkvæði fulltrúaráðs verkalýðsfélaganna í Reykjavík stofnað Byggingarfélag Reykjavíkur, sem standa skyldi að byggingu leiguíbúða fyrir félagsmenn sína (*Dagsbrún* 17.5./14.6./21.6. 1919). Risu fljótlega af grunni nokkur hús við Bergþórugötu og Barónsstíg.

Þetta framtak verkalýðsfélaganna í Reykjavík verður ekki minni tímamótaatburður í félagsmálasögunni ef það er haft í huga að á sama tíma birtust afrek opinberra aðila í húsnæðismálum helst í byggingu Pólanna[2] svonefndu, bráðabirgðahúsnæðis sem áratugum saman átti eftir að setja ljótan blett á hina uppvaxandi höfuðborg landsins, eins og Sigurður A. Magnússon rithöfundur hefur m.a. lýst (Sigurður A. Magnússon 1979:87–93). Ekki var meira byggt á vegum Byggingarfélags Reykjavíkur en fyrrnefnd hús, og raunar lauk starfsemi félagsins með því að það

[1]Guðmundur J. Guðmundsson hefur í síðara bindi ævisögu sinnar, sem Ómar Valdimarsson skráði, eftirfarandi eftir Finnboga Rúti Valdemarssyni: „Finnbogi kenndi mér allt um verkamannabústaði, hvernig þeir hefðu komist á, að Héðinn hefði fengið fyrirmyndina frá Vínarborg, en ekki frá Norðurlöndunum. Ég skoðaði þá bústaði í Vín síðar“ (Ómar Valdimarsson 1990:55).

[2]Nafnið „Pólar“ – yfir bráðabirgðabyggingar sem stóðu þar sem nú liggja gatnamót hinnar nýju Hringbrautar og Skógarhlíðar – er þannig til komið að á árum fyrri heimsstyrjaldarinnar þótti mönnum húsaþyrping þessi svo úr leið að henni var líkt við Suðurpólinn.

varð gjaldþrota og íbúðir þess komust árið 1941 í eigu bæjarins (*Morgunblaðið* 30.7. 1941).

Einnig gaf fulltrúaráð verkalýðsfélaganna út bækling þýddan af einum helsta frumkvöðli Verkamannafélagsins Dagsbrúnar, Pétri G. Guðmundssyni, um „Íbúðabyggingar með samvinnusniði“ eftir norska húsnæðisfrömuðinn Christian Gierløff.[1] Í bæklingnum var lýst margvíslegum húsnæðisumbótum í nágrannalöndunum sem ráðist hafði verið í að frumkvæði verkalýðshreyfinga, samvinnufélaga og borgaralegra umbótasinna (Gierløff 1919).

## Lögin um verkamannabústaði

Þrátt fyrir uppgang í efnahagslífi þjóðarinnar á þriðja áratug 20. aldar voru íbúðabyggingar færri en þurft hefði og samkvæmt húsnæðiskönnun sem Bæjarstjórn Reykjavíkur lét gera sumarið 1928 voru húsnæðiskjör alþýðu manna um margt mun bágbornari hér en í höfuðborgum nágrannalandanna (*Skýrslur um húsnæðisrannsóknina* 1930:6–21).

Könnun þessi átti talsverðan þátt í tilurð laga um verkamannabústaði, sem órjúfanlega tengjast nafni alþýðuleiðtogans Héðins Valdimarssonar (*Stjórnartíðindi* 1929, lög nr. 45). Lögin voru samþykkt rétt fyrir þinglok 1929 eftir nokkra andstöðu á Alþingi, þar sem fulltrúar dreifbýlisins töldu vafasamt að ýta undir áframhaldandi flótta úr sveitunum með miklum byggingum í þéttbýlinu og einnig heyrðust þau rök að byggingar með opinberum stuðningi myndu einungis verða til þess að draga úr framtaki einstaklinga við að byggja sjálfir yfir sig. Frumvarp Héðins breyttist talsvert í meðförum þingsins fyrir tilverknað Tryggva Þórhallssonar, for-

[1]Christian Gierløff var leiðandi meðal borgaralega þenkjandi frjálslyndra hugsjónamanna í Noregi sem í upphafi 20. aldar beittu sér fyrir umbótum í húsnæðismálum. Árið 1913 var hann einn helsti hvatamaður að stofnun „Norsk forening for boligreformer“, en slík félög störfuðu víða á Norðurlöndum og í Evrópu á þessum tíma (Annaniassen 1991:127–128). Þess má geta að árið 1936 kom Gierløff til Íslands og flutti hér erindi um skipulagsmál (*Alþýðublaðið* 12.8. og 13.8. 1936, *Morgunblaðið* 13.8. og 14.8. 1936).

sætisráðherra og formanns Framsóknarflokksins, m.a. bættist það ákvæði við að byggingarfélög verkamanna skyldu vera samvinnufélög (*Alþingistíðindi* 1929, B:3320–3486). Þess ber að geta að þegar árið 1928 höfðu verið sett lög um byggingar- og landnámssjóð (*Stjórnartíðindi* 1928, lög nr. 35), sem m.a. kváðu á um lánveitingar til íbúðabygginga í sveitum landsins.

Samkvæmt fyrstu lögunum um verkamannabústaði frá 1929 var gert ráð fyrir sérstökum byggingarsjóði í hverju einstöku sveitarfélagi þar sem byggingarfélög væru stofnuð. Með lagabreytingu árið 1935 (*Stjórnartíðindi* 1935, lög nr. 5), þegar Alþýðuflokkurinn – þar sem Héðinn Valdimarsson var varaformaður – var orðinn aðili að „Stjórn hinna vinnandi stétta“, var kveðið á um stofnun eins byggingarsjóðs fyrir allt landið. Einnig bættist við löggjöfina um verkamannabústaði það ákvæði að einungis væri heimilt að veita einu byggingarfélagi lán í hverju sveitarfélagi, en árið áður höfðu Sjálfstæðismenn í Reykjavík stofnað Byggingarfélag sjálfstæðra verkamanna er hugðist sækja um lánsfé samkvæmt verkamannabústaðalögunum. Um þetta ákvæði urðu töluverðar væringar og áttu þungavigtarmenn úr röðum Sjálfstæðismanna í forystu Byggingarfélagsins erfitt með að sætta sig við þessi málalok (*Alþingistíðindi* 1934, B:777–867, *Morgunblaðið* 21.11. 1934).

Athygli vekur að frá upphafi voru íbúðir í verkamannabústöðum seldar einstökum félagsmönnum í byggingarfélögum verkamanna, en ekki leigðar þeim af viðkomandi félagi. Slíkt fyrirkomulag – þ.e. útleiga til einstakra félagsmanna – tíðkaðist t.d. í þáverandi sambandslandi Íslendinga, Danmörku, þar sem félagsbundin eign leiguíbúðakerfisins hefur raunar á allra síðustu árum komið í veg fyrir að fram næðu að ganga áform sitjandi hægri stjórnar um að selja 491.000 leiguíbúðir í félagaeigu á almennum markaði (Jensen 2006:45–100). Þar sem eignarhaldið hér á landi var ekki bundið við félögin, gegndu þau aldrei veigamiklu hlutverki og árið 1970 færðist ábyrgðin á byggingum verkamannabústaða formlega til sveitarfélaganna (*Stjórnartíðindi* 1970, lög nr. 30).

Árið 1932 voru einnig sett lög um byggingarsamvinnufélög sem áttu eftir að hafa mikil áhrif á húsnæðismál okkar Íslendinga. Slík

félög tengdust oftar en ekki einstökum fagstéttum þjóðfélagsins (*Stjórnartíðindi* 1932, lög nr. 71).

## Íslenska eignastefnan

Einstaklingseign húsnæðis sem byggt er undir félagslegum formerkjum þekkist ekki í næstu nágrannalöndum okkar, þótt vissar hliðstæður muni mega finna á meginlandi Evrópu og í suðurhluta álfunnar. Margoft hefur verið bent á kosti slíks fyrirkomulags, sem m.a. eru taldir birtast í auknum áhrifum fólks á sitt nánasta umhverfi um leið og það ýti undir tilurð þess sem á hátíðastundum hefur verið nefnt „samfélag eignamanna“. Helsti gallinn er hins vegar sá að það kemur í veg fyrir uppbyggingu öflugs leiguíbúðakerfis, annaðhvort í eigu sveitarfélaganna, eins og raunin varð t.d. í Svíþjóð og Bretlandi, eða í eigu félagasamtaka, oft nátengdum verkalýðshreyfingunni, svo sem í löndum eins og Danmörku og Hollandi (Jensen 2006:45–100; Sax 1994).

Einkaeign á húsnæði sem byggt hefur verið undir félagslegum formerkjum tengist þeirri sjálfseignarhugsun sem allsráðandi hefur verið í húsnæðismálum okkar. Þó verður að hafa það í huga að eignarhald innan félagslega íbúðageirans hefur frá byrjun yfirleitt verið háð verulegum takmörkunum um ráðstöfunarrétt húsnæðisins.

Grunnstoðir húsnæðisuppbyggingar eftirstríðsáranna voru reistar mun síðar hér á landi en í öllum nágrannalöndum okkar og lengst af nokkuð af vanefnum. Á árunum um 1950 var í raun mótuð sú stefna að í stað félagslegra lausna við að leysa uppsafnaðan húsnæðisvanda frá árum síðari heimsstyrjaldarinnar skyldi treyst á sjálfsbjargarviðleitni einstaklinganna. Meirihluti Sjálfstæðisflokksins í Reykjavík reið í þessum efnum á vaðið með því að styðja við tilurð Smáíbúðahverfisins. Ríkisvaldið fylgdi þessu framtaki einnig eftir með stofnun Lánadeildar smáíbúða árið 1952 (*Stjórnartíðindi* 1952, lög nr. 27). Árið 1955, er ríkisstjórn Framsóknarflokks og Sjálfstæðisflokks (1953–1956) sat við völd, var svo loksins með stofnun húsnæðismálastjórnar komið á opinberu veðlánakerfi til íbúðabygginga hér á landi (*Stjórnartíðindi* 1955, lög nr. 55). Stofn-

anauppbygging húsnæðiskerfis eftirstríðsáranna var þannig mun síðar á ferð hér heldur en í nágrannalöndunum (Jón Rúnar Sveinsson 2006:279–323).[1]

Í vinstri stjórninni 1956–1958 settist forseti Alþýðusambands Íslands, Hannibal Valdimarsson, í stól félagsmálaráðherra. Í húsnæðismálum beitti stjórnin sér fyrir upptöku skyldusparnaðar ungs fólks til þess að afla eigin húsnæðis og einnig var lánastarfsemi húsnæðismálastjórnar fundinn fastur farvegur í sérstakri ríkisstofnun, Húsnæðismálastofnun ríkisins (*Stjórnartíðindi* 1957, lög nr. 42). Enn fremur vann nefnd á vegum ríkisstjórnarinnar, undir forystu framsóknarmannsins Hannesar Pálssonar frá Undirfelli, að allróttækum tillögum í húsnæðismálum. Tillögur nefndarinnar láku út áður en þær voru birtar opinberlega til stjónarandstöðublaðanna, *Morgunblaðsins* og *Vísis*, og ollu miklu fjaðrafoki í kosningabaráttunni fyrir bæjarstjórnarkosningar í Reykjavík 1958, sem Hannes greinir skilmerkilega frá í riti sínu *Gulu bókinni* (Hannes Pálsson 1958). Ekki varð úr að tillögur þessar kæmust í framkvæmd, enda féll vinstri stjórnin með látum undir lok ársins 1958.

## Samráðsstefnan

Um miðjan sjöunda áratuginn, á tíma viðreisnarstjórnar Sjálfstæðisflokks og Alþýðuflokks, náðist tvívegis mikilsverður árangur hvað varðar húsnæðismál í samningum aðila vinnumarkaðarins og ríkisvaldsins. Þarna var annars vegar um að ræða hið fræga júnísamkomulag 1964 (Sigurður E. Guðmundsson 2002:22–28, *Morgunblaðið* 5.6. 1964), þar sem m.a. var samið um auknar lánveit-

[1] Á hinum Norðurlöndunum (þó ekki í Finnlandi) markaði árið 1946 afgerandi tímamót í húsnæðismálum. Í Svíþjóð var mörkuð sú stefna að leiguíbúðafyrirtæki sveitarfélaganna yrði meginfarvegur aðgerða samfélagsins í húsnæðismálum (Bengtsson 2006:112–119). Í Danmörku var stofnsett sérstakt húsnæðismálaráðuneyti, ein helsta valdamiðstöð húsnæðismála í Danmörku allar götur þar til hægri stjórn sú er nú situr við völd lagði það niður árið 2001 (Jensen 2006:45–100). Í Noregi var Den Norske Stats Husbank – sem tíu árum seinna varð ein helsta fyrirmynd Húsnæðismálastofnunar ríkisins hér á landi – ýtt úr vör (Annaniassen 2006:178–182).

ingar til húsnæðismála, og hins vegar samkomulagið í júlí 1965 um byggingu 1250 íbúða fyrir láglaunafólk í Breiðholti (Sigurður E. Guðmundsson 2002:35–37, *Morgunblaðið* 10.7. 1965). Af hálfu verkalýðshreyfingarinnar starfaði Guðmundur J. Guðmundsson, þáverandi varaformaður Dagsbrúnar, manna ötullegast í svonefndri Framkvæmdanefnd byggingaráætlunar að því að hrinda þessu viðamikla byggingarátaki í framkvæmd á árunum 1965–1975 (Ómar Valdimarsson 1990:50–66).

Í vinnudeilum sjöunda áratugarins var mörkuð sú braut sem verkalýðshreyfingin fór á næstu áratugum í húsnæðismálum og þá varð til samskiptamynstur aðila vinnumarkaðarins og stjórnvalda á þessu sviði sem minnir á það sem fræðimenn kenna oft við „korporatisma“, en á íslensku mætti kalla samráðsstefnu. Þau stjórnmálaöfl hér á landi sem kennd eru við verkalýð og vinstri stefnu hafa þannig í ríkum mæli haft áhrif á húsnæðismál landsmanna í gegnum ítök sín í verkalýðshreyfingunni, en miklu síður með þátttöku eða forystu í ríkisstjórnum, svo sem raunin hefur verið á hinum Norðurlöndunum.

Undir lok viðreisnartímabilsins, árið 1969, var fyrsta heildarlöggjöfin um eftirlaunasjóði alls verkafólks lögfest (Sigurður E. Guðmundsson 2005). Áhrif verkalýðsfélaganna á yfirstjórn lífeyrissjóðanna hafa verið mikil hér á landi og strax árið 1970 voru lögfestar breytingar á húsnæðiskerfinu sem fólu í sér að ákveðið hlutfall af ráðstöfunarfé sjóðanna skyldi renna til húsnæðiskerfisins (*Stjórnartíðindi* 1970, lög nr. 30). Segja má að tilkoma lífeyrissjóðakerfisins hafi enn styrkt áhrifamátt verkalýðshreyfingarinnar í húsnæðismálum og í leiðinni ýtt undir víðtækt samráð aðila vinnumarkaðarins og ríkisvaldsins.

Áhrif verkalýðshreyfingarinnar á sviði húsnæðismála jukust enn árið 1980 þegar ASÍ fékk í kjölfar nýrra laga rétt til þess að skipa tvo fulltrúa í húsnæðismálastjórn. Í lögunum var einnig kveðið á um að stefna bæri að því að a.m.k. þriðjungur allra íbúðabygginga í landinu skyldi vera á félagslegum grunni (*Stjórnartíðindi* 1980, lög nr. 51).

Upphaf níunda áratugarins einkenndist af talsverðum sviptingum á sviði húsnæðismála. Full verðtrygging lána hófst 1980 og olli húsbyggjendum og íbúðakaupendum miklum erfiðleikum, einkum eftir að verðbólga varð illviðráðanleg árin 1982 og 1983. Árið 1983

náði verðbólga hámarki, yfir 80% á ársgrundvelli, og verðbólguhraði mældist um 130% vorið 1983. Í maí 1983 settist að völdum samstjórn Framsóknar- og Sjálfstæðisflokks sem greip strax til harkalegra efnahagsaðgerða, svo sem launafrystingar og banns við verkföllum. Af stöðvun launahækkana, á sama tíma og lánskjaravísitala húsnæðislána hækkaði óhindrað, spratt svonefnt misgengi lána og launa, sem leiddi til fjölmennra mótmælaaðgerða ungra húsbyggjenda í veitingahúsinu Sigtúni þann 24. ágúst 1983. Ríkisstjórnin brást fremur seint við og með dæmigerðum smáskammtalækningum að mati mótmælenda, sem einungis kölluðu á frekari aðgerðir af hálfu Sigtúnshópsins (Jón Rúnar Sveinsson 2000, 2006).

Það var í rauninni ekki fyrr en með afskiptum aðila vinnumarkaðarins í samningum þeirra og ríkisvaldsins í lok febrúar 1986 (*Morgunblaðið* 27.2. 1986) að sú húsnæðiskreppa, sem hreyfing húsbyggjenda var skýrt merki um, var loksins tekin föstum tökum. Eitt helsta atriði samninganna var nýtt húsnæðiskerfi, sem oft hefur verið nefnt 1986-kerfið. Grundvallaratriði þess var að nýta 55% af ráðstöfunarfé lífeyrissjóðanna til húsnæðislána. Lánshlutfall til nýbygginga var samkvæmt hinu nýja kerfi hækkað í allt að 70% byggingarkostnaðar, sem þótt hefði fjarlægt markmið aðeins nokkrum árum áður (*Stjórnartíðindi* 1986, lög nr. 54).

Eftir ríkisstjórnarskipti ári seinna var ákveðið að víkja 86-kerfinu til hliðar og í stað þess var tekið upp svonefnt húsbréfakerfi. Það kerfi markar upphaf ákveðinnar markaðshugsunar í húsnæðismálum sem segja má að öðlast hafi sífellt meiri hljómgrunn þá nærfellt tvo áratugi sem síðan eru liðnir.

Eigi að síður jukust mjög lánveitingar hins opinbera húsnæðislánakerfis allan tíunda áratug liðinnar aldar. Árið 1991 svöruðu þær t.d. til 6,3% þjóðarframleiðslunnar (Jón Rúnar Sveinsson 1996:215). Þetta skýrðist af því að í raun voru um tíma tvö lánakerfi í gangi samtímis, 86-kerfið og húsbréfakerfið, og einnig fóru lánveitingar til félagslegra íbúðabygginga ört vaxandi á þessum árum, sem sást af því að um nokkurra ára skeið um 1990 voru þær um 40% af öllum íbúðabyggingum í landinu (Jón Rúnar Sveinsson 1996:217–219). Ástæða þessa var sú að til viðbótar við eignaríbúðir verkamannabústaðakerfisins var nú einnig lánað í verulegum mæli

til byggingar leiguíbúða, kaupleiguíbúða og búseturéttaríbúða. Fyrir þessum breytingum lá ekki síst til grundvallar stefnumótun Jóhönnu Sigurðardóttur félagsmálaráðherra (1987–1994) um aukið framboð félagslegra íbúða með fjölbreyttara sniði en verið hafði. Við þá stefnumótun var m.a. kallað á fulltrúa „Þaks yfir höfuðið“, samstarfshóps átta félagasamtaka á sviði húsnæðismála, um gerð nýrrar lagasetningar árið 1990 (*Stjórnartíðindi* 1990, lög nr. 70) um lánveitingar Húsnæðisstofnunar til félagslegra íbúðabygginga (sjá *Þak yfir höfuðið* 1988, *Alþingistíðindi* 1989–90, A, þingskjal 724:3042–3043). Aukning útlánanna skýrist einnig af því að í stað lána til nýbygginga rann nú mun stærri hluti lánsfjármagns Húsnæðisstofnunar til að fjármagna íbúðakaup almennings á hinum almenna fasteignamarkaði en áður hafði verið.

Segja má að á þessum árum hafi dregið nokkuð úr ítökum verkalýðshreyfingarinnar hvað húsnæðismál varðar, þótt samráðsstefnan á vinnumarkaðnum hafi náð hámarki í hinum frægu þjóðarsáttarsamningum árið 1990. Á þessum árum var þannig seta fulltrúa launþegahreyfingarinnar í húsnæðismálastjórn afnumin og við endurskoðun húsnæðislöggjafarinnar árin 1996–1998 var launþegahreyfingin að nokkru sniðgengin af ríkisvaldinu. Í endurskoðuninni, sem tók gildi 1. janúar 1999, fólst ekkert minna en afnám þess félagslega lánakerfis sem mótast hafði frá byggingu fyrstu verkamannabústaðanna í upphafi fjórða áratugar 20. aldar og breyting Húsnæðisstofnunar í húsnæðisbanka. Byggingarsjóður verkamanna var þá sameinaður Byggingarsjóði ríkisins, lánasjóði almenna lánakerfisins, í nýjum heildarsjóði hins opinbera, húsnæðisbanka, Íbúðalánasjóði. Í stað félagslega lánakerfisins komu tekjutengd viðbótarlán innan ramma húsbréfakerfisins (*Stjórnartíðindi* 1998, lög nr. 44). Síðan 2002 hafa sveitarfélögin getað heimilað eigendum félagslegra eignaríbúða[1] að selja íbúðirnar á frjálsum markaði ef þeir óska þess. Þetta hefur haft í för

[1]Eftir gildistöku laga nr. 70/1990 kom heitið „félagsleg eignaríbúð“ í staðinn fyrir „verkamannabústaður“. Í greinargerð með frumvarpinu til þessara laga segir: „Lögð er áhersla á blöndun hópa á húsnæðismarkaðnum. Hugtakið „verkamannabústaðir“ er ekki notað, enda fólk úr ýmsum öðrum stéttum sem nú leitar inn í félagslega húsnæðiskerfið“ (*Alþingistíðindi* 1989–90, A, þingskjal 724:3024).

með sér að fjöldi félagslegra eignaríbúða hefur verulega dregist saman.[1]

## Viðfangsefni nýrrar aldar

Leiðandi hlutverk ríkisins í fjármögnun húsnæðismála er nú mjög á undanhaldi og allt stefnir í að hinir almennu viðskiptabankar, sem stórefist hafa á undanförnum árum, taki við hlutverki þess sem helsti lánveitandi til húsnæðiskaupa á almennum markaði. Brotthvarf ríkisins úr því hlutverki felur þó í sér minni breytingu en margir gera sér ef til vill grein fyrir, því að umfangsmiklar opinberar lánveitingar til almennra íbúðakaupa eiga sér í reynd aðeins um tveggja áratuga langa sögu hér á landi.

Fátt virðist geta komið í veg fyrir að lánahlutverk ríkisins á húsnæðismarkaði verði í framtíðinni mun minna en verið hefur undanfarna áratugi. Þó virðist blasa við, miðað við hátt vaxtastig hérlendis, að íbúðabyggingar undir félagslegum formerkjum fái vart þrifist án opinberrar niðurgreiðslu af einhverju tagi. Lækkandi vaxtastig, t.d. í kjölfar aðildar Íslands að Evrópusambandinu, kynni þó að breyta þessari mynd með afgerandi hætti.

Fækkun félagslegra eignaríbúða á undanförnum árum hefur verið mætt með viðleitni til markvissari uppbyggingar leigumarkaðar en áður. Í stað Húsnæðisnefndar Reykjavíkur og forvera hennar, Stjórnar verkamannabústaða, er þannig komið nýtt og öflugt leiguíbúðafyrirtæki borgarinnar, Félagsbústaðir hf., sem nú á og rekur 1740 leiguíbúðir (*Félagsbústaðir* 2006) og til ársins 2010 er áformað að ljúka smíði 650 leiguíbúða til viðbótar í eigu fyrirtækisins (*Morgunblaðið* 10.10. 2006). Bakhjarl stækkandi leigumarkaðar á

[1]Samkvæmt ársskýrslu Byggingarsjóðs verkamanna 1997 voru þá samtals 6527 félagslegar eignaríbúðir í landinu (*Byggingarsjóður verkamanna 1998*:11) sem svaraði til 6,4% þeirra 102.200 íbúða sem þá voru í landinu öllu (*Almennar forsendur orkuspáa* 1998:37). Samkvæmt samtali við Guðrúnu Árnadóttur hjá Reykjavíkurborg hefur eignaríbúðum í Reykjavík fækkað úr um 4000 í um 1500 eftir lagabreytinguna 2002. Hafi fækkunin verið svipuð annars staðar má ætla að hlutfall félagslegra eignaríbúða á landinu öllu sé nú komið niður í 2–3% af heildarfjölda allra íbúða.

landsvísu er húsaleigubótakerfi það sem komið var á árið 1995, sem mjög hefur vaxið að umfangi á þeim áratug sem síðan er liðinn.[1] Frá upphafi starfsemi sinnar árið 1999 til loka ársins 2005 hafði Íbúðalánasjóður veitt lán til byggingar 3.937 leiguíbúða (Upplýsingar um veitt lán úr lánaflokkum Íbúðalánasjóðs).

Sífellt hnattvæddara fjölmenningarsamfélag á Íslandi kallar á nýja og skýra stefnumótun í velferðarmálum almennings, þar á meðal í húsnæðismálum. Vaxandi borgríkisþróun hér á suðvesturhorni landsins, þar sem innan fárra ára munu líklega búa um 250 þúsund manns, krefst nýrrar heildarsýnar í skipulagsmálum og á mótun skýrrar borgarstefnu á höfuðborgarsvæðinu, sem nú teygir sig til Keflavíkur, Borgarness og Selfoss. Ný og fersk tök á húsnæðismálum landsmanna með skýr félagsleg sjónarmið að leiðarljósi verður vonandi einn undirstöðuþáttanna í slíkri stefnumótun.

# Heimildir

*Almennar forsendur orkuspáa: Samantekt fyrir vinnuhópa orkuspárnefnda.* 1998. Reykjavík.

*Alþingistíðindi.* 1929–1990. Reykjavík.

*Alþýðublaðið.* 1923, 1936. Reykjavík.

Annaniassen, E. 1989. *Hvor nr. 13 ikke er... Boligsamvirkets historie i Norge* 1. Ósló.

Annaniassen, E. 2006. „Norge – det socialdemokratiska ägarlandet“. *Varför så olika? Nordisk bostadspolitik i jämförande historiskt ljus,* bls. 159–218. B. Bengtsson ritst. Malmö.

*Ársskýrsla samráðsnefndar um húsaleigubætur 2002.* Reykjavík.

Bengtsson, B. 2006. „Sverige – kommunal allmännytta och korporativa särintressen“. *Varför så olika? Nordisk bostadspolitik i jämförande historiskt ljus,* bls. 101–158. B. Bengtsson ritst. Malmö.

Brantenberg, T. 1996. *Sosial boligbygging i Europa 1335–1985. Fra slaveby til haveby – europeiske arbeiderboliger i et arkitektonisk perspektiv.* Ósló.

[1]Heildargreiðslur húsaleigubóta námu 1537,8 m.kr. árið 2005 (*Fréttabréf um húsaleigubætur,* 3, 3) og gert er ráð fyrir að þær nemi ríflega 1690 m.kr. árið 2006 (*Fréttabréf um húsaleigubætur,* 4, 1). Fyrstu þrjú árin, 1996–1998, námu þær að meðaltali tæpum 400 milljónum króna (*Ársskýrsla samráðsnefndar um húsaleigubætur 2002*).

*Byggingarsjóður verkamanna – félagsíbúðadeild: Ársskýrsla 1997.* 1998. Reykjavík.

*Dagsbrún* (vikublað). 1919. Reykjavík.

*Félagsbústaðir.* 2006. PowerPoint kynning í vörslu fyrirtækisins.

*Fréttabréf um húsaleigubætur,* 3, 3. 2005. Reykjavík.

*Fréttabréf um húsaleigubætur,* 4, 1. 2006. Reykjavík.

Gierløff, Ch. 1919. *Um byggingarfélög með samvinnusniði.* Þýð.: Pétur G. Guðmundsson. Reykjavík.

Hannes Pálsson (útg.). 1958. „Gula bókin" – Nefndarálit meirihluta Húsnæðismálanefndar 1956. Reykjavík.

Jón Rúnar Sveinsson. 1996. „Main Trends of Icelandic Housing in the 1980s and 1990s." *Scandinavian Housing and Planning Research* 13:215–220. Stokkhólmur.

Jón Rúnar Sveinsson. 2000. *Society, Urbanity and Housing in Iceland.* Gävle.

Jón Rúnar Sveinsson. 2006. „Island – självägande och facklig inflytande". *Varför så olika? Nordisk bostadspolitik i jämförande historiskt ljus,* bls. 279–323. B. Bengtsson ritst. Malmö.

Jensen, L. 2006. „Danmark – lokal boendedemokrati och nationell korporatism". *Varför så olika? Nordisk bostadspolitik i jämförande historiskt ljus,* bls. 45–100. B. Bengtsson ritst. Malmö.

*Morgunblaðið.* 1934, 1936, 1941, 1964, 1965, 1986, 2006. Reykjavík.

Ómar Valdimarsson. 1990. *Guðmundur J. Guðmundsson – Baráttusaga.* Reykjavík.

Sax, U. 1994. *Bostäder i Europa – Nederländerna.* Stokkhólmur.

Sigurður E. Guðmundsson. 2002. *Kjaradeilur og félagsmálalöggjöf á tíma viðreisnarstjórnar 1960–1971.* BA-ritgerð í sagnfræði við Háskóla Íslands.

Sigurður E. Guðmundsson. 2005. *Lífeyrissjóðir 1960–1980 – Tímamót í velferðarmálum eldra fólks.* Lokaverkefni (M.A.) í sagnfræði við Háskóla Íslands.

Sigurður A. Magnússon. 1979. *Undir kalstjörnu: Uppvaxtarsaga.* Reykjavík.

*Skýrslur um húsnæðisrannsóknina í Reykjavík 1928.* 1930. Reykjavík.

*Stjórnartíðindi.* 1917–2002. Reykjavík.

Upplýsingar um veitt lán úr lánaflokkum Íbúðalánasjóðs á árunum 1999–2005. Skjal frá Íbúðalánasjóði 2006.

Waldén, L. J. 1996. *Föregångare eller hotbild? Reflexioner kring 100 års brittisk bostadspolitik.* Gävle.

*Þak yfir höfuðið – Um félagslegar íbúðabyggingar á Íslandi.* 1988. Reykjavík.

*Viðar Hreinsson*

# Tryggvi sigurvegari? Íslenskar verkalýðsbókmenntir

Í bókinni *Fyrir sunnan*, þriðja bindi endurminninga Tryggva Emilssonar, segir:

> Fyrstu mánuði ársins 1952 var tíðarfar erfitt útivinnumönnum og er frá því sagt í annál Þjóðvinafélagsins að þá voru meiri snjóþyngsli sunnanlands á þorra en verið hafði um áratugi. Þær vikur allar vann ég í Mosfellssveitinni við hlið annarra verkamanna, allt var það útivinna. Á þeim vetri kom mér oft í hug þegar ég sá vinnufélagana berja jörðina með haka eða járnkarl í höndum í hraklegum hlífðarfötum og með vettlinga sem jöguðust á járni og urðu að tætlum svo sá í berar hendur, að enn ættu þeir langt í land og blöskranlega baráttu framundan til þess eins að geta klætt af sér kuldann. Mönnum var kalt á hnúaberum höndunum og þeim fingrum sem kannski voru krepptir í lófann af stöðugu striti, vettlingana varð að spara, launin hrukku ekki til lágmarks nauðþurfta, menn urðu oft að berja sér og blása í kaun og hamast við vinnuna til að halda á sér hita. Í huganum líkti ég þeim við þá gaddhesta sem ég sá svo oft á yngri árum, hesta sem urðu gisnir á hár og holdþunnir þegar leið á veturinn og börðu gaddinn með blóðugum hófum í leit að sinustráum. Að sjálfsögðu var ég undir sömu sökina seldur og aðrir verkamenn. (Tryggvi Emilsson 1979:154–155)

Þessi tilvitnun segir ýmislegt um íslenskar verkalýðsbókmenntir og felur það sama í sér og verkið í heild: Það er tveggja heima – hefur ýmis menningarleg sérkenni úr frásagnarhefð sagnaþáttarins og teygir sig aftur í veruleika gamla bændasamfélagsins með annálstilvitnun og tíðarfari. Tungutakið er rótgróið sveitamál og líkingin af útigangshestunum er úr þeim veruleika og treystir þessar rætur enn frekar um leið og hún undirstrikar kjarnann í öllu verkinu: baráttu hins fátæka og stritandi verkamanns og kröfuna um framtíðarland réttlætis og sanngirni. Þannig er verk Tryggva, bæði að inntaki og formi, blanda afdala- og þéttbýlisbókmennta.

Áður en lengra er haldið væri ekki úr vegi að spyrja, hvað eru verkalýðsbókmenntir? Ýmsar skilgreiningar má finna: a) að þær séu ritaðar af höfundum úr verkalýðsstétt, b) að þær fjalli um verkalýð og aðstæður hans, hvað sem líður stéttarstöðu höfundar, c) að þær séu mótaðar af stéttarstöðu eða einhverskonar verkalýðsvitund, d) að þær boði umbyltingu samfélagsins í þágu eða fyrir tilstilli verkalýðsstéttarinnar og e) að á vissum tímaskeiðum voru uppi eindregnar hugmyndir um hvernig bókmenntirnar þjónuðu hinni sósíalísku byltingu (*Pax lexicon* 5:194–199; *Hugtök og heiti í bókmenntum*: 296–297). Hér verður ekki ein skilgreining tekin fram yfir aðra heldur skyggnst vítt yfir sviðið og fjallað um ýmsa snertifleti verkalýðs og bókmennta.

Erlendis spratt raunsæisstefnan í bókmenntum meðal annars af skuggahliðum borgarsamfélagsins og vaxandi kúgun verkalýðs. Undir lok 19. aldar fóru að koma fram höfundar úr röðum verkalýðs sem lýstu kjörum sinnar stéttar og brugðu upp framtíðardraumum, höfundar á borð við Martin Andersen Nexø sem skrifaði söguna af Pelle sigurvegara, og Maxím Gorkí í Sovétríkjunum.

Skilgreiningarnar á verkalýðsbókmenntum eru gamlar og eiga vart uppá pallborðið nú á tímum, allra síst þær sem hneigjast að boðun sósíalisma. Það kann líka að vefjast fyrir mönnum núorðið að skilgreina verkalýðinn sjálfan, hefðbundin marxísk greining hefur látið undan síga, að miða við eignarhald á framleiðslutækjum. Eiginlegum verkamönnum, erfiðismönnum í skurðgreftri eða við færiband fækkar, æ fleiri störf krefjast menntunar, það fjölgar í svokölluðum þjónustustéttum og kjör ýmissa millistétta eru lítt

betri en verkalýðs, enda hugtakið launþegi orðið mun algengara en verkalýður. Nú miðast engar róttækar þjóðfélagsumbætur eða byltingar við verkalýð og vald yfir framleiðslutækjum, frekar er barist fyrir afmörkuðum hagsmunamálum.

Ef þrengstu skilgreiningum er beitt virðast íslenskar verkalýðsbókmenntir vera heldur fáskrúðugar. Samfélagið á 19. og 20. öld var vanþroskað – engin iðnbylting á 18. og 19. öld og verkalýður sem fjöldafyrirbæri í þéttbýli var naumast til fyrr en kom fram á 20. öld. Söguleg og menningarleg umskipti frá kyrrstæðu bændasamfélagi til nútíma borgarsamfélags urðu hröð og breytingar á vitund og hugsunarhætti höltruðu í humátt á eftir. Því var þess vart að vænta að eiginleg verkalýðsvitund setti mark sitt á bókmenntirnar fyrst um sinn, jafnvel þótt skrifaðar væru af höfundum úr verkalýðsstétt.

Sé tekið víðara sjónarhorn má nefna að gagnrýni á valdastéttir og samúð með hinum kúguðu gægist víða fram í bókmenntum fyrri alda, hjá Jóni Guðmundssyni lærða (1574–1658), Guðmundi Bergþórssyni (1657–1705), Guðmundi Andréssyni (d. 1654) og jafnvel í *Passíusálmum* Hallgríms Péturssonar (1614–1674) á 17. öld. Jón lærði talar jafnvel um „réttan jöfnuð ríks og fátæks milli“ í rímnamansöng. Líklega er það í fyrsta skipti sem hugtakið jöfnuður kemur fyrir, reyndar í þeirri merkingu að ákveðið jafnvægi þurfi að ríkja í samfélaginu. Réttlætiskennd er líka áberandi hjá Bólu-Hjálmari sem gagnrýndi hina ríku og stóð með smælingjum og Gísli Konráðsson, 19. aldar sagnaritari, segir í ævisögu sinni frá erjum við ríka jarðeigendur þegar hann sem hreppstjóri þurfti að hugsa um hag hinna fátæku í hreppnum.

Samúð með kúguðum var til á öllum tímum en hugmyndir um samfélagslegt vald þeim til handa kom fram með sósíalisma á 19. öld. Slíkar hugmyndir birtust fyrir 1900 hjá framsæknum, upplýstum skáldum eins og Gesti Pálssyni, Stephani G. Stephanssyni, Þorsteini Erlingssyni og Einari Benediktssyni. En það eru ekki eiginlegar verkalýðsbókmenntir, heldur birtist einfaldlega í verkum þeirra samfélagsleg og pólitísk afstaða með verkalýð, krafa um róttækar samfélagsumbætur.

# Skrifandi öreigi

Það þurfti vitaskuld að verða til íslensk verkalýðsstétt og verkalýðsbarátta svo orðið gætu til öreigabókmenntir. Theódór Friðriksson var frumherji á þeim vettvangi. Sjálfsævisaga hans, *Í verum,* er merkileg, rituð snemma á fimmta áratug síðustu aldar, frá sjónarhóli vermanna sem voru fyrsti vísir að verkalýðsstétt á Íslandi. Theódór bjó á mörkum sjálfstæðis og ósjálfstæðis: Faðir hans var bóndi um hríð en flosnaði svo upp í hörðu tíðarfari og þeir feðgar vógu lengi vel salt milli vinnumennsku, húsmennsku og búskapar, þar til Theódór festi rætur í rótlausri farandvinnumennsku, sjómennsku í vaxandi sjávarplássum áratugum saman, alltaf við afar kröpp kjör. Vinnumenn, húsmenn og fátækir leiguliðar urðu smám saman að öreigastétt í þéttbýlinu. Theódór ýjar að samtakamætti verkalýðs – og ekki blés alltaf byrlega á þeim vettvangi, það var helst á Sauðárkróki í aldarbyrjun og síðar á Húsavík sem hann tók þátt í verkalýðsbaráttu og sagðist hafa rifið kjaft á fundum verkamanna en markvisst hafi verið reynt að bæla samtök þeirra niður.

*Í verum* birtir smælingjastéttarvitund – stolt gagnvart ríkum kaupmönnum og Theódór kærði sig ekkert um að hefja sig upp í raðir hinna ríku. Því er saga hans um sérkennilega mannlega reisn, metnað til sjálfstæðis, sem birtist í því að vera vel til fara og láta ekki örbirgðina sjást utaná sér og í framkomu, og ekki síst metnað til þess að maður af þessum uppruna gæti líka skrifað bókmenntir. Það er í raun meginþema bókarinnar. Theódór segir af viðleitni sinni til að skrifa við vonlausar aðstæður, hvernig fyrstu smásagnakverin komu út í óþökk margra, ekki síst kaupmannanna. Síðan komu fleiri bækur og Theódór ávann sér hylli menntamanna á borð við Sigurð Nordal og Ágúst H. Bjarnason. Bókinni lýkur með því að öreiginn Theódór Friðriksson gengur út í sólskinið á efri árum sem ríkisrekinn rithöfundur á skáldalaunum.

Smásögur Theódórs eru misjafnar, þær lýsa flestar kjörum smælingja, sjómanna og tómthúsmanna en sýna ekki róttæka verkalýðsvitund. Fyrsta smásagnasafnið var *Utan frá sjó*, frágengið 1905 en kom út árið 1908, hjá Oddi Björnssyni á Akureyri, með liðsinni séra Jónasar frá Hrafnagili. Það fjallar um harðneskjulega stétta-

skiptingu og kröpp kjör, togstreitu milli kynjanna, örlög og ástir jafnvel með rómantískum blæ, allt sprottið úr nánasta umhverfi Theódórs sjálfs.

Árni Bergmann hefur bent á eindreginn mun á skáldskap Theódórs og ævisögu. Ævisagan er jarðbundin en sögur hans birta oft hvassari gagnrýni, skarpari átök, skýrari drauma um betra líf (Árni Bergmann 1980). Sagnasafnið *Dagrúnir* kom út árið 1915 og *Brot* árið eftir. Þar er sagan „Örðugleikar“ sem segir af bláfátækum tómthúsmanni, Þórði, í þorpi norðanlands, sem reyndi að skrifa í frístundum og hafði jafnvel fengið birta grein í blaði með ádeilu á kaupstaðalífið, en honum gekk báglega að afla viðurværis. Börnin sultu og konan var bitur yfir fýsn hans til skrifta og mjög mörkuð af fátæktarbaslinu auk þess sem hún var illa haldin af afbrýðisemi. Þórður hélt fram frjálslyndum viðhorfum í trúmálum en fann til þess að menn snerust nokkuð gegn honum eftir að hann viðraði þær skoðanir í erindi á samkomu. Hann hafði líka átt í útistöðum við kaupmanninn, sem skömmu eftir trúmálaerindið frétti það hjá einum fyllirafti bæjarins að Þórður væri í þann veginn að gefa út bók með harðri ádeilu á kaupmennina:

> Honum var nú mikið í huga, að geta hefnt sín á Þórði. Hafði þeim lent saman fyrir nokkru út af vinnulaunum, sem hann hafði ekki viljað greiða Þórði í peningum, og Þórður þá kastað honum því í nasir, hvað þeir kaupmenn væru mikil lítilmenni, að hafa sig til þess að vera svo lúsarlegir að brjóta oft og einatt lög fyrir fáeinar krónur, yrði að líkindum engin bót á því ráðin, fyr en verkamenn vöknuðu sjálfir til meðvitundar um gildi sitt í æðaslætti lífsins, skildu tímann og samkepnina í viðskiftum manna og mynduðu verkmannafélög í kaupstöðum hér eins og gert hefði verið erlendis. Mundi það þá sannast, þegar sú sjálfstæðishvöt væri vöknuð í brjóstum manna, hvort þeir kaupmennirnir mundu þá ekki verða að lúta í lægra haldi en nú gerðist oft og einatt. Það þyrfti eitthvað að taka í taumana, þar sem þeir lægju eins og ormar á reitunum, þangað til öndin liði út af kroppnum, og sæju engar af lindum lífsins nema peningalindina.

> Orð Þórðar grófu um sig í huga Páls kaupmanns eins og glóandi járn. Margt hefði hann fremur kosið en að Þórður færi að beita sér fyrir verkmannafélagsskap þar í kaupstaðnum. (Valur [Theódór Friðriksson] 1916:39–40)

Páll kaupmaður skrifaði bókaútgefandanum og lagðist gegn því að þvættingur Þórðar yrði gefinn út og vildi jafnvel greiða töluverða fjárfúlgu til að fá að sjá handritið. Síðan talaði hann við aðra kaupmenn þar í þorpinu og þeim kom saman um

> að taka nú í taumana, ef Þórður skyldi fara að brydda á sér með að koma á verkmannasamtökum, eins og honum höfðu farist orð. Og eina ráðið gagnvart því væri að telja verkamönnum trú um, að þeir hefðu ekkert annað upp úr þeim samtökum en vinnutap og atvinnumissi, og mundu þeir þá vesalingar verða jafn ósjálfstæðir og undirgefnir eins og þeir væru nú – mundu kinoka sér við að styggja þá, úr því þeir væru hvort ið [!] er alt af upp á þá komnir. En þar sem Þórður ætti nú upptökin að þessari hreyfingu, þá skyldu þeir nú taka sig saman um að neita honum um alla hjálp og vinnu. (Valur [Theódór Friðriksson] 1916:40–41)

Jafnvel götustrákarnir snerust á sveif með kaupmönnum gegn Þórði, örbirgð, áhyggjur og sultur surfu að og honum hrakaði til heilsunnar. Það var komið að páskum og heimilið matarlaust. Þórður fór í búð Páls kaupmanns en gat ekkert keypt þar og fór svo til hreppstjórans að reyna að fá lán, án árangurs. Meðan Þórður gekk út í fjöru og hugleiddi sjálfsvíg, því líftrygging hans myndi sjá fyrir fjölskyldunni, kom sendiboði frá einni kaupmannsfrúnni í bænum heim til hans með mat svo heimilið bjargaðist. Það sló hins vegar að Þórði og hann dó fáeinum dögum síðar og skrifaði rétt fyrir andlátið bréf til prestsins og bað hann að sjá til þess að konan fengi líftrygginguna greidda. Hann lauk bréfinu með því að gefa til kynna von um framhaldslíf.

Þetta er með betri sögum Theódórs þótt tilfinningasöm sé og endi í hreinni uppgjöf, og ber keim af aðstæðum hans sjálfs á Sauðárkróki í upphafi 20. aldar eftir ævisögunni að dæma. Hann settist að í

„kotgreninu“ Mosfelli í Gönguskörðum fyrir ofan Sauðárkrók haustið 1902 og rétt eftir að hann var kominn þangað fékk hann sér sæti við brúna yfir Gönguskarðsá, horfði ofaní iðuna og varð hugsað til líftryggingarinnar sinnar. Hann brast í grát um stund en rétti svo úr kútnum, staðráðinn í að gefast ekki upp heldur bjóða örbirgðinni byrginn (Theódór Friðriksson 1941 1:299). Næstu árin átti hann við kaupmann að etja sem hafði öll hans fjárráð í hendi sér og amaðist við ritstörfum hans, fátæktin var oft sár og jaðraði við hungur, eiginkonan fór að fá afbrýðisemisköst og Theódór tók þátt í veikburða tilraunum verkamanna til að bindast samtökum en virðist þó ekki hafa átt frumkvæði að þeim. Það tók tíma fyrir verkamenn að venjast við slík félagsstörf en fyrsta baráttumálið var hreinlega að fá launin greidd í reiðufé í stað úttektar hjá kaupmönnum, sem vitaskuld tóku saman ráð sín um að bæla þessa baráttu niður, sem þeir töldu ættaða að sunnan (Theódór Friðriksson 1941 2:459).

Ævisagan einkennist af persónulegum tengslum milli stétta. Samskiptin við Kristján kaupmann Gíslason á Sauðárkróki eru til að mynda á hálfgerðum persónulegum jafnræðisgrundvelli þrátt fyrir stéttamuninn, hann lýsir því í frekar léttum tón hvernig hann stóð uppi í hárinu á Kristjáni (Theódór Friðriksson 1941 1–2:291–535). Augljóst er að allar stéttaaðstæður eru skarpari í smásögunni, þótt hún fjari út í sáttatilraun við guð og menn og lítt örli á hugmynd um eiginlegar samfélagsumbætur. Theódór var á síðari árum flokksbundinn alþýðuflokksmaður en skipaði sér ekki í flokk byltingarsinnaðra rithöfunda á kreppuárunum þótt hann ætti nokkurt samneyti við höfunda sem skrifuðu í *Rauða penna*. Sigur hans í sögulok ævisögunnar var ekki sigur samtakamáttar verkamanna, heldur þvert á móti, sigur mannsins sem loksins komst úr verkalýðsstétt, upp í stétt fullgildra rithöfunda.

## Byltingin á hjóli

Theódór var höfundur í gamla stíl eins og það var stundum kallað, mótaður af sagnahefðum bændasamfélagsins og skorti bæði bókmenntalega og stéttarlega vitund. Sagnagerð var yfirleitt heldur

frumstæð í landinu, fyrir utan raunsæishöfunda á borð við Einar H. Kvaran og Þorgils gjallanda, og enn var lítið farið að kræla á eiginlegri stéttarvitund í bókmenntum. Sú vitund, sem ekki hafði forsendur til að þroskast að nokkru marki hjá Theódóri, birtist fyrst í bókmenntum kreppuáranna, í smásögum Halldórs Stefánssonar og skáldsögum Halldórs Laxness, einkum *Sölku Völku*, þótt veruleikinn sé þar einatt nokkuð flókinn, verkalýðsbaráttan var hluti af stærri merkingarheimi. Stéttarvitundin var kannski mest hjá Jóhannesi úr Kötlum, það var eins og titlarnir á fyrstu fjórum ljóðabókum hans undirstrikuðu að hann væri að vakna til vitundar, *Bí bí og blaka*, *Álftirnar kvaka*, *Ég læt sem ég sofi*, *Samt mun ég vaka*, en þar birtist hann sem eindregið verkalýðsskáld. Nú á dögum er eins og menn minnist hans einungis fyrir að yrkja „Sovét Ísland óskalandið, hvenær kemur þú“ en staðreyndin er þó sú að í *Samt mun ég vaka* brýst út byltingarkraftur í úrvalskvæðum, í léttum og kraftmiklum brag, sterkum myndum og fljúgandi mælsku. Bókin hefst á samnefndu kvæði sem lýsir löngun til að leggja af mörkum til baráttunnar:

Ég vildi svo guðsfeginn kveða kvæði
um gróandi þjóðlíf – um fljúgandi framsókn
skapandi menningar, ársöngva yrkja
um vorglaðan klið hins upprisna Íslands,
og rétta fram þjálfaðan arm til átaks
í alheimsbaráttu öreigalýðsins
fyrir réttlæti, sannleika, – sósíalisma.

En þótt hjartað brenni í uppreisnareldi kelur sálina í kyrrstöðu, orsökin er kannski sá vanþroski samfélagsins sem fyrr var drepið á. Skáldinu þykir þjóðin ekki skilja samtíð sína,

að þjóð mín finnur ei framtíð sína,
heldur eltir skuggann sinn upp til fjalla
í von um, að þar sé sá Þórisdalur,
er getur um í þjóðsögum, – þar vill hún reyna
að detta með lagi o’n í lukkupottinn.

Engum væri láandi að bera þessar línur upp að hugsunarhætti og framkvæmdum dagsins í dag en Jóhannes býður bróður sínum öreiganum „ekkert nema ljóð mitt, ekkert nema blóð mitt“ og lýkur kvæðinu svo:

„Bí bí og blaka, álftirnar kvaka,“
lúllaði röddin við rúmið mitt forðum.
Og enn væri stautminnst í sveitinni að sofa
og láta sig dreyma um guðsbarnagleði
og sauðkindafegurð, en – samt mun ég vaka
(Jóhannes úr Kötlum 1972:115–116).

Baráttan er erfið í samfélagi sem enn er hálft í sveitinni í huganum, hugarfarsleg umskipti úr bændasamfélagi í þéttbýlissamfélag gengu hægt. En næsta kvæði er hin stórbrotna pólitíska yfirlýsing „Vér öreigar“ – þar sem byltingarboðskapurinn og endurmat allrar Íslandssögunnar, endurspeglast í uppreisn gegn hinu hefðbundna ljóðformi. Þar er baráttunni fyrir fyrirheitna landinu beint inn í borgina, að veruleika stritandi og fátækrar alþýðu:

Og borgin stækkaði sem talandi tákn
um gjafmildi láðs og lagar,
en jafnframt sem talandi tákn
um hin undarlegu örlög vor. –
... Því breiðari sem strætin urðu
og bílarnir fleiri
og hallir höfðingjanna fegurri
og veizlur þeirra veglegri,
því kaldari og dimmari
urðu kjallaraholurnar,
þar sem vér börðumst við rotturnar
og rakann.

Því fleiri sem húsin urðu,
því fleirum varð oss ofaukið. –
Dag eftir dag

hímdum vér fullir af hrolli,
atvinnulaust úrkast
á mölinni ...

Og við það vöknuðum vér.
(Jóhannes úr Kötlum 1972:122–123)

Framtíðin birtist í léttu og leikandi kvæði. „Ung stúlka“ sýnir unga stúlku hjólandi á leið heim úr fiski í bláum vinnufötum, stuttklippta, hraustlega og reykjandi vindling og þegar hún kyssti skáldið var eins og yrði bylting: „– Og ég fann það svo vel, hvernig veröldin snerist / um verklýðsstúlku á hjóli, / sem elskaði – en átti sig sjálf“ (Jóhannes úr Kötlum 1972:131).

## Trúin á málstaðinn

Í næstu bókum endurskoðar Jóhannes íslenskt samfélag og sögu og umbyltir viðteknum hugmyndum af hugsjónakrafti. Í fyrstu bókum sínum var Steinn Steinarr honum samferða í pólitískri uppreisn en er á leið snerist heimspekileg íhugun hans gegn hinum einfalda boðskap. Á fjórða áratugnum urðu bókmenntirnar virkt samfélagsafl, nátengdar róttækum hugmyndum um þjóðfélag og menningu hjá mönnum á borð við Einar Olgeirsson og Kristin E. Andrésson, sem einmitt gerði strangar fagurfræðilegar kröfur til höfunda.

Á kreppuárunum var andófseðli bókmenntanna sterkt, andóf gegn ríkjandi fagurfræðilegum viðhorfum var nátengt samfélagslegri baráttu. Síðar fjarlægðist bókmenntaleg róttækni verkalýðsvitundina, nema í *Þorpinu* eftir Jón úr Vör, þar sem nánast er hægt að þreifa á kjörum fátæks almúgafólks. Atómskáldin voru yfirleitt vinstrisinnuð en fengust þó ekki mikið við veruleika verkalýðsstéttarinnar og sama á við um módernísku sagnahöfundana. Þó má nefna *Snöruna* eftir Jakobínu Sigurðardóttur sem er kaldranaleg einræða verkamanns í stórri verksmiðju, en sá er heldur nöturlega firrtur, fulltrúi sjúklegs tíðaranda (Jakobína Sigurðardóttir 1968; Þorleifur Hauksson 2003:248–249). Einfaldar stéttaandstæður voru farnar að trosna, kjör verkafólks höfðu batnað og veruleikinn að verða flóknari.

Um þær mundir sem samfélagsleg róttækni gekk í nokkra endurnýjun lífdaga á áttunda áratugnum með vinstrisinnuðum bókmenntum og nýjum raunsæiskröfum kom Tryggvi Emilsson fram á sviðið, aldurhniginn baráttumaður sem ritaði endurminningar sínar í þrem bindum. Saga hans er öðrum þræði sigursaga eins og hjá Theódór en um leið saga íslensks samfélags lungann úr 20. öld, saga vegferðar úr torfhreysum fyrri alda í þéttbýlið, saga af þrotlausri baráttu, til þess er sigrar unnust og lífskjörin voru orðin mun betri.

Verk Tryggva telst til verkalýðsbókmennta að hálfu – vitundin sem mótar það sem eina heild er tveggja heima. Sveitamaðurinn skoðar veruleika verkamannsins, og öfugt. Stéttvísi er byggð upp smátt og smátt. Sósíalísk vitund um kúgun smælingjanna mótar frásagnarefnið í fyrsta bindinu sem er ekki einungis uppvaxtarsaga heldur einnig þjóðlífslýsing, í raun hinn hefðbundni efniviður sagnaþáttanna og gömlu bókmenningarinnar. Stíllinn einkennist af yfirveguðu valdi sagnaþáttahöfunda á málinu. Tungutakið, til að mynda í náttúru- og samfélagslýsingum, er kryddað með ljóðrænni myndvísi, skáldlegum tilþrifum og íróníu. Myndin sem Tryggvi dregur upp af lífi tómthúsmanna í Glerárhverfi er mótuð af yfirsýn aldraðs sósíalista og baráttumanns. Hann sér tilveruna í allt öðru ljósi en Theódór Friðriksson hafði gert, þótt aðeins séu rúm 20 ár í tíma milli Glerárþorps Tryggva og Sauðárkróks Theódórs og 35 ár milli ritunartíma bókanna. Tryggvi lýsir samfélagi á mörkum dreifbýlis og þéttbýlis, bændasamfélags og verkalýðs í kringum 1930 og kúgunin er söm við sig. Í raun er þetta almenn og víðfeðm mynd af mikilvægum brennipunkti í sögu lands og verkalýðs:

> Glerárþorp var á þessum árum byggt af fólki sem horfið var úr húsmennsku og vinnumennsku þar sem löngum var fárra kosta völ. Hér var saman komið flóttafólkið úr sveitunum sem kom í þetta sjávarpláss og settist að með aleiguna í malpokanum, fékk erfðafestuland og byrjaði að byggja. Dugnaði þess var við brugðið, landið var óræktað og án vega. Allir kostuðu kapps um að rækta blettinn sinn og að eignast tún og töðu og kindur, kannski geit, sumir áttu garðholu í skjóli við klöpp, gangstígir voru

troðnir milli kotanna. Margir þorpsbúar áttu sér bátkænu, bjóð og lóðir og skakfæri með hneif og blýsökku, jafnvel línu. Þeir menn reru á fjörðinn á vetrum og fiskuðu í matinn, og þekkti ég það. Væri reytingur fram yfir soðninguna þann daginn sáust spyrðubönd hangandi á skúrþili eða á rá í húsasundi þar sem fiskurinn var látinn síga, jafnvel harðna, þessi fiskur var geymdur til mögru daganna þegar ekki fékkst bein úr sjó. Það var unnið og barist um að bjargast af.

Á dögum atvinnuleysis og örbirgðar er manneskjan aðeins skuggi af sjálfri sér, hlédræg og innilokuð. Hver dagurinn af öðrum hlóð sköflum á skjáinn og það var einskis aflað. Það hvíldu veðskuldir á kotinu og rollurnar voru kannski pantsettar og tekin lán í verslun, væri þess nokkur kostur, upp á vinnu næsta sumar. Enginn dagur leið þó án vonar, menn röltu inn á Eyri í leit að handtaki og þá helst ef skip sást sigla inn fjörðinn, aðrir ýttu bátnum sínum úr vör. Það snjóaði oft í frostköldu og rysjóttu tíðarfari þennan vetur og því voru nýjar slóðir troðnar á hverjum degi og sífellt varð að moka frá, það var unnið og stritað án inntekta.

Þegar bóndinn var farinn á sjóinn eða í vinnuleit eldsnemma á morgnana gat konan ekki sofið lengur en sást keifa fönnina að brunnholunni, hún verkaði snjó af brunnlokinu, tók brunnfötuna sem hékk á snaga innan á hleðslunni og sökkti henni í vatnið, síðan halaði hún fötuna upp af handafli og hellti í föturnar sem hún kom með, gekk frá brunninum byrgðum og bar föturnar í vatnsgrind heim í bæ eða í kindakofann. Eða hún sótti taðflögur eða móköggla í hlaða undir húsvegg, skvetti síðan út úr koppum og kirnum. Oft var hún þunga hlaðin og lotleg og börnin, sem héngu í pilsunum hennar þegar leið á daginn, fundu til í munni og maga í mjólkurleysinu og voru síbiðjandi um brauð sem kannski var ekki til þann daginn. Þessi mynd úr þorpinu, sem ekki var einstök, er sönn, ég sá hana berum augum. (Tryggvi Emilsson 1977:185–186)

Svo víkkar Tryggvi myndina og bregður kaldhæðnu og stéttapólitísku ljósi á hátíðahöld þessa árs, sjálfa alþingishátíðina:

> Fullveldissumarið 1930 var sigurhátíð sem fagnað var af fátækum sem ríkum þó með ólíkum hætti væri. Vinnandi fólk kepptist við að þræla sem lengstan vinnudag eftir tekjurýran vetur og leit ekki upp frá allskrefjandi störfum þó hátíð væri á Íslandi, enda bar hátíðina upp á hábjargræðistímann þegar afla varð árstekna á lágu kaupi verkamanna. Aðrar stéttir kaupstaðanna, sem á Akureyri voru nefndar, þó í niðrandi tón væri, „betri borgarar“, voru valgestir hátíðahaldanna, á þjóðleiðum þess fólks hefir vissulega verið fagurt um að litast. Þessi var þjóðlífsmyndin í stórum dráttum þegar fullveldi var fagnað. Valdið kom að ofan, þaðan sem gull þjóðarinnar glóði í vösum þeirra ríku, stéttamunurinn gamalgróni var í fullu gildi.
>
> Það voru liðin 55 ár frá næstu þjóðhátíð þar á undan, en þá voru fátæku börnin í Reykjavík lokuð inni svo danakóngur og hans fríða föruneyti sæju ekki eymd og örbirgð vinnulýðsins, sæju ekki tötrana og sultinn. Árið 1930 hefði enn þurft að loka inni fátæk börn á Íslandi, jafnvel með lögregluboði sem fyrr, ef kóngafólk hefði riðið hjá og eins svo þeir drambfullu íslendingar, sem drógu til sín allan arð af vinnu stritandi manna, sæju ekki „svínaríið,“ örbirgðina og óttann. Valdhafarnir voru enn og enn við sama heygarðshornið, þeirra siðgæði hafði ekki breyst, atvinnuleysi var þeirra kúgunaraðferð og fátæktin meðal almennings var þeirra gróðavegur og afleiðingar allsleysis var þeim hneykslunarhella. (Tryggvi Emilsson 1977:186)

Tryggva lánaðist mun betur en Theódór Friðrikssyni að koma undir sig fótum sem tómthúsmaður og verkamaður í þéttbýlinu, vegna þess að hann var síðar á ferð, skilyrði höfðu skapast fyrir samstöðu og eiginlegri stéttabaráttu. Sú barátta, og trú á sigrandi málstað, er leiðarljós Tryggva Emilssonar það sem eftir lifir sögunnar. Samstaða og stéttarfélög voru honum borg á bjargi traust, hann trúði á sósíalismann og lokasigur hans. Þegar hann hóf þátttöku í verkalýðsbaráttunni var hún komin skrefi lengra en hún var á dögum Theódórs. Samstaðan sem náðist bar oft ávöxt og atvinnurekendum tjóaði ekki að hafa í hótunum eða reyna að eyða samtakamætt-

inum. Sigrar unnust vissulega, Tryggvi kom vel undir sig fótunum með útsjónarsemi og eignaðist jeppa sem hann notaði óspart í þágu baráttunnar svo enn er í minnum haft. Hann hafði það ágætt í eigin íbúð síðustu árin, en fyrirmyndarríkið hefur eitthvað látið á sér standa. Því má spyrja hvort Tryggvi hafi verið sigurvegari, hvort sjálf útópían hafi ræst eða ekki? Vissulega er mönnum ekki jafnkalt á kjúkum eins og áður, líkingin um útigangsklárana á við um færri nú en árið 1952 þótt hún geti trúlega átt við um suma þá aðfluttu verkamenn sem hafðir eru til stórframkvæmda og í byggingavinnu.

Verkalýðsbaráttan gat verið hörð á áttunda áratugnum þegar Tryggvi var að rita sögu sína, en forsendur voru að breytast. Í bókmenntum ríkti aftur félagslegt raunsæi og áhersla auk þess lögð á kvennabókmenntir. Ólafur Haukur Símonarson ritaði eindregnustu verkalýðssögu þessara ára. *Galeiðan* er svört, kaldhæðin og kollektíf saga af verksmiðjuverkakonum, kaldhæðnin markast af því að sögumaður tekur sér stöðu allhátt fyrir ofan þessar stúlkur og lítur niður á þær og veröld þeirra. En þegar á líður söguna og vondir karlar níðast æ meir á konunum kviknar vottur af samtakamætti (Ólafur Haukur Símonarson 1980).

## Hugsjónaþrot og neysla?

Bókmenntirnar mótast æ meir af upplausn og firringu samfélagsins. Stéttaandstæður eru ekki einhlítar og verkamenn ekki lengur jafn stoltir í stöðu sinni og Tryggvi Emilsson, heldur leita annað, eins og Theódór Friðriksson sem átti þann draum heitastan að komast í stétt rithöfunda. „Skipið hafði ekki fyrr smellt kossi á landið ...“ (Pétur Gunnarsson 1976:5) – Þannig byrjar sagnabálkur Péturs Gunnarssonar, sjómaður hleypur í land og nær sér í mjólkurbúðarstúlku, – en þau ala dreng sem gengur menntaveginn og fær grjót í hausinn í stúdentaóeirðum í París.

Í dag er hinn eini og sanni verkalýðshöfundur Stefán Máni, meistari í lýsingu hins áþreifanlega hversdagsveruleika. Hann var verkamaður áður en hann gerðist rithöfundur, gekk ekki mennta-

veginn, gerir sér mat úr þeirri sérstöðu sinni og ögrar elítunni. Skáldsagan *Hótel Kalifornía* telst til verkalýðsbókmennta samkvæmt fleiri en einni af þeim skilgreiningum sem tíundaðar voru í upphafi þessarar greinar en hún flytur ekkert fagnaðarerindi heldur einkennist af tómhyggju, segir af verkamönnum í frystihúsi, átakanlega stefnulausum í lífinu. Þeir höfðu ekki annað að berjast fyrir en að lifa helgarfylleríin af. Og *Ísrael, saga af manni* segir af síðasta farandverkamanninum lengstaf í reiðileysi í Reykjavík en hann endaði liggjandi í grasbrekku norður á Ströndum. Sögur Stefáns Mána eru ekki verkalýðsbókmenntir í anda Nexös og Tryggva Emilssonar heldur bregða þær einfaldlega upp myndum af samfélagi dagsins í dag.

Verkalýðsbókmenntir eru varla lengur til því sú stéttabarátta og barátta fyrir betri heimi sem átti hug Tryggva Emilssonar allan er liðin undir lok. Pólitísk framtíðarsýn byggist ekki lengur á hugsjónum verkalýðsins og kenningum eða kröfum um eignarhald framleiðslutækja. Engin ný hugsun hefur látið á sér kræla um réttlæti og jöfnuð sem leyst geti af hólmi úrelta nauð- og forsjárhyggju sósíalismans, heldur virðist drjúgur hluti af vinstrihreyfingunni gangast hálfhrárri markaðshyggju á hönd. Þungaiðnaður og innflutningur vinnuafls er kannski leið til að endurheimta verkalýðsstétt sem væri til í að berjast fyrir rétti sínum?

Menn sjá ýmsar blikur á lofti framtíðar, vaxandi stéttaskiptingu, hættu á minnkandi ítökum verkalýðshreyfingarinnar og hnignun velferðarsamfélagsins sem reis á grunni verkalýðsbaráttunnar. Kallað er eftir nýrri framtíðarsýn, nýjum knýjandi spurningum um framtíðarsamfélagið sem launþegahreyfingin verður að taka þátt í að móta vilji hún halda áfram að vera virkt mótunarafl í samfélaginu. Sú þátttaka liggur ekki í augum uppi því í stað gamaldags baráttu og samfélagshugsjóna er komin taxtaleikfimi og kjarabarátta neyslusamfélagsins, Jóhannes í Bónus hefur leyst Jóhannes úr Kötlum af hólmi sem andans maður alþýðunnar. Matarverð og innflutningur matvöru virðist vera mesta réttlætismálið, að fá að éta innfluttan iðnaðarkjúkling í staðinn fyrir að naga rándýrar lambahnútur. Bókmenntirnar eru einhversstaðar allt annarstaðar, nema *Bónusljóð* Andra Snæs Magnasonar, einu verkalýðsbókmenntirnar í rangsnúnum heimi því þau birta nýjan veruleika sem að launþeg-

anum snýr. Þau eru hvöss og vekja grun um að ekki sé allt með felldu, eins og ljóðið „Mjallhvít“ gefur til kynna:

Mjallhvít getur ekki keypt sixpack
dvergarnir eru nefnilega sjö.

sjö mjólkurpottar, sjö brauðhleifar,
sjö skyrtur, sjö sokkapör, sjö óhreinir diskar,
sjö skítugar nærbuxur, sjö daga vikunnar

eins og venjulega ætlaði hún
að skella kiðlingunum sjö í körfuna

en hún hætti við
keypti sér eina rauðvínsflösku

og sjö eitruð epli.

# Heimildir


Andri Snær Magnason. 2003. *Bónusljóð. 33% meira*. Reykjavík.

Árni Bergmann. 1980. „„Von um virðingu fyrir sjálfum mér““. *Tímarit Máls og menningar* 41(2):204–226.

Gísli Konráðsson. 1911–1914. *Æfisaga Gísla Konráðssonar ens fróða skrásett af sjálfum honum*. Reykjavík.

*Hugtök og heiti í bókmenntafræði*. 1983. Ritstjóri Jakob Benediktsson. Reykjavík.

Jakobína Sigurðardóttir. 1968. *Snaran*. Reykjavík.

Jóhannes úr Kötlum. 1972. *Ljóðasafn* II [*Samt mun ég vaka,* kom út 1935].

Jón Guðmundsson lærði. 1948. „Ármanns rímur“. *Ármanns rímur eftir Jón Guðmundsson lærða (1637) og Ármanns þáttur eftir Jón Þorláksson*. Jón Helgason bjó til prentunar. Kaupmannahöfn.

Jón úr Vör. 1956 [2. útg. aukin]. *Þorpið*. Reykjavík.

Kristinn E. Andrésson. 1949. *Íslenzkar nútímabókmenntir 1918–1948*. Reykjavík.

Ólafur Haukur Símonarson. 1980. *Galeiðan*. Reykjavík.

*Pax lexicon.* 1980. „Proletarlitteratur". Hans Fredrik Dahl o.fl. ritst. 5:197–199.
Pétur Gunnarsson. 1976. *Punktur punktur komma strik*. Reykjavík.
Stefán Máni. 2001. *Hótel Kalifornía*. Reykjavík.
Stefán Máni. 2002. *Ísrael. Saga af manni*. Reykjavík.
Theódór Friðriksson. 1908. *Utan frá sjó*. Akureyri.
Theódór Friðriksson. 1941. *Í verum* 1–2. Reykjavík.
Tryggvi Emilsson. 1976. *Fátækt fólk*. Reykjavík.
Tryggvi Emilsson. 1977. *Baráttan um brauðið*. Reykjavík.
Tryggvi Emilsson. 1979. *Fyrir sunnan*. Reykjavík.
Valur [Theódór Friðriksson]. 1915. *Dagrúnir*. Reykjavík.
Valur [Theódór Friðriksson]. 1916. *Brot. Sögur úr íslensku þjóðlífi*. Reykjavík.
*Verdens litteratur historie.* 1988–1992. Ritstjóri Hans Hertel. 5. og 6. bindi. Kaupmannahöfn.
Þorleifur Hauksson. 2003. *Sagnalist. Íslensk stílfræði* II. Reykjavík.
Örn Ólafsson. 1990. *Rauðu pennarnir. Bókmenntahreyfing á 2. fjórðungi 20. aldar*. Reykjavík.

*Guðmundur Jónsson*

# Velferðarkerfið: Ávöxtur af baráttu verkalýðshreyfingarinnar?

## Góðgerðastarf – gamalt og nýtt

Uppá síðkastið höfum við heyrt fregnir af því að ríkismenn og stórfyrirtæki séu farin að gefa miklu meira fé til góðgerða- og líknarmála en áður tíðkaðist. Ríkustu fjölskyldur landsins, Björgólfsfeðgar, Baugsfeðgar og Hagkaups-fjölskyldan hafa lýst því yfir að þeim „sé ekki sama" og hafa ausið fé á báðar hendur til hjálparsamtaka ýmiss konar, menningarstarfsemi og jafnvel háskóla. Tölur benda til þess að framlög til líknar- og menningarmála hafi næstum sjöfaldast á árabilinu 1998 til 2005 (*Morgunblaðið*, 17. sept. 2006, bls. 14).

Þessi góðgerðastefna virðist fara sem eldur um sinu út um hinn ríka heim því sífellt berast fréttir af stórgjöfum auðmanna til góðra málefna. Skemmst er að minnast þess þegar næstríkasti maður heims, Warren Buffet, gaf ríkasta manni heims, Bill Gates, 31 milljarð bandaríkjadala fyrr á árinu til að ráðstafa til menningar- og mannúðarmála.

Góðgerðastarfsemi er svo sannarlega komin aftur í tísku, tími velferðarskáldanna er runninn upp, hinna framtakssömu, moldríku einstaklinga sem „er ekki sama". Menn velta því fyrir sér hvort „gullöld" í góðgerðastarfi sé á næsta leiti sem taki öllu fram sem áður hefur verið gert á þessu sviði eða hvort við séum að hverfa aftur til tíma sjálfshjálpar og góðgerðastarfs 19. aldar þegar góðhjartaðar

og guðhræddar konur veittu fátækum og sjúkum líknandi hönd. Þá var velferðarríkið í okkar skilningi ekki til nema sem hugsjón og þeir sem stóðu höllum fæti eða urðu fyrir óvæntum áföllum, öreigar, sjúkir, slasaðir og atvinnulausir, áttu fá önnur úrræði en að segja sig til sveitar. Margt í almennri umræðu og jafnvel opinberri velferðarstefnu nú á dögum minnir á ástandið á 19. öld, andi einstaklingsframtaks og sjálfshjálpar svífur yfir vötnum, kristilegum góðgerðasamtökum er jafnvel falið að annast ýmsa félagsþjónustu sem áður var í höndum almannavaldsins.

En auðvitað er stór munur orðinn á þjóðfélaginu síðan góðgerðastarf Thorvaldsensfélagsins, Hvítabandsins og Hjálpræðishersins voru einu félagslegu úrræðin sem stóðu fátæku fólki til boða í Reykjavík þegar eitthvað bjátaði á, þ.e.a.s. utan þess að segja sig til sveitar. Velferðarríkið er fyrir löngu búið að hreiðra um sig og hefur víðtæk áhrif á mótun lífskjaranna með því að jafna tekjur og aðstöðumun í samfélaginu, veita efnaminna fólki fjárhagsaðstoð, fjármagna félagslegar tryggingar, halda uppi heilsugæslu, menntakerfi, húsnæðiskerfi og margvíslegri félagsþjónustu. Þótt fjármunir sem einstaklingar, fyrirtæki og félagasamtök reiða af hendi komi í góðar þarfir eru þeir aðeins brot af því fé sem hið opinbera leggur af mörkum til velferðarmála. Þess vegna eru litlar líkur á því að hin nýja góðgerðastefna skipti sköpum andspænis því mikla opinbera bákni sem sinnir velferðarmálum í nútímaþjóðfélagi.

Góðgerðastarf á 19. öld var líka dropi í hafið, en á annan hátt en nú á dögum. Þá voru félagsleg úrræði svo tilkomulítil gagnvart þeim yfirþyrmandi vandamálum sem fylgdu iðnaðarkapítalismanum. Frammi fyrir fjöldafátækt nýju verkalýðsstéttarinnar, ömurlegum lífsskilyrðum í ört vaxandi bæjum, hrörlegum húsakynnum, sjúkdómum og vaxandi stéttaskiptingu var góðgerðastarf eins og að reyna að slökkva skógarelda með sprautubyssu. Þessi vandamál, sem gjarnan voru kölluð *verkamannamálið* af því þau snerust umfram allt um lífskjör verkalýðsstéttarinnar, herjuðu á þjóðfélög í Evrópu og Ameríku þegar líða tók á 19. öldina og sköpuðu gífurleg átök víða um lönd. Í þeim mikla suðupotti urðu til merkilegar umbótahugmyndir og aðgerðir sem rekja má rætur velferðarríkisins til: samvinnufélög verkamanna, bygging ódýrra verkamannaíbúða

á vegum bæjarfélaga og félagslegar tryggingar, svo nokkuð sé nefnt. Þessi straumur félagslegra umbóta var eins konar „sjúkrabíll iðnaðarkapítalismans“, eins og komist hefur verið að orði, en þegar fram liðu stundir óx upp af honum ný félagsmálastefna sem gerði ráð fyrir *opinberu framtaki* til að bæta lífskjör og jafna aðstæður fólks, framtaki sem smám saman varð til þess að gera ásýnd kapítalismans mannlegri (Rogers 1998:12–20).

## Samhjálp verkamanna

Um aldamótin 1900 tók verkalýðshreyfing að myndast á Íslandi en hún var ósátt við bæði harðneskjulega fátækralöggjöf og ölmusu góðgerðarfélaga sem lausn á fátækt og félagslegum vandamálum. Hún brást við með því að efla samhjálp verkamanna sjálfra og mynda sitt eigið öryggisnet eftir mætti, enda voru tryggingar og velferðaraðstoð á vegum hins opinbera í frumbernsku. Þar gegndi Verkamannafélagið Dagsbrún forystuhlutverki (Þorleifur Friðriksson 2007). Dagsbrúnarmenn brydduðu upp á ýmsum nýjungum til að mæta óvæntum áföllum og treysta betur afkomu félagsmanna. Félagið fékk t.d. til umráða jarðarskika fyrir félagsmenn suður af Tjörninni, þar sem nú stendur Gamli Garður, til að rækta kartöflur og grænmeti. Félagsreitur var skikinn kallaður, en lítið fór nú víst fyrir ræktuninni. Dagsbrúnarfélagar ásamt öðrum verkamönnum réðust líka í stofnun Pöntunarfélags Reykjavíkur árið 1906 til að útvega mönnum ódýran verslunarvarning. Í heimsstyrjöldinni fyrri stofnaði Dagsbrún Kaupfélag verkamanna sem gekk í Samband íslenskra samvinnufélaga 1918 og fékk nafnið Kaupfélag Reykvíkinga. Á kreppuárunum, þegar klofningur komma og krata var í algleymingi, voru um tíma starfrækt tvö kaupfélög verkamanna, Kaupfélag alþýðu og Pöntunarfélag verkamanna. Árið 1937 sameinuðust flest pöntunarfélög verkamanna á höfuðborgarsvæðinu og Suðurnesjum í eitt félag, Kaupfélag Reykjavíkur og nágrennis (KRON).

Fyrir daga trygginga var jafnan efnt til samskota þegar félagsmenn slösuðust, veiktust eða létust. Verkalýðsfélögin stóðu fyrir

því nýmæli að koma á tryggingarsjóðum og stofnaði Hið íslenska prentarafélag fyrsta sjúkrasjóðinn á Íslandi 1897. Eitt af markmiðum í stofnskrá Dagsbrúnar var að styrkja félagsmenn sem urðu fyrir slysum eða öðrum óhöppum og var stofnaður styrktarsjóður í því skyni. En þar sem ekki var um skylduaðild að sjóðnum að ræða varð hann aldrei öflugur. Það var því talsverð bót að stofnun Styrktarsjóðs verkamanna- og sjómannafélaganna í Reykjavík, „Stóra sjóði“ eins og hann var kallaður, en stjórnvöld létu hluta af andvirði 10 togara sem seldir voru Bandamönnum haustið 1917 renna í sjóðinn sem eins konar sárabætur fyrir þann atvinnumissi sem hlaust af sölu togaranna úr landi. Stóri sjóður styrkti félagsmenn í verkalýðsfélögunum sem urðu fyrir heilsutjóni af völdum slysa eða veikinda og áttu þeir rétt til styrks sem borguðu árlegt iðgjald til sjóðsins. Eftir að Stóri sjóður tók til starfa lagðist að mestu af sú venja að láta söfnunarbauka ganga á fundum.

Þannig reyndu verkamenn sjálfir að bæta öryggi og afkomu sína með samtökum þar sem lítillar hjálpar var að vænta annars staðar frá. Hliðstæð þróun varð víða í Evrópu þar sem verkalýðshreyfingin og flokkar hennar reyndu að skapa sitt eigið velferðarsamfélag innan ríkisins, á jaðri borgaralegs samfélags og í andstöðu við það. Þessi sjálfsprottna samhjálp verkafólks í árdaga verkalýðshreyfingarinnar, þar sem frumkvæði kom frá alþýðu manna en ekki að ofan frá ríkisvaldinu, kallast á við ýmsar nýjar velferðarhugmyndir í stjórnmálum samtímans og má finna þær víða í hinu pólitíska litrófi. Margir á vinstri væng stjórnmálanna telja nauðsynlegt að endurskoða viðteknar hugmyndir um velferðarríkið í ljósi bæði þrengri fjárhagsstöðu en var fyrir nokkrum áratugum og nýrra vandamála sem illa gengur að fást við. Leggja þeir til að horfið verði frá einhliða áherslu á opinbera velferðarforsjá en frumkvæði almennings virkjað betur og notaðar skilvirkari aðferðir við að veita velferðarþjónustu. Hér má nefna *þriðju leiðina* margumtöluðu sem „nýi“ Verkamannaflokkurinn undir forystu Tony Blairs varð skotinn í um tíma en virðist hafa fjarað út (Giddens 1998, 2000). Nær miðju og á hægri væng stjórnmálanna binda ýmsir vonir við að hægt verði að virkja þekkingu athafnamanna á fyrirtækjarekstri í þágu félagslegra markmiða og hampa velferðarskáldinu, hinum félagslega

athafnamanni (e. *social entrepreneur*) (Leadbeater 1997; Bornstein 2004; *Economist* 23. febrúar 2006). Hér kennir ýmissa grasa, allt frá einstaklingum og stofnunum sem af hugsjón hafa ráðist í alls konar verkefni á sviði félags- og mannúðarmála til auðjöfranna sem hafa sópað að sér peningum í góðæri síðustu 10–15 ára og ausa milljörðum í menningar- og mannúðarmál. Þessi góðgerðakapítalismi hefur vaxið svo hratt á síðustu árum að hann er farinn að slaga hátt í 2% af landsframleiðslu Bandaríkjanna (*Economist* 23. febrúar 2006).

Verkalýðshreyfingin rak sig fljótlega á það að hún var ekki þess megnug ein og óstudd að veita félagsmönnum sínum viðunandi öryggi og hófst því barátta fyrir félagslegum umbótum á pólitískum vettvangi. ASÍ og Alþýðuflokkurinn voru stofnuð 1916 og var ein af meginkröfum flokksins í félagslegum efnum að hið opinbera stæði fyrir atvinnubótavinnu þegar atvinnu skorti. Á þriðja áratugnum urðu félagslegar tryggingar og önnur velferðarmál hornsteinn í stefnu Alþýðuflokksins og á næstu áratugum vann hann ötulastur flokka að því að koma á alþýðutryggingum. Markmiðið var lengi framan af að tryggja fyrst og fremst verkafólki þessi réttindi, eins og fram kemur í alþýðutryggingalöggjöfinni 1936, en á stríðsárunum varð mikil hugarfarsbreyting í velferðarmálum og tók þá opinber félagsmálastefna róttækum breytingum. Áherslan færðist á almannatryggingar, sem byggðust á hugmyndinni um félagsleg og efnahagsleg réttindi öllum borgurum til handa, óháð stétt eða efnahag. Einn mikilvægasti áfanginn á þeirri braut voru lögin um almannatryggingar 1946 (Jón Blöndal 1942; Stefán Ólafsson 1999; Guðmundur Jónsson 2001).

## Verkalýðshreyfingin sem forystuafl í velferðarmálum

Af ofansögðu ættu menn ekki að velkjast í vafa um það að verkalýðshreyfingin, með atbeina þeirra flokka sem næst henni stóðu, Alþýðuflokks og Sósíalistaflokks/Alþýðubandalags, var driffjöðrin í útbreiðslu velferðarkerfisins. Mörgum er tamt að nefna verka-

lýðshreyfinguna og velferðarkerfið í sömu andrá og sama gildir um önnur Norðurlönd þar sem sósíaldemókratar og verkalýðshreyfingin eru talin hafa ráðið mestu um mótun velferðarríkisins. Er þá jafnan vísað til þeirra sem sósíaldemókratísku velferðarríkjanna.

Sérstaða Íslands var hins vegar fólgin í því að verkalýðsflokkarnir svokölluðu höfðu ekki sama pólitíska styrk og sósíaldemókratar á Norðurlöndum til að hrinda stefnu sinni í velferðarmálum í framkvæmd. Sú staðreynd skýrir, a.m.k. að hluta til, af hverju hægar gekk á Íslandi að ná fram ýmsum mikilvægum hagsmunamálum verkalýðshreyfingar eins og atvinnuleysistryggingum og félagslegu íbúðarhúsnæði. Það kom í hlut verkalýðshreyfingarinnar á Íslandi að knýja fram með aðgerðum og samningum á vinnumarkaði ýmsa löggjöf sem náðist fram að frumkvæði stjórnmálaflokkanna innan þjóðþinganna annars staðar á Norðurlöndum. Þar við bættist að vegna þess hve opinber stefnumótun í félagsmálum var veikburða á fyrstu áratugunum eftir stríð fékk verkalýðshreyfingin og aðrir aðilar vinnumarkaðarins mikið svigrúm til að móta félagsmálastefnuna.

Svo örfá dæmi séu nefnd um framlag verkalýðshreyfingarinnar til uppbyggingar velferðarsamfélagsins má nefna að hún hafði forgöngu um að koma á og færa út félagslegar tryggingar allt frá því að Jón Baldvinsson, formaður Alþýðuflokksins, fékk samþykkt lög á Alþingi um slysatryggingar 1925 og fram til almannatrygginganna 1947. Í öðru lagi náðust atvinnuleysistryggingar fram árið 1955 eftir lengsta, víðtækasta og harðvítugasta verkfall sem launafólk hefur háð. Þá eins og stundum síðar ákvað verkalýðshreyfingin að fórna stundarávinningi í því skyni að bæta lífskjör til frambúðar, en það gat kostað átök innan hreyfingarinnar. Í þriðja lagi var almennum lífeyrissjóðum komið á með samningum verkalýðsfélaga og atvinnurekenda 1969, sem lögðu grundvöllinn undir núverandi lífeyrissjóðakerfi.

Í stuttu máli átti verkalýðshreyfingin og flokkar næstir henni öðrum fremur þátt í því að vinna hugmyndinni um *félagslegan borgararétt* brautargengi í íslensku samfélagi, sem í hnotskurn fólst í því að líta ekki á aðstoð vegna fátæktar, veikinda, sjúkdóma og annarra áfalla í lífinu sem ölmusu sem samfélagið gefur verðugum þegnum heldur

rétt allra ríkisborgara til efnahagslegs og félagslegs öryggis (þessum hugmyndum er lýst vel í *Almannatryggingum á Íslandi* 1945).

Ofangreind skoðun, þ.e. að telja verkalýðshreyfinguna og sósíaldemókratismann helsta mótunarafl velferðarríkisins hefur verið næsta viðtekin bæði hér og annars staðar á Norðurlöndum. En þetta *verkalýðsviðhorf* (e. *the labourist approach*) hefur sætt nokkurri gagnrýni á síðari áratugum. Bent hefur verið á að það eigi fyrst og fremst við um eftirstríðsárin, en önnur þjóðfélagsöfl en verkalýðshreyfingin hafi verið sterk fyrir þann tíma. Sagnfræðingurinn Peter Baldwin hefur t.d. haldið því fram að millistéttirnar ásamt flokkunum á hægri væng stjórnmálanna hafi ráðið miklu um framvindu velferðarmála, ekki aðeins fyrir stríð heldur einnig á gullaldarskeiði velferðarríkisins 1945–1970 (Baldwin 1992; Christiansen og Markkola 2006).

Vöxtur velferðarríkisins fól í sér svo víðtækar samfélagsbreytingar að það gefur augaleið að það voru fleiri en verkalýðshreyfingin sem komu við sögu. Áhrifaöflin voru af ýmsu tagi, bæði ákveðnar þjóðfélagsaðstæður og hagsmunahópar og félagsmálahreyfingar sem voru í aðstöðu til að setja mark sitt á opinbera stefnu. Hér verður stuttlega rætt um tvær hreyfingar sem áttu mikinn þátt í að móta velferðarkerfið fram á síðustu áratugi 20. aldar og voru reyndar svo mikilvægar að við fáum ekki almennilega skilið íslenska velferðarkerfið nú á dögum og sérstöðu þess nema við viðurkennum framlag þeirra. Önnur er kvennahreyfingin, hin er Sjálfstæðisflokkurinn.

## Kvennahreyfingin: góðgerðastarf og pólitískur femínismi

Með félagsstarfi og stjórnmálaþátttöku átti kvennahreyfingin stóran þátt í að víkka út viðfangsefni ríkisvaldsins á sviði félagsmála. Hér á ég bæði við eldri kvennahreyfinguna, sem var virkust á tímabilinu 1890–1920, og kvennahreyfinguna síðari sem lét til sín taka um og eftir 1970 með baráttusamtökum á borð við Rauðsokkur, kvennaframboð og Kvennalista og jafnréttisbaráttu innan verkalýðshreyfingarinnar.

Kvennahreyfingin og verkalýðshreyfingin áttu margt sameiginlegt. Báðar voru grasrótarhreyfingar sem urðu til utan hinna formlegu stjórnmála og meðlimir þeirra höfðu ekki einu sinni kosningarétt að fullu fyrr en á árunum 1915–1920. Báðar hreyfingarnar háðu baráttu fyrir félagslegum umbótum og höfðu róttækari þjóðfélagssýn en ráðandi stjórnmálaflokkar. Þeim var umhugað um úrbætur á sviði menntamála, heilsugæslu, húsnæðismála og vinnuverndar. Báðar hreyfingarnar börðust fyrir bættum kjörum fátæks fólks. Almennt talað stefndu báðar hreyfingarnar að því að gera konur og verkafólk að fullgildum þjóðfélagsþegnum og að almannavaldið sinnti þörfum þeirra og kröfum (Guðmundur Jónsson 2001: 72–86).

Að öðru leyti voru hreyfingarnar ólíkar. Verkalýðshreyfingin hafði róttækari þjóðfélagssýn og tók að berjast fyrir sósíalisma eftir stofnun ASÍ og Alþýðuflokks 1916. Hún vildi útrýma fátækt með félagslegu átaki og koma á breytingum á þjóðfélagsgerðinni. Verkalýðshreyfingin miðaði mjög stefnu sína við útivinnandi karla, hún var borin uppi af verkakörlum framan af og var áberandi karllæg í stefnu sinni fyrstu áratugina. Konum var ekki hleypt inn í sum verkalýðsfélög eins og Dagsbrún, hvorki sem einstaklingum né í sérstökum kvennadeildum.

Kvennahreyfingin miðaði starf sitt við að líkna þeim sem áttu bágt og hjálpa fátæklingum til sjálfshjálpar innan ramma ríkjandi þjóðskipulags. Starf hennar beindist einkum í tvo farvegi. Annars vegar mynduðust samtök sem unnu að ýmsum líknarmálum og voru þau að yfirgnæfandi hluta skipuð konum og ber því með réttu að teljast til kvennahreyfingarinnar (Margrét Guðmundsdóttir 1992 og 1995; Sigríður Th. Erlendsdóttir 1993). Konur í góðgerðasamtökum söfnuðu fé til að styrkja fátæka með mat- og fatagjöfum, eða saumuðu sjálfar flíkur og legufatnað. Þær sátu yfir sjúkum konum og hjálpuðu við heimilisstörf meðan svo stóð á. Þær settu upp sunnudagaskóla til að ala börn fátæklinga upp í kristilegum siðum. Hins vegar óx fram kvenréttindahreyfing eftir aldamótin sem krafðist pólitískra og félagslegra réttinda konum til handa (Sigríður Th. Erlendsdóttir 1993; Auður Styrkársdóttir 1994 og 1998). Þessir tveir armar kvennahreyfingarinnar tengdust á ýmsan

veg og var mikið til sama fólkið sem í þeim starfaði. Kvennaframboð kom konum í bæjarstjórn Reykjavíkur 1908 þar sem þær settu félags- og heilbrigðismál s.s. barnagæslu á vegum bæjarfélagsins og bættan aðbúnað skólabarna á oddinn, en á þeim tíma voru þessi „vandamál hversdagsins" vart talin til alvörustjórnmála meðal karlanna í bæjarstjórn Reykjavíkur og á Alþingi; þau áttu heima inni á heimilunum.

Það lá í eðli góðgerðafélaga að veita einstaklingsbundna aðstoð, sinna líknarstarfi og neyðarþjónustu við fátækt og sjúkt fólk. En kvennahreyfingunni tókst jafnframt að koma á varanlegum umbótum á vissum sviðum og má þar einkum nefna mikla framför í heilsuvernd Reykvíkinga með tilkomu hjúkrunarfélagsins Líknar, stofnun elliheimila og bætta sjúkrahúsþjónustu, ekki síst með stofnun Landspítalans 1930. Opinber velferðarþjónusta leysti síðan góðgerðasamtökin að verulegu leyti af hólmi, þó aldrei alveg og hafa jafnvel sum þeirra gengið í endurnýjun lífdaganna á síðari árum.

Kvennahreyfingin átti einnig þátt í að breyta viðhorfum samfélagsins til stjórnmála og gera einkasviðið, málefni fjölskyldunnar og heimilanna, að pólitísku viðfangsefni. Á meðan verkalýðshreyfingin og flokkar hennar einbeittu sér að því að bæta kjör og aðstæður launamanna á vinnumarkaði vann kvennahreyfingin að jafnstöðu kynjanna, viðurkenningu á mikilvægi heimilisstarfa og samhæfingu þeirra og launavinnu, sem ætíð hafði verið talið einkamál fjölskyldunnar og utan verkahrings stjórnmálanna.

Nýja kvennahreyfingin tók upp þennan þráð á sjöunda áratugnum og tókst smám saman að fá viðurkenningu á þessum málaflokki sem fullgildu viðfangsefni opinberrar félagsmálastefnu. Konur hófu baráttu fyrir því að lagalegt ójafnrétti sem enn var til staðar (t.d. í réttindakerfinu og með sérsköttun hjóna) yrði afnumið. Þær náðu miklum árangri um síðir í réttindamálum sem miðuðu að því að minnka aðstöðumun karla og kvenna s.s. varðandi fæðingarorlof og dagvistun barna. Barátta fyrir auknum réttindum kvenna fór að sjálfsögðu einnig fram innan verkalýðshreyfingarinnar eins og í dagvistarmálum og lífeyris- og tryggingamálum. Verkakvennafélagið Sókn hafði t.d. forgöngu um að semja um aukinn rétt kvenna vegna veikinda barna og rétt til starfsmenntunar.

## Sjálfstæðisflokkur: takmörkuð ríkisforsjá í velferðarmálum

Hinn áhrifavaldurinn við myndun velferðarríkisins sem hér er gerður að umtalsefni eru hægriflokkarnir á Íslandi og þá einkum Sjálfstæðisflokkurinn. Það er sérstaklega mikilvægt að gefa þeim gaum vegna þess að þeir hafa lengst flokka verið í ríkisstjórn meðan vinstriflokkarnir, verkalýðsflokkarnir svokölluðu, hafa ekki verið nándar nærri eins sterkir á stjórnmálasviðinu, hvað þá í samanburði við systurflokka sína annars staðar á Norðurlöndum.

Með því að viðurkenna áhrif hægriflokkanna er ég ekki að taka undir þá skoðun sem stundum hefur heyrst frá forystumönnum Sjálfstæðisflokksins, nú síðast Kjartani Gunnarssyni fyrrverandi framkvæmdastjóra flokksins, að Sjálfstæðisflokkurinn sé „höfundur íslenska velferðarkerfisins“ og hafi staðið vörð um það í 70 ár (Vikulokin, Rás 1 RÚV, 20. maí 2006). Ég er fremur að vekja athygli á því að hægriflokkarnir á Íslandi, sérstaklega Sjálfstæðisflokkurinn, hafa ráðið miklu um framkvæmd félagsmála- og velferðarstefnu í krafti pólitískrar valdastöðu sinnar. Þegar haft er í huga að Sjálfstæðisflokkur sat að völdum í 43 ár af þeim 57 árum sem liðu frá myndun nýsköpunarstjórnar til aldamóta gefur augaleið að þessi valdamesti flokkur lýðveldistímans hefur ráðið miklu um stefnu og umfang íslenska velferðarríkisins, jafnvel þótt hann hafi aðeins einu sinni farið með félagsmálin í ríkisstjórn, en þau komu í hlut Gunnars Thoroddsens í ríkisstjórn Geirs Hallgrímssonar 1974–1978. (Reyndar gegndi Ólafur Thors embætti forsætis- og félagsmálaráðherra í minnihlutastjórn Sjálfstæðisflokks í rúma þrjá mánuði 1949–1950). Spurningin er ekki hvort heldur hvernig Sjálfstæðisflokkurinn hefur mótað velferðarkerfið.

Því hefur oft verið haldið fram að Sjálfstæðisflokkurinn hafi gengið velferðarhyggjunni á hönd í síðari heimsstyrjöld, horfið frá afdráttarlausri einstaklingshyggju og tekið upp félagslega frjálshyggju (Matthías Johannessen 1981:415) Vísa menn þá jafnan til nýsköpunarstjórnarinnar 1944–1947 og þeirra merkilegu félagslegu umbóta, þ. á m. almannatrygginga, sem hún stóð fyrir. Fram að þeim tíma hafði Sjálfstæðisflokkurinn ekki lagt mikla rækt við

svokölluð velferðarmál í stefnu sinni eða starfi og jafnvel lagst gegn útfærslu alþýðutrygginga á fjórða áratugnum. Sinnaskipti hans í lok stríðs komu frekar vegna þrýstings utanfrá en innanfrá og verða að skoðast í því ljósi að Alþýðuflokkurinn gerði það að úrslitaatriði í stjórnarmyndunarviðræðum 1944 að komið yrði á „svo fullkomnu kerfi almannatrygginga, sem nái til allrar þjóðarinnar, án tillits til stétta eða efnahags, að Ísland verði á því sviði í fremstu röð nágrannaþjóða", eins og það var orðað í stjórnarsáttmála (*Alþingistíðindi* 1945 A:613). Þannig má segja með nokkrum rétti að stefnubreyting Sjálfstæðisflokksins í félagsmálum í stríðslok hafi verið knúin fram af Alþýðuflokknum.

Það tók Sjálfstæðisflokkinn langan tíma að ganga hugmyndinni um almannatryggingar á hönd og fetaði hann sig hægt inn á þá braut á næstu áratugum. Tryggingar og önnur félagsleg samhjálp væru æskilegar að vissu marki en þeim bæri að haga þannig að þær drægju ekki úr „athafnavilja einstaklinganna" eða leiddu til misnotkunar, eins og fram kemur í mörgum ályktunum af landsþingi flokksins. Flokkurinn hélt þeirri hugmynd á lofti að velferð væri fyrst og fremst komin undir nægri vinnu og framtaki einstaklingsins en ekki opinberri forsjá, enda þótt flokkurinn gengist inn á hlutverk ríkisins á afmörkuðum sviðum. Grunntónninn í stefnu hans var að markaðurinn, frjálst framtak einstaklinganna, ætti að vera ráðandi þáttur við mótun lífskjara og ríkisafskipti þar af leiðandi að vera takmörkuð (sjá t.d. Eyjólfur K. Jónsson og Ólafur Björnsson 1961). Hann kaus sér varfærna stefnu í félagsmálum og hélt frekar aftur af tillögum samstarfsflokka í ríkisstjórn um aukin velferðarréttindi en að hafa sjálfur frumkvæði að þeim. Með tímanum tók hann upp margar af hugmyndum vinstriflokkanna, útfærði þær á sinn hátt og hrinti í framkvæmd. En hann stöðvaði líka framgang ýmissa velferðarmála um áratugi sem síðar hafa þótt sjálfsögð.

Til þess að skýra betur hvernig Sjálfstæðisflokkurinn setti mark sitt á uppbyggingu velferðarkerfisins skulu tilfærð þrjú dæmi. Í upphaflegum tillögum milliþinganefndarinnar sem tók tryggingamálin til skoðunar á stríðsárunum var gert ráð fyrir fastri upphæð ellilífeyrisbóta, en vegna kröfu Sjálfstæðisflokksins um að útgjöld vegna frumvarpsins yrðu skorin niður komust stjórnarflokkarnir að sam-

komulagi um að lækka bætur og tengja þær tekjum. Framlag hinna tryggðu var aftur á móti meira í fjármögnun tryggingakerfisins en annars staðar á Norðurlöndum fram um 1960. Þessi niðurstaða sem fékkst með löggjöfinni 1946 markaði brautina í tryggingamálum á næstu áratugum og urðu tekjutenging bóta og lágar bætur einkennandi fyrir íslenska tryggingakerfið í samanburði við kerfin annars staðar á Norðurlöndum.

Atvinnuleysistryggingar voru ekki lögfestar hér á landi fyrr en 1956, mörgum áratugum eftir að önnur Norðurlönd komu þeim á (Edling 2006). Í upphaflegu frumvarpi um alþýðutryggingar 1935 var gert ráð fyrir atvinnuleysistryggingum, en kaflinn sem um þær fjallaði var svo útvatnaður í meðförum þingsins að ekkert varð úr framkvæmd þeirra. Framsóknarflokkurinn treysti sér ekki til að styðja upphaflegu hugmyndirnar og því fór sem fór. Sjálfstæðisflokkurinn var í stjórnarandstöðu og veittist af hörku gegn kaflanum um atvinnuleysistryggingar. Á næstu áratugum voru fjölmörg frumvörp lögð fram á Alþingi en hvorki rak né gekk þar sem hægriflokkarnir, sérstaklega Sjálfstæðisflokkurinn, settu sig upp á móti öllum hugmyndum af þessu tagi. Stefna flokksins var sú að ríkið ætti að stuðla að fullri atvinnu í landinu og nota opinbert fé til atvinnusköpunar frekar en að eyða því í tryggingasjóði.

Húsnæðismálin eru líka ágætt dæmi um svið velferðarkerfisins sem mótað var eftir stefnu Sjálfstæðisflokksins. Flokkurinn lagðist gegn frumvarpi Héðins Valdimarssonar um verkamannabústaði 1929 og munaði litlu að það yrði fellt. Eftir síðari heimsstyrjöld var opinber stefna mjög í anda stefnu Sjálfstæðisflokksins og miðaðist við það að sem flestir ættu sína íbúð, en lítil áhersla var lögð á rétt leigjenda, félagslegar íbúðir eða opinbert lánakerfi til húsnæðiskaupa þar til á síðustu tveim áratugum aldarinnar. Hér er rétt að hafa í huga að sjálfseignarstefnan naut víðtæks stuðnings, þar á meðal innan verkalýðshreyfingarinnar. Fjármögnun og jafnvel bygging eigin húsnæðis lenti þannig að mestu í höndum einstaklinga og opinber lánafyrirgreiðsla við húsnæðiskaup var mjög af skornum skammti fram yfir 1980. Jafnvel innan félagslega íbúðakerfisins varð sjálfseign ráðandi, ólíkt því sem tíðkaðist hjá flestum öðrum þjóðum (Ingi Valur Jóhannsson og Jón Rúnar Sveinsson 1986; Jón Rúnar Sveinsson 2000).

# Lokaorð

Það var ekki fyrr en með almannatryggingum og öðrum félagslegum umbótum eftir heimsstyrjöldina síðari að ríkisvaldið tók upp á sína arma meginhluta velferðarkerfisins. Fram til þess tíma sinntu sveitarstjórnir, frjáls félagasamtök og ekki síst verkalýðshreyfingin margs konar samhjálp til að stuðla að meira félagslegu öryggi landsmanna. Verkalýðshreyfingin ásamt vinstriflokkunum var sannarlega einn helsti drifkrafturinn í uppbyggingu velferðarkerfisins, en kvennahreyfingin gegndi einnig mikilvægu hlutverki, sérstaklega meðan opinber velferðarþjónusta var enn á frumskeiði. Í ritum bæði fræðimanna og annarra um sögulega þróun velferðarkerfisins hefur verið einblínt á þátt verkalýðshreyfingar og vinstriflokka í mótun velferðarkerfisins, en áhrifum hægriflokka, sérstaklega Sjálfstæðisflokksins, hefur ekki verið gefinn nægilega mikill gaumur. Umsvifaminna velferðarkerfi í samanburði við önnur Norðurlönd fram á síðustu áratugi 20. aldar, sem kemur m.a. fram í takmarkaðri bótarétti í almannatryggingum, ríkri tekjutengingu bóta, sjálfsfjármögnun íbúðarhúsnæðis o.fl., má ekki síst rekja til áhrifa Sjálfstæðisflokksins á stefnu og aðgerðir hins opinbera í félagsmálum.

Margir frjálshyggjumenn vilja ganga enn lengra en Sjálfstæðisflokkurinn og vinda ofan af ríkisvaldinu í félagsmálum eins og gert hefur verið í viðskipta- og atvinnulífi á undanförnum áratugum. Bæði hér á Íslandi og í útlöndum er hreyfing í þá átt að efla góðgerðastarf einstaklinga og félaga sem gæti jafnvel leyst opinbera samhjálp að nokkru leyti af hólmi. Velferðarskáldunum, hinum ofurríku sem vilja „láta gott af sér leiða“, er hampað og jafnvel á vinstri væng stjórnmálanna eru farnar að heyrast raddir um að láta einkaframtakið njóta sín meira en verið hefur. Þótt góðgerðakapítalisminn svokallaði sé farinn að skipta meira máli en áður er ólíklegt að hann muni skipta sköpum í velferðarmálum þegar á heildina er litið. Framlag hans í flestum Evrópulöndum er aðeins dropi í hafið í samanburði við þá fjármuni sem hið opinbera leggur til velferðarmála. Veruleg breyting á vægi einkageirans og hins opinbera á þessu sviði virðist ekki njóta mikillar hylli og myndi valda meiriháttar uppnámi í stjórnmálum Evrópu.

# Heimildir

*Almannatryggingar á Íslandi. Skýrslur og tillögur um almannatryggingar, heilsugæslu og atvinnuleysismál*. 1945. Reykjavík.

*Alþingistíðindi* 1945.

Auður Styrkársdóttir. 1994. *Barátta um vald. Konur í bæjarstjórn Reykjavíkur 1908–1922*. Reykjavík.

Auður Styrkársdóttir. 1998. *From Feminism to Class Politics. The Rise and Decline of Women's Politics in Reykjavik, 1908–1922*. Umeå.

Baldwin, Peter. 1992. *The Politics of Social Solidarity. Class Bases of the European Welfare State, 1875–1975*. Cambridge.

Bornstein, David. 2004. *How to Change the World. Social Entrepreneurs and the Power of New Ideas*. Oxford.

Christiansen, Niels Finn og Pirjo Markkola. 2006. „Introduction". *The Nordic Model of Welfare. A Historical Appraisal*, bls. 9–29. Ritstjórar Nils Finn Christiansen, Klaus Petersen, Nils Edling og Per Haave. Kaupmannahöfn.

*Economist,* 23. febrúar 2006.

Edling, Nils. 2006. „Limited Universalism: Unemployment Insurance in Northern Europe 1900–2000". *The Nordic Model of Welfare. A Historical Appraisal*, bls. 99–143. Ritstjórar Nils Finn Christiansen, Klaus Petersen, Nils Edling og Per Haave. Kaupmannahöfn.

Eyjólfur K. Jónsson og Ólafur Björnsson. 1961. *Hægri stefna og velferðarríkið*. Reykjavík.

Giddens, Anthony. 1998. *The Third Way: The Renewal of Social Democracy*. Cambridge.

Giddens, Anthony. 2000. *The Third Way and it Critics*. Cambridge.

Guðmundur Jónsson. 2001. „Agents and Institutions in the Creation of the Icelandic Welfare State, 1880–1946". *Frihed, lighed og tryghed. Rapporter til Det 24. Nordiske Historikermøde, Århus 9.–13. august 2001*, bls. 61–89. Bindi 2. Árósum.

Guðmundur Jónsson. 2001. „The Icelandic Welfare State in the Twentieth Century". *Scandinavian Journal of History* 26(3):249–267.

Ingi Valur Jóhannsson og Jón Rúnar Sveinsson. 1986. *Íslenska húsnæðiskerfið*. Reykjavík.

Jón Blöndal (ritstjóri). 1942. *Félagsmál á Íslandi*. Reykjavík.

Jón Rúnar Sveinsson. 2000. *Society, Urbanity and Housing in Iceland*. Tierp.

Kjartan Gunnarsson. 2006. Viðtal í þættinum Vikulokin, Rás 1 (RÚV), 20. maí.

Leadbeater, Charles. 1997. *The Rise of the Social Entrepreneur*. London.

Margrét Guðmundsdóttir. 1992. „Verðir heilbrigðinnar. Hjúkrunarfélag-

ið Líkn 1915–1935“. *Söguspegill. Afmælisrit Árbæjarsafns*, bls. 258–279. Helgi M. Sigurðsson ritstj. Reykjavík.

Margrét Guðmundsdóttir. 1995. *Aldarspor.* Reykjavík.

Matthías Johannessen. 1981. *Ólafur Thors. Ævi og störf* I. Reykjavík.

*Morgunblaðið,* 17. sept. 2006, bls. 14 („Okkur er ekki sama“).

Rogers, Daniel T. 1998. *Atlantic Crossings. Social Politics in a Progressive Age*. Cambridge, Mass.

Sigríður Th. Erlendsdóttir. 1993. *Veröld sem ég vil. Saga Kvenréttindafélags Íslands 1907–1992*. Reykjavík.

Stefán Ólafsson. 1999. *Íslenska leiðin. Almannatryggingar og velferð í fjölþjóðlegum samanburði*. Reykjavík.

Þorleifur Friðriksson. 2007. *Við brún nýs dags. Saga Verkamannafélagsins Dagsbrúnar 1906–1930.* Ritröð Sagnfræðistofnunar Háskóla Íslands. Reykjavík.

*Stefán Ólafsson*

# Launþegahreyfingin á nýrri öld
# Staða og horfur

Launþegahreyfingin var ein af mikilvægari stofnunum iðnríkja Vesturlanda frá seinni hluta 19. aldar og langt fram eftir 20. öldinni. Verkalýðsfélög höfðu orðið til í kjölfar iðnvæðingar og borgarvæðingar á seinni hluta 19. aldar, sem þjappaði verkafólki saman og gerði því kleift að nýta samtakamátt sinn til að styrkja samningsstöðu sína gagnvart atvinnurekendum. Það var eina mögulega leiðin á þeim tíma til að ná fram kjarabótum umfram það sem vænta mátti af velvild einstakra atvinnurekenda.

Að mörgu leyti gjörbreytti launþegahreyfingin starfs- og þjóðfélagsskilyrðum almennings og hafa launamannafélögin átt stóran þátt í að móta lífskjör nútímafólks. Þar vegur hvað þyngst bættur kaupmáttur launa og viðunandi vinnuskilyrði. Víða höfðu launþegafélögin einnig mikil áhrif á uppbyggingu velferðarríkisins sem tryggir almenningi lágmarkslífskjör og dregur úr fátækt og áhrifum stéttaskiptingar í samfélaginu.

Í ljósi þeirra áhrifa sem launþegahreyfingin hefur haft á þjóðfélagsþróunina í mörgum löndum í meira en heila öld er að mörgu leyti mótsagnakennt að hún virðist nú sums staðar eiga í nokkurri tilvistarkreppu. Sú staða er til komin bæði fyrir ytri og innri áhrif á hreyfinguna.

Í þessari grein mun ég fjalla um stöðu og horfur launþegahreyfingarinnar í nýju þjóðfélagsumhverfi nútímans. Bæði verður litið til hreyfingarinnar almennt á Vesturlöndum og þeirrar íslensku

sérstaklega. Markmiðið er að meta stöðu og möguleika íslensku launþegahreyfingarinnar með hliðsjón af reynslu launþegahreyfinga í grannríkjunum. Færð eru rök fyrir því að íslenska launþegahreyfingin hafi afar sterka stöðu í samfélaginu og eigi því mikla möguleika á að leika áfram stórt hlutverk í mótun þjóðfélagsins. Að mörgu leyti er nú sótt að hagsmunum launþega, meðal annars fyrir tilstilli aukinnar hnattvæðingar og markaðsvæðingar og vegna sterkari stöðu fjármagnsafla. Þess vegna er brýnna en oft áður að launþegahreyfingin haldi stöðu sinni og beiti afli sínu í þágu almannahagsmuna af enn meiri þunga en áður. Hið nýja hnattvædda þjóðfélagsumhverfi framtíðarinnar virðist líklegt til að færa launþegahreyfingunni mörg ný verkefni.

## Sögulegar forsendur, árangur og kreppa hreyfingarinnar

Mjög misjafnt var hversu vel launþegahreyfingin skaut rótum í þróuðu löndunum. Áhrif hennar í samfélaginu á hverjum stað hafa að mörgu leyti verið í samræmi við það. Þar sem hreyfingin varð sterk hafði hún mikil áhrif á samfélagið og lífskjör almennings (Boeri o.fl. 2001).

Í töflu 1 má sjá í hvaða mæli launþegahreyfingin náði til launafólks í helstu vestrænu ríkjunum á tímabilinu 1970 til 2000. Þar gætir í senn áhrifa frá frummótunartímanum fyrr á öldinni og breytinga á síðustu áratugunum, sem margir hafa kennt við kreppu launþegahreyfingarinnar. Sú kreppa kemur ekki hvað síst fram í minnkandi þátttöku launþega í starfi hreyfingarinnar. Almennt virðist sem þátttaka í launþegahreyfingunni í þróuðu þjóðfélögunum hafi náð hámarki um 1980, en eftir það hafi meðlimum víða tekið að fækka.

Ef litið er á töfluna má sjá að norrænu þjóðirnar hafa mikla sérstöðu hvað launþegahreyfingu varðar, því þar er þátttaka mun meiri en almennt er í hinum þróaða heimi. Ísland, Svíþjóð, Finnland og Danmörk eru langt fyrir ofan aðrar þjóðir og einungis Belgar skáka Norðmönnum lítillega í meðlimafjölda. Enn fremur hefur meðlimum launþegahreyfingarinnar lítið fækkað á Norðurlöndum eftir 1970, á heildina litið, öfugt við þróunina annars staðar. Staða

launþegahreyfingarinnar er því óvenju sterk á Norðurlöndum. Þar hefur jafnframt gætt meiri fyrirstöðu af hálfu launþegahreyfingarinnar gegn þeim straumum tíðarandans sem beinast að félagslegum undirboðum, niðurskurði í velferðarkerfinu og auknum ójöfnuði. Samt hefur þar náðst hvað bestur árangur í samkeppnishæfni efnahagslífs, nýsköpun og hagsæld.

**Tafla 1: Þátttaka í launþegafélögum 1970–2000**
**Hlutfall launþega í félögum og breytingar frá 1970 til 2000**

| | *2000* | *1980* | *1970* | *1980–2000 breyting í %* | *1970–2000 breyting í %* |
|---|---|---|---|---|---|
| **Norðurlönd:** | | | | | |
| Ísland | 84,0 | 75 | .. | 9,0 | .. |
| Svíþjóð | 81,1 | 80 | 68 | 1,1 | 13,1 |
| Finnland | 76,2 | 69 | 51 | 7,2 | 25,2 |
| Danmörk | 74,4 | 79 | 60 | -4,6 | 14,4 |
| Noregur | 54,3 | 58 | 57 | -3,7 | -2,7 |
| **Meginland Evrópu:** | | | | | |
| Belgía | 55,6 | 54 | 41 | 1,6 | 14,6 |
| Austurríki | 36,5 | 57 | 63 | -20,5 | -26,5 |
| Ítalía | 34,9 | 50 | 37 | -15,1 | -2,1 |
| Lúxemborg | 33,6 | 52 | 47 | -18,4 | -13,4 |
| Þýskaland | 25,0 | 35 | 32 | -10,0 | -7,0 |
| Portúgal | 24,3 | 61 | .. | -36,7 | .. |
| Holland | 23,2 | 35 | 37 | -11,8 | -13,8 |
| Ungverjaland | 19,9 | .. | .. | | .. |
| Sviss | 17,8 | 31 | 29 | -13,2 | -11,2 |
| Spánn | 14,9 | 7 | .. | 7,9 | .. |
| Pólland | 14,7 | .. | .. | | .. |
| Frakkland | 9,7 | 18 | 22 | -8,3 | -12,3 |
| **Asía:** | | | | | |
| Japan | 21,5 | 31 | 35 | -9,5 | -13,5 |
| Kórea | 11,4 | 15 | 13 | -3,6 | -1,6 |
| **Engilsaxnesku ríkin:** | | | | | |
| Írland | 38,0 | 57 | 53 | -19,0 | -15,0 |
| Bretland | 31,2 | 51 | 45 | -19,8 | -13,8 |
| Kanada | 28,1 | 35 | 32 | -6,9 | -3,9 |
| Ástralía | 24,5 | 48 | 44 | -23,5 | -19,5 |
| Nýja Sjáland | 22,7 | 69 | 56 | -46,3 | -33,3 |
| Bandaríkin | 12,8 | 22 | 37 | -9,2 | -24,2 |
| **OECD meðaltal** | 34,0 | 47 | 42 | -13,0 | -9.0 |

Ef miðað er við tímabilið frá 1980 til 2000 má sjá að umtalsverð fækkun varð í öllum engilsaxnesku ríkjunum. Minnst þó í Kanada og Bandaríkjunum, en í síðarnefnda ríkinu kom fækkun fram fyrr, eins og sjá má í dálkinum fyrir breytingar 1970 til 2000, enda eru Bandaríkin – ásamt Frakklandi og Kóreu – með eitt lægsta hlutfall launþega í félögum árið 2000. Einnig fækkaði í þeim löndum á meginlandi Evrópu sem fyrir höfðu hátt hlutfall launþega innan sinna vébanda, utan Belgíu sem hefur nokkra sérstöðu í þessari þróun. Spánn er annað land á meginlandi Evrópu sem hefur sérstöðu á þessu sviði, en þar fjölgaði í launþegafélögunum frá um 7% launþega árið 1980 í tæp 15% árið 2000.

Í Asíulöndunum Japan og Kóreu er hlutverk launþegafélaga með öðrum hætti en almennt er á Vesturlöndum, en þar gætti þó einnig fækkunar (Dore 2000). Launþegafélög voru talsvert sterk í Nýja Sjálandi, Írlandi og Austurríki árið 1980 en hafa nú veikst verulega í þessum löndum. Launþegum í launþegafélögum hefur því víða fækkað umtalsvert á síðustu tveimur áratugum.

En hlutfall launþega sem eru meðlimir í launþegafélögum er ekki eini mælikvarðinn á mikilvægi eða styrk launþegahreyfingarinnar. Á mynd 1 má sjá að í sumum löndum þar sem fækkað hefur hlutfallslega í launþegafélögum þiggur stór hluti launþega samt enn laun samkvæmt kjarasamningum hreyfingarinnar. Bestu dæmin um þetta eru Frakkland, Spánn, Holland, Portúgal, Ástralía, Þýskaland, Ítalía og Austurríki. Þannig eimir enn víða eftir af áhrifum hreyfingarinnar þó að meðlimum hafi fækkað. Á meginlandi Evrópu gætir í þessu sambandi meðal annars þess að forsendur samráðsstjórnmála eru þar víða sterkar. Stjórnvöld, atvinnurekendur og launþegafélög koma enn sterklega að stefnumótun í samfélaginu, meðal annars með víðtækri notkun þjóðarsáttmála (*social pacts*, sbr. Rhodes 2001).

Á heildina litið bendir mynd 1 til þess að áhrifa launþegahreyfingar gæti enn í umtalsverðum mæli þó að blikur séu á lofti varðandi þessa þróun á þátttöku í félögunum. Í engilsaxnesku ríkjunum er veikari staða launþegahreyfingar tengd þeirri stefnu stjórnvalda að ýta undir hlutverk markaðarins á kostnað stjórnmála og sjálfstæðra hagsmunasamtaka launafólks, sem meðal annars var áberandi í tíð Margrétar Thatchers (Pierson 1994).




Mynd 1: Áhrif launþegafélaga: þátttaka í hreyfingunni og notkun kjarasamninga.

Sterk staða launþegahreyfingarinnar í norrænu samfélögunum á sér samsvörun í öflugu velferðarríki. Þetta er sérstaklega afgerandi í skandinavísku samfélögunum, en íslenska velferðarríkið hefur um langa hríð verið eftirbátur hinna norrænu velferðarríkjanna, einkum hvað snertir upphæð lífeyris og miklar tekjutengingar í almannatryggingakerfinu, sem hafa unnið gegn kjarabótum hjá lífeyrisþegum og láglaunafólki. Á sviði velferðarþjónustu er staðan á Íslandi hins vegar líkari því sem tíðkast í Skandinavíu, einkum eftir að dagvistunarþjónusta við barnafjölskyldur batnaði hér á síðasta áratug (Stefán Ólafsson 1999 og Guðný Eydal og Stefán Ólafsson 2006).

Jöfnunaráhrif skatta og velferðarkerfis eru einnig mikil í skandinavísku þjóðfélögunum, sem stuðlar að betri lífskjörum almennra borgara en þar sem ójöfnuður er meiri, eins og til dæmis í Bandaríkjunum (Stefán Ólafsson 2006b). Íslenska launþegahreyfingin hefur ekki haft jafn sterka stöðu og systursamtökin í Skandinavíu, þar eð pólitískir bakhjarlar hafa verið áhrifameiri í Skandinavíu, þar sem launþegahreyfingin er samtengd jafnaðarmannaflokkunum. Íslenska launþegahreyfingin hefur líklega oftar mætt fyrirstöðu hjá stjórnvöldum og kann það að vera mikilvæg skýring á því að íslenska velferðarríkið hefur að hluta önnur einkenni en skandinavísku velferðarríkin (Stefán Ólafsson 1999, kafli 7).

Almennt má segja að íslenska launþegahreyfingin sé viðamikil stofnun í íslensku samfélagi, samanborið við það sem almennt er á Vesturlöndum. Hún hefur náð því að verða stór hreyfing sem er fulltrúi alls þorra launþega og þar með alls þorra þjóðfélagsþegnanna. Sú staða hefur gert hreyfingunni mögulegt að hafa mikil áhrif á samfélagsþróunina. Fullyrða má að án íslensku launþegahreyfingarinnar hefðu kjör almennings ekki orðið jafn góð og raun ber vitni.

## Velferðarríki verkalýðshreyfingarinnar

Flest bendir þannig til þess að íslenska velferðarríkið væri mun viðaminna en nú er ef ekki hefði notið áhrifa sterkrar launþegahreyfingar á liðnum áratugum. Það helgast af því að hreyfingin hefur ítrekað þrýst á um endurbætur á réttindum lífeyrisþega í kjarasamningum og með samráði við stjórnvöld á eftirstríðsárunum. Hún hefur lagt sérstaka áherslu á að bæta kjör þeirra sem minnst báru úr býtum og sótt fyrirmyndir til frændþjóðanna sem fremstar voru hverju sinni. Upptaka almennu lífeyrissjóðanna á vinnumarkaði í kjarasamningum árið 1969 er eitt stærsta skrefið sem launþegahreyfingin hefur tekið á síðustu áratugum til að efla velferðarríkið. Markmiðið var að færa vinnandi fólki betri lífeyriskjör vegna þess að lífeyrir almannatrygginga var ófullnægjandi frá hendi ríkisvaldsins.

Mörg fleiri dæmi má nefna um framlag launþegahreyfingarinnar til uppbyggingar velferðarríkisins á Íslandi. Snemma beitti hreyfingin sér fyrir umbótum á húsnæðismálum verkafólks og annarra láglaunahópa. Hún sótti í kjarasamningum árið 1955 fjármuni til að standa straum af atvinnuleysisbótasjóði, sem stjórnvöld höfðu sniðgengið um langt árabil. Hún þrýsti ítrekað á að lágmarkslífeyrisbætur almannatrygginga hækkuðu með lægstu launum, beitti sér fyrir jöfnun kjara kynjanna, sótti fyrirmyndir um aukin réttindi og vinnuvernd til alþjóðasamtaka launafólks og Alþjóðavinnumálastofnunarinnar, samdi um greiðslu launa í veikindum og efldi sjúkrasjóði þegar ríkisvaldið brást sjúkum og langveikum algerlega með ófullnægjandi sjúkratryggingum. Þetta er einungis brot af framlagi launþegahreyf-

ingarinnar til uppbyggingar velferðarríkisins á Íslandi (sjá nánar í bókinni *Íslenska leiðin* eftir Stefán Ólafsson, 1999).

Oft hefur þessi þróun gerst með þeim hætti að launþegahreyfingin þrýsti á um félagslegar kjarabætur og bætt réttindi en atvinnurekendur og stjórnvöld spyrntu við. Þó hafa atvinnurekendur stundum lagst á sömu árar og launþegar gagnvart stjórnvöldum. Hvort sem fjárhagslegar þrengingar eða hugmyndafræðileg afstaða hafa ráðið ferð hjá stjórnvöldum, þá hefur þar á bæ oft gætt mikillar fyrirstöðu gegn útþenslu velferðarríkisins og réttindabótum að skandinavískri fyrirmynd á liðnum áratugum. Sumt hefur þó vissulega náðst.

Þannig hafa stjórnvöld stundum leiðst út í að veita kjarabætur með annarri hendi en taka þær til baka með hinni. Almannatryggingakerfið hefur oft verið vettvangur slíks hráskinnaleiks. Bætur hafa verið hækkaðar, nýir bótaflokkar stofnaðir, en skerðingareglur og skattar hafa svo í kjölfarið hirt stóran og jafnvel allan hluta þess ávinnings sem í upphaflegum umbótum fólst. Þetta hafa til dæmis að hluta verið örlög aukinna lífeyristekna úr lífeyrissjóðum vinnumarkaðarins á síðasta áratug og sérstakrar aldurstengdrar uppbótar fyrir öryrkja (Stefán Ólafsson 2005).

Aukin skattbyrði hjá lágtekjufólki sl. 10 ár hefur rýrt ávinning af sérstakri hækkun lægstu launa sem launþegahreyfingin náði fram í kjarasamningum. Hertar skerðingareglur í barnabótakerfinu upp úr miðjum síðasta áratug gerðu að verkum að útgjöld til barnabóta lækkuðu úr um 1,2% af landsframleiðslu í um 0,6% frá 1990 til 2004. Í kjölfar þess að fasteignaverð stórhækkaði rýrnaði vaxtafrádráttur skuldugra íbúðareigenda mikið á síðustu misserum, með tilheyrandi þrengingum fyrir ungar barnafjölskyldur. Félagslega húsnæðiskerfið var sömuleiðis lagt af án þess að með sambærilegum hætti væri tryggt að eldri markmiðum væri jafn vel eða betur náð. Staða Íbúðalánasjóðs hins opinbera er í mikilli óvissu vegna ásælni einkabankanna í viðskiptahagnað af íbúðalánum. Ójöfnuður hefur stóraukist á síðasta áratug, sem þýðir að lágtekjufólk og meðaltekjufólk hefur dregist aftur úr hátekjufólki, sem virðist nú orðið búa við óvenju sterka stöðu hér á landi samanborið við grannríkin á Vesturlöndum.

Þannig eru ávinningar fyrri ára lausir í hendi þegar stjórnvöld og viðskiptalíf sækja að með klækjum, undanbrögðum og harðdrægri útsjónarsemi. Stöðugt þarf að verjast og sækja fram fyrir hönd almennings. Án árvekni og öflugs þrýstings frá launþegahreyfingunni væri hér lítil fyrirstaða við því að samfélagið þróaðist frekar í átt að bandarískri þjóðfélagsgerð þar sem áhrif fjármálaafla eru mun meiri en tíðkast í skandinavísku þjóðfélögunum. Sumir á hægri vettvangi stjórnmálanna hér á landi virðast vilja ganga alla leið og breyta Íslandi í hreinræktaða paradís fyrir auðmenn (Hannes H. Gissurarson 2001). Slíkt samfélag væri verulega ólíkt þeim skandinavísku og síður í þágu almennings.

## Hnattvæðing breytir þjóðfélagsumhverfi launþega

Ytri breytingar á skilyrðum launþega og hreyfingar þeirra hafa verið óvenju miklar síðan um 1970 (Stefán Ólafsson og Kolbeinn Stefánsson 2005; Boeri, Brugiavini og Calmfors 2001). Hér er einkum átt við áhrif hnattvæðingar, nýrrar tækni og breyttra þjóðmálaviðhorfa. Nýja tæknin hefur skapað möguleika á verulega auknum tengslum og samskiptum milli heimshluta, meira flæði vöru, fjármagns og upplýsinga. Breytt þjóðmálaviðhorf hafa dregið úr hindrunum af völdum verndartolla, reglugerða og þröngra viðmiða innan ramma einstakra þjóðríkja. Þjóðríkin eru því ekki lengur sami rammi og áður. Þessum breyttu þjóðmálaviðhorfum hefur einnig fylgt verulega aukin áhersla á markaðsbúskap og tilfærsla verkefna frá ríki til einkaaðila, bæði með einkavæðingu og samstarfi opinberra aðila og einkaaðila.

Í reynd má segja að heimurinn bæði stækki og minnki í senn við þessar breytingar. Hann stækkar í þeim skilningi að fleiri aðilar og stærri svæði koma til álita sem vettvangur einstaklinga og fyrirtækja, en hann minnkar í þeim skilningi að auðveldara og fljótlegra er að hafa samskipti um langan veg. Það er síðan misjafnt í hvaða mæli þessir möguleikar eru nýttir. Almennt virðast fjárfestar og fyrirtæki mun hreyfanlegri en vinnuafl. Þannig eru enn talsverðar hömlur á

flutningum fólks milli landa en höft á flæði fjármagns og viðskipta hafa hins vegar minnkað mun meira. Þannig virðist sem fjármagn og fyrirtæki hafi forskot á að nýta sér tækifæri hins hnattvædda umhverfis fram yfir launþega og samtök þeirra. Fyrirtækjaviðmiðin eru oftar ráðandi en viðmið launþega.

Þetta kemur m.a. fram í því að fyrirtæki flytja hluta starfsemi sinnar greiðar en áður milli landa og starfrækja svokallaðar alþjóðlegar framleiðslukeðjur. Í sumum tilvikum er um flutning á starfsemi í heild sinni að ræða, t.d. með flutningi framleiðsluverksmiðja til svæða þar sem kostnaður er lægri en á fyrri stað. Með slíkum aðgerðum eykst í reynd samkeppni á vestrænum vinnumörkuðum. Þannig hefur bandarískur vinnumarkaðshagfræðingur til dæmis sagt að um einn og hálfur milljarður verkamanna hafi bæst við vestræna vinnumarkaði á síðustu árum, með því að verkafólk í Kína, Indlandi og á öðrum láglaunasvæðum heimsins sé tilbúið að vinna fyrir mun lægri laun þau verkefni sem áður hafa verið unnin á Vesturlöndum (Freeman 2005). Því til viðbótar er sú aukna samkeppni sem fylgir beinum flutningi vinnuafls frá láglaunasvæðum til hinna hagsælli ríkja. Aukin samkeppni við vestræna launamenn er þannig tvíþætt, bæði bein og óbein.

Þegar markaðsvæðing eykst styrkjast viðmið fjármálaheimsins og afl peninganna verður meira, oft á kostnað þess afls sem býr í lýðræðislegum stjórnkerfum. Við slíkar aðstæður styrkjast áhrif þeirra sem hafa meiri fjárráð og atvinnurekendur og eigendur fyrirtækja styrkja einnig stöðu sína. Þetta felur í sér að staða launþega getur veikst. Fjármagnseigendur og atvinnurekendur hafa í þessu nýja umhverfi eignast ný og sterk vopn, til dæmis þá hótun, sem er raunverulegri en fyrr, að ef ekki semjist um hagstæðari skilyrði fyrir ávöxtun fjármagns þá verði það flutt til annarra heimshluta. Þannig er með meiri krafti en áður hótað fækkun starfa og rýrnun tækifæra með hugsanlegum fjármagnsflótta. Þjóðir sem vilji keppa á heimsmarkaði verði einfaldlega að bjóða fjármagninu bestu kjör til ávöxtunar fyrir eigendur ef takast á að gera viðkomandi landsvæði að áframhaldandi vettvangi hagþróunar.

Á þennan hátt virðast aðstæður vinna með fjárfestum og atvinnurekendum, en að hluta gegn launþegum. Þetta eru ástæður þess að margir óttast nú að sótt verði með auknum þunga að

þeim ávinningum sem launþegahreyfingar margra ríkja hafa náð á liðnum áratugum. Afleiðingin sé aukin tilhneiging til „félagslegra undirboða“ vegna aukinnar samkeppni við fólk frá láglauna- og lágkostnaðarsvæðum.

Af ofangreindum sökum er ástæða til að spyrja hvort þokkaleg laun í vestrænum ríkjum muni halda áfram að batna eða þrýstast niður, hvort vinnuaðstæður þrengist og einnig hvort vestræna velferðarríkið, sem fjármagna þarf með sköttum og launatengdum gjöldum, hafi svigrúm til að dafna og viðhaldast? Margir sjá þannig í þessum breyttu aðstæðum vaxandi ógn fyrir launafólk á Vesturlöndum (Pierson 2001; Scharpe og Schmidt 2000).

Ekki er þó sjálfgefið að þessi þróun fari á versta veg (Stefán Ólafsson og Kolbeinn Stefánsson 2005, kafli 8). Þar veltur margt á stjórnvöldum og áhrifamætti launþegahreyfingarinnar. Stjórnvöld sem beita jöfnunaraðgerðum í skatta- og velferðarkerfum í umtalsverðum mæli geta spyrnt við slíkri þróun og varið almenning gegn óhagstæðri þróun lífskjara (Kenworthy 2004; Pontusson 2005). Þar sem launþegahreyfingin er áhrifamikil er að öðru jöfnu líklegra að slík sjónarmið séu í hávegum höfð.

## Nýtt umhverfi: tilvistarkreppa eða ný sókn?

Í sumum vestrænum ríkjum hafa launþegafélög brugðist við hinum nýju aðstæðum með ýmsum hætti. Algengt hefur verið að reyna að fjölga meðlimum, til dæmis með aukinni og bættri þjónustu, samruna við önnur félög og sókn inn á svið þar sem launþegafélög hafa verið veik fyrir. Árangur af þessu hefur oft verið minni en vonir stóðu til. Þar vegur þungt að breytingar á atvinnulífi gera að verkum að oft hefur verið á brattann að sækja. Það helgast af því að hinn dæmigerði meðlimur launþegafélaga fyrr á tímum var karlmaður sem starfaði í iðnaði. Verr gekk að fá konur, fólk í óreglubundnum störfum, starfsfólk í minni fyrirtækjum og starfsfólk í verslun og þjónustu til að ganga í stéttarfélög. Ungt fólk gengur að auki mun síður í launþegafélög en þeir sem eldri eru (Hyman 2002).

Hluti af vanda launþegafélaga í samtímanum er sá að með

framþróun þjónustu- og þekkingarhagkerfisins fækkar klassískum störfum launþegahreyfingarinnar í iðnaði en mest fjölgar á sviðum þar sem launþegafélögin voru yfirleitt veikari fyrir, þ.e. í þjónustu, sérfræðistörfum og hjá fólki í hlutastörfum (Boeri o.fl. 2001). Launþegafélög nútímans þurfa að höfða til nýrra hópa og stétta, sem kallar oft á breytta starfshætti og breytta ímynd en það getur reynt á þolrifin að halda tryggð eldri starfsgreina og höfða í senn til nýrra. Það er, eins og að framan var sýnt, helst í norrænu þjóðfélögunum sem þetta hefur tekist þokkalega.

Hættulegt er fyrir launþegahreyfinguna þegar þjóðfélagsaðstæður breytast jafn mikið og gerst hefur á síðustu tveimur til þremur áratugum. Hreyfing sem er orðin að virðulegri stofnun með reglubundið hlutverk og starfsemi á alltaf á hættu að fjarlægjast grasrótina. Áhugi getur dofnað og lífsneistinn slokknað. Þess vegna þarf launþegahreyfingin að endurnýja sig í sífellu. Hún þarf að vera þjónustumiðuð og fagleg upplýsinga- og hagsmunahreyfing. Miðlun upplýsinga um það sem miður fer, fræðsla um hvernig hlutirnir eru hjá þeim sem best vegnar og mat á því sem er að gerast hverju sinni þurfa að vera virkir þættir í starfseminni. Þetta kallar á virkari rannsóknir og miðlun en verið hefur. Hreyfingin þarf að taka fyrir ný verkefni. Sinna nýju fólki. Sýna frumkvæði. Vera nútímaleg og hefðbundin í senn.

Breyttar þjóðfélagsaðstæður í kjölfar hnattvæðingar og þekkingarþjóðfélags sýna að mikilvægi launþegahreyfingarinnar eykst um leið og það breytist. Tilefni hreyfingarinnar til að verja og bæta lífskjör almennings verða sífellt fleiri í þeim tíðaranda sem nú ræður för. Þeim er hægt að sinna m.a. með farsælum kjarasamningum, virkari þátttöku í þjóðmálaumræðu, umbótum á velferðarkerfi og öflugri lýðræðislegum umgjörðum stjórnvalda um heima markaða og fjármála. Tryggja þarf að hagvaxtarskilyrði séu góð og að þau nýtist til að bæta kjör alls þorra almennings en ekki einungis fámennrar yfirstéttar fjármálamanna. Brögð hafa verið að því síðarnefnda í löndum þar sem áhrifa launþega hefur lítt gætt, svo sem í Bandaríkjunum eftir 1980 (Stefán Ólafsson og Kolbeinn Stefánsson 2005, kafli 9). Hagvöxtur síðustu 25 ára eða svo hefur að langmestu leyti farið til tekjuhæstu hópanna þar í landi.

Bættur kaupmáttur almennings tryggir sterkan neytendamarkað sem skapar heilbrigðu atvinnulífi meiri tækifæri til vaxtar. Það eru farsælustu forsendur hagvaxtar. Ef fjármálamenn sitja um of einir að ávinningi hagvaxtarins og flytja jafnvel stóran hluta af honum til fjárfestinga í öðrum heimshlutum er hagsmunum almennings fórnað.

## Tækifæri launþegahreyfingar á nýrri öld

Tækifæri íslenskrar launþegahreyfingar á nýrri öld felast öðru fremur í að viðhalda og laga stöðu hennar að breyttum þjóðfélags-aðstæðum. Ef tekst að skila árangri fyrir félagsmenn er hlutverk hreyfingarinnar að öðru jöfnu tryggt. Þar ber auðvitað hæst að tryggja árangur í þágu hinna klassísku markmiða hreyfingarinnar: að hækka kaup, stytta vinnutíma, bæta vinnuskilyrði, auka réttindi og bæta samfélagsumhverfið í þágu almennings. Hér verður að lokum tæpt á nokkrum verkefnum sem brýn eru í íslensku samfélagi nútímans.

***Aukinn kaupmáttur launa***

Íslensk launþegahreyfing hefur náð góðum árangri í að auka kaupmátt launa á tíma þjóðarsáttarinnar frá 1990, einkum eftir að hagvöxtur jókst á ný upp úr 1995. Sú leið sem þar hefur verið farin er því vænleg svo framarlega sem forsendur halda. Þar eru þó blikur á lofti því svo virðist sem stjórnendur og eigendur fyrirtækja hafi sagt sig að hluta frá þjóðarsáttinni með hækkandi ofurlaunum stjórnenda og með stórauknum kröfum um arð í formi fjármagnstekna, sem að auki njóta verulegra skattfríðinda. Eðlilegast er að þjóðarsáttarsamningar af þessu tagi taki til allra aðila og þess vegna er ofurþensla á kjörum þeirra sem sitja á toppi atvinnulífsins alvarlegt mál frá sjónarhóli þjóðarsáttarinnar. Þrátt fyrir þetta frávik virðist ástæða til að áfram verði reynt að þræða leið þjóðarsáttarsamninganna og auka kaupmátt á þann hátt á næstu árum. Endurskoðunarákvæði þeirra samninga hafa einnig reynst vel til að fá fram önnur nýmæli, eins og til dæmis hinar




Mynd 2: Vinnutími á viku (allir starfandi). Fjölþjóðlegur samanburður 2003–2005.

mikilvægu endurbætur á atvinnuleysisbótakerfinu sem tóku gildi sumarið 2006.

***Stytting vinnutíma og aukin framleiðni***

Íslendingar hafa um langt skeið unnið langan vinnutíma, samanborið við aðrar þjóðir. Það hefur lítið breyst á síðustu árum, eins og ráða má af samanburðartölunum sem sýndar eru á mynd 2.

Tölurnar koma úr alþjóðlegri könnun (*International Social Survey Project*-www.issp.org) og sérstakri könnun sem gerð var fyrir Rannsóknarstöð þjóðmála við Félagsvísindastofnun Háskóla Íslands. Gögnin benda til þess að vinnutími Íslendinga sem eru í launaðri vinnu sé enn með þeim lengsta sem þekkist. Einungis vanþróaðri lönd eins og Pólland, Austur-Þýskaland, Mexíkó og Portúgal hafa álíka langan vinnutíma, en í þessum löndum er landbúnaður veigamikill þáttur atvinnulífsins og þar teljast alla jafna margar vinnustundir. Þó er erfitt að aðgreina vinnustundir og aðrar stundir daglegs lífs í slíkum þjóðfélögum og því vart um sambærilegar stærðir að ræða. Japan og Bandaríkin eru mun sambærilegri þjóðfélög með nútímalega atvinnuhætti og hátt hagsældarstig. Þótt þessar þjóðir séu þekktar fyrir mikla vinnuhörku eru þær samt með

styttri vinnuviku en Íslendingar, á þennan mælikvarða. Frændþjóðirnar á hinum Norðurlöndunum eru nær lægri endanum. Þar er mikil atvinnuþátttaka en lengd vinnuvikunnar hóflegri, sem er auðvitað merki um betri lífsgæði. Síðan eru Hollendingar með stystu vinnuvikuna að meðaltali, en þar er óvenju mikið um hlutastörf (Stefán Ólafsson og Kolbeinn Stefánsson 2005:178).

Íslendingar sameina sem sagt hvort tveggja, mikla atvinnuþátttöku og langa vinnuviku. Einnig liggur fyrir að framleiðni á vinnustund er frekar lítil á Íslandi, en það er einmitt oft fylgifiskur langrar vinnuviku. Þessi langi vinnutími er því galli á lífskjörum Íslendinga og óskynsamleg skipan í atvinnulífi. Það er því meira tilefni en víðast á Vesturlöndum til að stytta vinnutímann á Íslandi og auka jafnframt framleiðni á vinnustund, þannig að hægt sé að bjóða vinnandi fólki sömu heildartekjur fyrir styttri vinnutíma, þar sem meiru er afkastað á hverri stundu. Það væri hagræðing sem nýttist öllum. Atvinnulífið fengi skynsamlegri og hagkvæmari skipan vinnunnar, og sparaði útgjöld með styttra úthaldi á vinnustað. Fjölskyldufólk gæti betur sinnt heimilislífinu, ekki síst börnum, og þar með betur samræmt þarfir heimilis og vinnustaðar. Þannig væru skapaðar betri aðstæður til að reka nútímalegri fjölskyldustefnu á Íslandi en hægt hefur verið til þessa (Carnoy 2000).

Stytting vinnutíma og aukning framleiðni í atvinnulífinu er þannig kjörið verkefni fyrir nýja þjóðarsátt á Íslandi, þar sem báðir aðilar atvinnulífsins legðust á sömu árar með fjölþættum aðgerðum. Með því mætti ná fram mörgum brýnum markmiðum í senn og bæta verulega lífskjör þjóðarinnar. Slíkt átak er löngu tímabært hér á landi.

### *Breytt og réttlátari skattastefna*

Á síðustu tíu árum hefur skattakerfinu á Íslandi verið breytt með stórfelldum hætti. Skattleysismörk hafa rýrnað mikið, því að þau hafa ekki fylgt launavísitölu, og hefur það leitt til stóraukinnar skattbyrði um 90% heimila, mest hjá þeim sem lægri tekjur höfðu. Á sama tíma var skattaálagning lækkuð en sú lækkun vóg miklu minna en hækkunin á skattbyrði sem leiddi af rýrnun skattleysismarkanna. Útkoman varð því nettóaukning á skattbyrði, sem er




Mynd 3: Skattbyrði hjóna og sambýlisfólks 1993 og 2004. Heildarskattgreiðslur (beinir skattar) sem hlutfall heildartekna.

sú mesta sem orðið hefur í hagsælu ríkjunum á Vesturlöndum síðan 1995 (Stefán Ólafsson 2006c og 2006d). Á síðustu árum var svo tekinn upp fjármagnstekjuskattur sem felur í sér einungis 10% álagningu (á móti nálægt 40% álagningu á vinnulaun umfram skattleysismörk). Það leiddi til mikillar lækkunar á skattbyrði hátekjufólks. Afleiðingar þessara breytinga á skattastefnunni má sjá á mynd 3.

Gráu súlurnar sýna skattbyrðina í ólíkum tekjuhópum árið 1993, frá tekjulægstu 5% heimila (hópur 0–5) til tekjuhæstu 5% heimilanna (hópur 95–100), en að auki er útkoman sýnd fyrir tekjuhæsta 1% heimilanna í landinu (hópur 99–100). Svörtu súlurnar sýna skattbyrðina eins og hún var orðin árið 2004. Munurinn á hæð gráu og svörtu súlnanna sýnir breytinguna á skattbyrði á tímabilinu.

Sjá má að skattbyrði jókst langmest í tekjulægstu hópunum (sbr. muninn á gráu og svörtu súlunum) og dró síðan úr aukningunni eftir því sem í hærri tekjuhópa er komið, þ.e. lengra til hægri á myndinni. Í allra efstu hópunum lækkaði skattbyrðin svo gríðarlega, hjá tekjuhæstu 5% heimila lækkaði hún úr 33% í 21,5% og hjá efsta 1% heimila fór hún úr 35% 1993 í 15,8% árið 2004. Skatt-

byrði hátekjufólks á Íslandi virðist nú vera orðin ein sú allra lægsta sem finnst á Vesturlöndum, því í Bandaríkjunum greiðir efsta 1% heimila um 31% tekna sinna í skatta (Mishel o.fl. 2003:60).

Þessi skattastefna hefur farið saman við verulega lækkun á sköttum á fyrirtæki (sem gagnast eigendum fyrirtækja almennt mest) og lækkun eignaskatta og erfðafjárskatta (sem almennt gagnast stóreignafólki mest). Hér á landi hefur síðan 1995 verið framkvæmd ein róttækasta ójafnaðarstefnan í skattamálum sem sést hefur á Vesturlöndum í marga áratugi (sbr. OECD, *Revenue Statistics*, ýmis ár).

Þessi skattastefna bitnar sérstaklega illa á lífeyrisþegum, láglaunafólki og meðallaunafólki á vinnumarkaði. Hún eyðileggur þann ávinning sem var af láglaunakjarasamningunum á síðustu árum og skaðar jafnframt þann ávinning sem lífeyrisþegar nú á dögum ættu að fá af lífeyrissjóðunum á vinnumarkaði, en launþegahreyfingin kom þeim á í kjarasamningum árið 1969. Þessi stefna er fjandsamleg vinnandi fólki því hún hyglir sérstaklega fjárfestum sem lifa oft af eignum sínum í iðjuleysi um leið og vinnandi launafólki er refsað með mun hærri álagningu. Munur á skattlagningu atvinnutekna og fjármagnstekna er líklega hvergi á Vesturlöndum meiri en á Íslandi.

Launþegahreyfingin hlýtur að beita sér fyrir því að þessari skattastefnu verði breytt, annaðhvort með því að hækka skattleysismörk vel upp fyrir 130 þúsund krónur á mánuði (þau eru nú 79 þúsund og fara í um 90 þúsund á árinu 2007), eða með upptöku lægra álagningarþreps á lægri tekjur, líkt og víðast tíðkast í grannríkjunum.

### *Umbætur á velferðarkerfi*

Tvennt má nefna sem sérstaklega brýnt er að færa til betri vegar í velferðarkerfi Íslendinga. Annars vegar er það lífeyriskerfið sem þarf að stórbæta og hins vegar þarf að efla samfélagsþátttöku lífeyrisþega almennt og atvinnuþátttöku öryrkja sérstaklega.

Hvað lífeyriskerfið snertir er nú orðið ljóst að lífeyriskjör á Íslandi eru ekki nógu góð, þvert á það sem margir hafa haldið. Þetta kemur t.d. fram í mikilli óánægju eldri borgara og öryrkja með kjör sín, sem og í nýrri skýrslu OECD um gæði lífeyrisréttinda í aðild-

arríkjunum (OECD 2005). Samkvæmt úttekt OECD getur núverandi lífeyriskerfi Íslendinga (almannatryggingar, lífeyrissjóðir og skattakerfið sem gildir nú) einungis fært meðaltekjumanni um 54% af fyrri ráðstöfunartekjum í ellilífeyri (eftir skatta og skerðingar), en í aðildarlöndum OECD alls er samsvarandi meðaltal 64%. Meðal verkamaður á Íslandi getur fengið um 66% af fyrri ráðstöfunartekjum í lífeyri þegar meðaltal OECD-ríkjanna fyrir verkafólk er 69%. Þetta eru ekki nærri nógu góð lífeyriskjör fyrir Íslendinga sem eru ein af 10 ríkustu þjóðum heims og ættu að vera vel fyrir ofan meðallag OECD-ríkjanna hvað lífeyriskjör snertir.

Meginástæða þessa er aukin skattbyrði síðustu 10 ára á lífeyrisþega og lágtekjufólk almennt og miklar skerðingar á lífeyri almannatrygginga þegar aðrar tekjur vaxa. Þegar fólk sem hefur unnið alla starfsævi og greitt í lífeyrissjóði fær hærri lífeyristekjur úr sjóðunum skerðir ríkið lífeyri almannatrygginga ótæpilega á móti svo að lífeyrisþeginn nýtur einungis frá 22–34% af tekjunum úr lífeyrissjóðum eftir skatta og skerðingar. Í reynd þýðir þetta að ríkið er stærsti lífeyrisþegi lífeyrissjóðanna á vinnumarkaði, sem verkalýðshreyfingin kom á með kjarasamningunum 1969 til að skapa lífeyrisþegum viðbótarlífeyri umfram það sem almannatryggingar greiða. Það er vægast sagt öfugsnúin útkoma.

Skerðingar í almannatryggingakerfinu eru allt of miklar í dag og valda því, ásamt hækkun skattbyrðarinnar sl. 10 ár, að sá ávinningur sem launþegar áttu að njóta fyrir tilstuðlan lífeyrissjóðanna verður að litlu. Þetta eru meginskýringarnar á því að lífeyriskjör Íslendinga eru alls ekki nógu góð í samanburði við önnur vestræn ríki. Þessu þarf að gjörbreyta með breyttum skatta- og skerðingarreglum.

Um leið þarf að greiða fyrir aukinni atvinnuþátttöku öryrkja og eldri borgara með eflingu starfshæfingar og endurhæfingar, svo og að hvetja lífeyrisþega til að afla sér atvinnutekna og auka samfélagsþátttöku sína (Stefán Ólafsson 2005 og Tryggvi Þór Herbertsson 2005). Raunverulegur fjárhagsávinningur þarf að vera af því fyrir lífeyrisþega að stunda launaða atvinnu, samhliða töku lífeyris. Eins og þessum málum er nú háttað er fólk frekar fest í fátæktargildrum inni í velferðarkerfinu sjálfu en það sé hvatt

til sjálfsbjargar. Með breytingum á þessum sviðum yrði til bæði sanngjarnara og skynsamlegra velferðarríki. Umfram allt yrði það virkara velferðarríki.

***Barátta gegn ójöfnuði í samfélaginu***

Ein mikilvæg afleiðing fyrrgreindrar skattastefnu er sú að ójöfnuður í tekjuskiptingu Íslendinga hefur aukist mikið síðan 1995. Sú staðreynd kemur fram í tölum frá fjármálaráðuneyti, Hagstofu Íslands, Ríkisskattstjóra og Hagfræðistofnun Háskóla Íslands (sjá Stefán Ólafsson 2006a og 2006b). Ójöfnuðurinn hefur aukist hratt í samanburði við gang mála annars staðar á Vesturlöndum frá um 1970. Þetta er því róttæk breyting á íslensku samfélagi. Athyglisvert er að þessi þróun skuli að stærstum hluta verða vegna aðgerða ríkisvaldsins, einkum á sviði skattamála en einnig á sviði velferðarmála.

Ef ekki verður snúið snarlega af þessari braut verður Ísland ekki lengur að fullu í hópi norrænna samfélaga, sem hafa jafnasta tekjuskiptingu á Vesturlöndum. Í staðinn gæti komið samfélag sem á meira skylt við breskt og bandarískt þjóðfélagsumhverfi, þar sem fátækt og stéttaskipting er mun meiri en tíðkast í Skandinavíu. Það er undarlegt að Ísland skuli þessi árin vera að fjarlægjast skandinavísku frændþjóðirnar, einmitt þegar þær skara í vaxandi mæli fram úr flestum öðrum þjóðum á sviði almennra lífsgæða, lýðræðis, nýsköpunar og hagsældar. Hér er því um grundvallarspurningu um þróun íslenska þjóðfélagsins að ræða. Launþegahreyfingin er líklega eini aðilinn í samfélaginu sem getur breytt þessari þróun aftur í átt til skandinavísku leiðarinnar, ef ríkisvaldið heldur óbreyttri stefnu.

Það er því af mörgu að taka fyrir launþegahreyfinguna á 21. öldinni. Ef vel tekst til mun launþegahreyfingin áfram hafa þá mikilvægu stöðu sem hún hefur haft í íslensku samfélagi á síðustu áratugum. Það er til mikils að vinna.

# Heimildir

Boeri, T., A. Brugiavini og L. Calmfors ritst. 2001. *The Role of Unions in the Twenty-First Century.* Oxford.

Carnoy, M. 2000. *Sustaining the New Economy: Work, Family and Community in the Information Age.* New York.

Dore, Ronald. 2000. *Stock Market Capitalism: Welfare Capitalism. Japan and Germany Versus the Anglo-Saxons.* Oxford.

Freeman, R. 2005. „What Really Ails Europe (and America): The Doubling of the Global Workforce“. *Globalist*, 3. júní 2005.

Hannes H. Gissurarson. 2001. *Hvernig getur Ísland orðið ríkasta land í heimi?* Reykjavík.

Hyman, R. 2002. „The Future of Unions“. *Just Labour* 1(1):7–15.

Kenworthy, Lane. 2004. *Egalitarian Capitalism.* New York.

Mishel, L., J. Bernstein og H. Boushey. 2003. *The State of Working America.* Ithaca.

OECD. 2005. *Pensions at a Glance.* París.

OECD. 2004. *Employment Outlook.* París.

OECD (ýmis ár), *Revenue Statistics.* París.

Pierson, P. 1994. *Dismantling the Welfare State? Reagan, Thatcher and the Politics of Retrenchment*. Cambridge.

Pierson, P. (ritstj.). 2001. *The New Politics of the Welfare State.* Oxford.

Pontusson, Jonas. 2005. *Inequality and Prosperity: Social Europe vs. Liberal America.* Ithaca.

Rhodes, M. 2001. „The Political Economy of Social Pacts: Competitive Corporatism and European Welfare Reform“. *The New Politics of the Welfare State.* Ritstjóri P. Pierson. Oxford.

Ríkisskattstjóri (gögn á heimasíðu). „Staðtölur skatta“, á www.rsk.is.

Scharpe, F. og V. Schmidt (ritstj.) *Welfare and Work in the Open Economy,* 1.–2. bindi. Oxford.

Stefán Ólafsson. 1999. *Íslenska leiðin.* Reykjavík.

Stefán Ólafsson. 2005. *Örorka og velferð á Íslandi og í öðrum vestrænum löndum*. Reykjavík.

Stefán Ólafsson. 2006a. „Breytt tekjuskipting Íslendinga: Greining á þróun fjölskyldutekna 1996–2004“. *Rannsóknir í félagsvísindum VII*. Ritstjóri Úlfar Hauksson. Reykjavík.

Stefán Ólafsson. 2006b. „Aukinn ójöfnuður á Íslandi: Áhrif stjórnmála og markaðar í fjölþjóðlegum samanburði“. *Tímarit stjórnmála og stjórnsýslu*, haust 2006. Reykjavík.

Stefán Ólafsson. 2006c. „Stóra skattalækkunarbrellan“, birt á heimasíðunni www.hi.is/~olafsson.

Stefán Ólafsson. 2006d. „Heimsmet í hækkun skatta?", birt á heimasíðunni www.hi.is/~olafsson.

Stefán Ólafsson og Guðný Eydal. 2006. „Family Policy in Iceland: An Overview", birt á heimasíðunni www.hi.is/~olafsson.

Stefán Ólafsson og Kolbeinn Stefánsson. 2005. *Hnattvæðing og þekkingarþjóðfélag.* Reykjavík.

Tryggvi Þór Herbertsson. 2005. *Fjölgun öryrkja.* Reykjavík.

# Nafnaskrá